Dr. Ch. Bastholms

# Hugleidingar

fyrir

## Altaris-gaungu fólk.

Uppbyggilegar til

## Húslestra,

einkum Haust og Vor, þegar fólk almennast tídkar heilaga Qvøldmáltíd.

á Islendsku útlagdar

af

**Þorvaldi Bødvarssyni,**

Skólahaldara.



Seljast almennt innbundnar, 28 skild.

Leirárgørdum vid Leirá, 1800.
Prentadar á kostnad Islands almennu Uppfrædingar Stiptunar,
af Factóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

# Formáli.

Vid útgáfu þessara Hugleidínga fyrir Altaris-gaungu fólk, vil eg einúngis hafa Lesarann umbedinn ad affaka mig, þó hann í nefndum Hugleidíngum sakni þess, sem heyrir til Frædi-bóka vorrar kirkju i því efni; ad nockru leiti gjøri eg ráð fyrir, ad sérhvørr einn hafi í æsku sinni numid svo mikid af því, sem honum liggur á ad vita, hvørs vegna



þad

þad mundi vera um skør fram ad ítreka hér þad sama, þar menn fá þó ecki sagt neitt meira edur betra, því efni vidvíkjandi, enn þad, sem þegar er ádur framsett; ad nockru leiti er eg líka sannfærdur um, ad gjørvallur tilgángur þeirrar heiløgu qvøldmáltidar, víkur mest vid sidferdi vorn og lífshættum; hún er ecki innsett til þess, ad hnýsast í, og gjøra sér þær edur þær grillur um, heldur til ad tjá sínar verkanir í dag-fari voru; ecki til ad æsa vorn skilning, og fá honum nockud ad hugsa úti, heldur til ad helga og lagfæra vort hjarta. Eg hef því hvørvetna leitast vid ad

gjøra

gjøra manneskjuna sjálfri sèr kunn, ad draga af henni þann dular-hjúp, sem leynir henni; ad uppørfa hana til dygdar, rádvendni og gódra og kristnum manni sæmilegra athafna, í hvørju allur vor kristinndómur er í raun og sannleika innifalinn. Eg hefi þess vegna framar leitast vid ad fræda, enn ad vekja til viknunar; því eg virdi ad vísu ecki harla mikils vorar sanfalegu tilfinningar, sem frá skilníngar vitunum koma, og sè þeim ecki samfara sannarleg hjartans lagfæring, eru þær hvørki í Guds nè manna augum neins verdar. Ef ad þessar Hugleidíngar gèta þá adstodad nock-

til hins sanna, verkanol og avaxt-
arsama kristinndóms eblingar medal
minna sam-kristinna, svo mun, ad
minnsta kosti, þeim, sem finna sig med
þeim uppbyggda, ecki þykja þessa
litla verki ofaukid, medal svo margra
annara sama slags, er oss (Donskum)
bættst hafa um nockur ár, eptir þad
menn svo lengi høfdu mátt láta sei
nægja med einsamla Fresens Com-
múnións bók.

Rithøfundurinn.

# Innihaldid.

## I. Almennilegar Hugleidíngar.



## II. Staklegar Hugleidíngar.



X. Kap.

I. Kap.

# I. Kapítuli.

## Þau fiærlægari augna-mid heilagrar Qvøldmáltídar.

Jesú Krists speki og gædska olli því, ad hann innsetti þá heilogu Qvøldmáltíd, og tilskipadi í sinni kirkju þessa gudlegu útvortis athöfn, í hag sínum tilbidjendum, sem eru sansalegar verur. Vér erum ecki einúngis andar; vér hofum ecki einúngis sál, vér hofum einnig líkama; vér erum ecki ad eins gæddir skynsemi, heldur og einnig sonsum og innmindun. Þegar jafnframt sannfæríngu skynsemi vorrar, sansar vorir komast vid, innmindunarkraptur vor tekur ad hitna, og verkfæri vorrar innvortis tilfinníngar setjast í horf heilagra tilfinnínga, þá breyngja sannindin sér, þeim mun djúpar og oblugar inn á oss; laungun vor til ad hlýdnast þeim, verdur þeim mun rótfastari, og vér finnum sjálfa oss því sælli.

Egin reynsla fær yfrid vel, sannfært flesta kristna, um þann sannleika. Eda



finn-

finnum vér, þá vér erum í einrúmi, med vorar andlegu hugleidíngar, til þvílíkrar [illegible]ktar, verdum vér þá svo glóandi í andanum, finnum vér vora sálu eins upplypta sér til Guds, eins og vér finnum þetta vid Drottins altari? efalaust mega flestir kristnir játa, ad þeirra tilfinníngar verda ecki í afvíknum bæna-stad jafnheitar og álvarlegar. Þetta, ad eg sie hér um kríng mig Drottins hús; sá þánki, ad Drottinn er hér sérdeilislega nálægur; þetta, ad eg krýp nidur fyrir altari því, sem vígt er Jesú Kristi til vyrdar, svo margir kristnir menn, hins sama tilgángs vegna, samankomnir, svo mörg höfud upplypt til himins, svo mörg hjörtu, sem öll óska hins sama; andakt, tilbeidsla, lotníng, líka sem málud á allra ásjónum; hvörsu djúpar, kroptugar verkanir má ecki allt þetta hafa, til ad hræra hjartad? hvörsu má ecki sálin fyrir þetta upplyptast frá jördunni til himinsins, og uppfyllast med eintómis heilögum og sáluhjálplegum tilfinníngum.

Þessar tilfinníngar, sem eru svo þarflegar fyrir oss, ecki þess vegna, ad þær séu í sjálfum sér nockurs verdar, heldur af því, ad þær styrkja sálina í sinni ydju, upp-

uppvorfa hana og koma henni sem á flug. Þessar tilfinníngar vildi Jesús uppvekja í brjóstum sinna tilbiðjenda; þess vegna skipaði hann oss til handa þessa sansalegu guðræknis athøfn, og að forsóma þessa athøfn er því vanþacklætis-fullt þeckingar-leysi á Jesú vísdómsfullu gæðsku við breyskar og sansalegar skèpnur; það er synd mót þeim háleita høfundi, hvørs tilgángur enginn var annar, enn vor egin farsæld; og synd ígégn sjálfum oss, þared vèr sviptum oss sjálfa þessari farsæld, sem oss var ætlud. O! kristnir menn! forsómið þá ecki þetta verk, sem sjálfum ydur er svo sáluhjálplegt! svo lengi sem vèr erum á vegferdinni hèr niðri í heimi þessum, sem hefir svo margar freistíngar fyrir oss, fáum vèr aldrei nógu vandlega og alúdlega sætt øllum tækifærum, aldrei nógu vandlega varið øllum medølum þeim, sem slíta oss lausa frá vorum tímanlegu ønnum, sem samansafna vorum dreifðu hugsunum, kalla sálu vora til kyrrdar aptur, snúa vorum hjørtum frá því nálæga til þess ókomna, efla vora andakt, uppvorfa oss og vekja af voru andlegu sleni.

En þetta medal, sem Jesús hefir tilsett til betrunar vorrar og sarsælldar, hlýtur svo ad brúkast, sem þess visdómsfulla hofunds tilgángi sambýdur, egi þad ecki ad verda ávaxtarlaust. Hid besta læknismedal gagnar alls ecki, sé þad ecki rétt brúkad; sú heilagasta athøfn verdur ávaxtarlaus, þegar hún er ecki eptir sínu augnamidi um hond høfd; því verdur og þetta verk hjá svo morgum kristnum ávaxtarlaust. Þeir koma frá Drottins bordi, og verda eptirleidis hinir somu, sem þeir ætíd verid hafa. Og hvør eru þá augnamid þessarar heiløgu athafnar? eg vil fyrst hondla um hin fjærlægari augna-mid þessarar stiptunar, ádur enn eg kém til hennar nærsta adal augna-mids. Med hinum fjærlægari augna-midum qvøldmáltídarinnar tel eg þrjú:

Hid fyrsta fjærlægara augna-mid þessa gudlega verks, er innifalid í þessum Páls ordum: blessunarinnar kaleikur, hvørn vér blessum, (med þackar-gjord medtokum) er hann ecki sameining Krists blóds? og braudid, hvørt vér brjótum, er þad ecki sameining med Krists líkama? 1 Cor. 10. Gjorvallt samhengi

hengi málsins i Páls sendibréfi og tilgángur þessarar afmálunar kénnir oss hid ljósasta, ad Postulinn vilji med þessum ordum hafa sagt svo mikid: allir þeir, sem eta af braudinu játast Kristi, sem útgaf sinn líkama í daudann, og allir þeir, sem drecka af kaleiknum játast Kristi, sem lét úthellast sínu blódi. Vér siáum þá af þessu, ad vér med því ad gánga til Drottins bords opinberlega játumst Kristi og hans dýrkun, allteins og Israels fólk, med því ad eta af fórnunum, játadi sig til þess altaris, sem Israels Gud var tignadur á, og Heidíngjarnir játudu sig til skurdgodanna, med því ad eta af skurdgoda-fórnunum*).

En, sé sú heilaga qvöldmáltíd þvílík opinber, hátídleg játning, med hvörri menn játa sig til Krists og hans safnadar,

 ját-

*) Vid þá heimuglegu medtekníngu qvöldmáltídarinnar í heimahúsum, missist, sem öllum er andskilid, þetta fiærlægara augnamid af heilagrar qvöldmáltídar innsetníngu. Sú heimúglega brúkan qvöldmáltídarinnar í heimahúsum, getur aldrei verid opinber játníng, hvar med menn kenna sig vid og medkenna Krist. En engu ad sídur kann þó hid nærsta adal augnamid þessarar stiptunar fyrir því allvel ad nást-

játast undir hans lærdóm og hans lífs-regl-ur; skyldi eg þá ecki finna til þeirrar háleitu skyldu, sem á mér liggur, svo sem þeim, er skírdur er uppá hans nafn, ad vitja hans bordhalds, og framkoma medal annara kristinna manna fyrir þad altari, sem vígt er honum til dýrdar, og ad medkénna hann fyrir mínum samkristnum? hvad nú? ef eg held mér frá þessu hátídlega verki, má eg þá ecki med øllum rétti qvída, ad á mig muni hitta Jesú hótan, er ecki hans fyrir-heit: hvørr, sem medkénnir mig fyrir mønnunum, hann vil eg medkénna fyr-ir mínum himneska Fødur, Matth. 10. Hvorsu réttvís er þessi hótan! hvorsu sann-gjarn þessi dómur! mun Jesús géta álitid mig sem þegn sinn, þegar eg vil ecki álíta hann fyrir mitt høfud og Herra? sem sinn lærisvein, þegar eg vil ecki þeckja hann fyrir minn lærifødur? mun hann géta þeckt mig fyrir sinn endurleystann, þegar eg vil ecki álíta hann sem minn forlíkunar-mann? og mun hann, fyrir sínum himneska Fødur, géta medkénnt mig ad vera þann, sem hann rauna ecki álítur mig ad vera? þann, sem eg ecki gét verid? nei, ef eg vitjadi ecki Drottins bordhalds, ef eg þverúdarsam-

lega

lega héldi mér frá hans altari, þá ynni eg ecki til ad heita, því sídur vera hans þegn edur læriſveinn; eg væri á medal hans endurleyſtra hinn óverdugaſti, óverdugur þeirrar miklu nafnbótar, ad heita kriſtinn madur, óverdugur allra þeirra velgjörnínga, ſem hann hefir áunnid mér med ſinni komu í heiminn og med ſinni blódugu útför af heiminum.

En, þad nægir þó ecki, ad eg mæti fyrir Jeſú altari; þad nægir ecki, ad eg opinberlega medkénni hann med munninum og ytri hegdun; mínar útvortis athafnir og míns hjarta innvortis tilfinníngar hljóta ad vera ſín á milli ſamqvæmar; ef eg med munninum einúngis kénni mig vid Kriſt, en afneita honum í verkinu; ef eg med munninum medkénni hans lærdóma, en neita þeim í hjartanu, neita þeim í gjörvöllu mínu framferdi. Þá er eg hræſnari; eg er þá líkur hinum ſágudu gröfum, ſem utan eru fagrar, en innan fullar af daudra manna beinum og allskonar óþeckt. Eg vil bleckja mennina, eg vil bleckja minn Gud, en eg blecki ſjálfann mig. O! ef eg med medkénndi ecki Kriſt ſvo vel med hjartanu, ſem med þeſſari útvortis athöfn,

þá væri betra, ad eg aldángis héldi mér frá Drottins bordhaldi; eg drÿgdi med því einni synd færri; eg væri þá ad minnsta kosti ecki hræsnari; eintóm munnsins játnsing fær þó ecki útvegad mér míns Guds nád. Þeir einir gêta sáluhólpnir ordid, sem med munninum medkénna Drottinn Jesúm, og í hjartanu trúa, ad Gud hafi uppvakid hann frá daudum, Róm. 10. Ecki þeir, sem med munninum segja: Drottinn! Drottinn! fá inngengid í himnaríki, heldur þeir, sem gjøra fødursins vilja, þess, sem á himnum er, Matth. 7. Eg hlÿt þess vegna ad trúa því í hjartanu, sem eg játa med munninum, eg hlÿt ad framqvæma og æfa það í verkinu, sem eg trúi í hjartanu.

Þad annad fjærlægara augnamid þessarar heilögu stiptunar, er innibundid í ordum Páls: 1 Cor. 10, svo sem þar er eitt braud, svo erum vér allir einn líkami, því vér erum allir hluttakandi í enu sama braudi. Med þessum ordum vill Postulinn hafa sagt þetta: Þegar vér í nautn qvøldmáltídarinnar verdum hluttakandi sama brauds, þá játum vér med því, ad

ad vér allir séum limir hins sama líkama, edur heyrum allir til því sama andlega samfélagi, hvörs Höfundur og Herra Kristur er.

Þegar eg þá geng til Drottins bord-halds, vidurkénni eg med því fyrir mínum sam-kristnum, ad eg sé limur kristilegrar kirkju, medborgari í Jesú andlega ríki. En, svo hlýt eg líka í verkinu ad uppfylla þær skyldur, sem hvíla á mér, eins og ödr-um borgara og samborgara. Heidra eg þá líka Jesúm Krist sem mitt höfud? elska eg hann? hlýdnast eg honum? þessar eru hinar veruleguſtu skyldur, sem sérhvörr gódur þegn er Kóngi sínum um skyldug-ur; þessar eru og hinar helstu skyldur, er eg á Kristi ad láta, svo sem mínu höfdi og Herra, svo sem höfdi þess safnadar vid hvörn eg kénni mig med nautn þessarar heilögu qvöldmáltídar. Elska eg líka mína samborgara í þessu andlega ríki? hvörsu sem þeir eru mér ólíkir ad standi, aldri og lucku-kjörum, ad vitsmunum og gédslagi, eru þeir þó mínir samborgarar. Þeir jafnvel, sem í mörgu þenkja ödru-vísi enn eg, þeir eru þó mínir samborgarar. Þeir jafnvel, sem eru mínir óvinir, þeir,

 sem

sem hata, þeir, sem ofsækja mig, eru þó mínir samborgarar; þeir eru limir Jesú andlega ríkis; þeir eru mínir sam-endurleýstir; þeir eru ásamt mér kalladir til sömu sáluhjálpar; þeir standa undir yfirrádum Krists, sem er Drottinn allra; í einu ordi: þeir eru brædur mínir. Elska eg þá líka eins og mína samborgara, eins og brædur mína? elska eg ecki ad eins vini mína? ægt eg jafnvel fullnægt Jesú skipuni: elskid þér óvini ydar, blessid þá er ydur bølva, gjørid þeim gott er ydur hata, og bidjid fyrir þeim, er ydur skada og ofsækja, Matth. 5. Æ! hvad fær þad gagnad mér, þó eg med munninum játi mig lim þessa andlega félags? þegar eg í verkinu fullnægi ecki þeim heilögu skyldum, sem eg er mínum samborgurum um skyldugur? skyldi eg þá flytja hatur, reidi, øfund, hefndar-girni med mér inn fyrir Jesú altari. Mun þetta syndsamlega hugar-far fá stadist med þeim bródurlega kjærleika, sem sameina á alla kristna, já, alla Jesú endurleysta med einu vináttu og einingar-bandi? nei! minn Gud! med þessum tilfinníngum, yrdi eg vidbjódslegri í þínum augum, enn mínir óvin-

óvinir eru í mínum. Þín elska umsadmar allar þínar skepnur; eg vil feta í þín fótspor; þú létst lífið, minn Friðþægjari! jafnvel fyrir þína óvini, þú badst fyrir þínum mordíngjum; mitt hjarta hlýtur ad vera lagad eptir þínu hjarta, ef þú átt ad álíta mig fyrir verdugann borgara í þínu ríki.

En, eg hlýt líka í verkinu ad láta í ljósi minn bródur-kjærleika. Þegar eg mæti fyrir Drottins altari, þegar eg vid þessa heilögu athöfn opinberlega medkénni mig ad vera medlim Jesú Krists safnadar, medlim þess andlega félags, hvørs höfundur og höfud sjálfur hann er, þá vidurkénni eg undir eins þá háleitu og mikilvægu skyldu, sem á mér liggur, til ad framfylgja tilgángi gjörvalls þessa félags, sem er tímanleg og einkum eilíf farsæld sérhvørs borgara þar inni. Eins og hvørr limur á líkamanum samverkar til gjörvalls líkamans og sérhvørs lims vidurhalds, svo á eg, sem er limur á Jesú líkama, og borgari í hans andlega ríki, ecki sídur ad verja øllum mínum kroptum til farsældar-eblíngar sérhvørs eins af mínum sam-kristnum. Þetta sé hédan í frá mitt heilagasta

 áform!

áform! hédan í frá vil eg vera alvøru-géfnari enn eg ad undánfornu verid hefi, í því ad verdsla því pundi, sem minn Guð hefir trúad mér fyrir. Hvørr veit, hvørsu lengi mér verdur til þess trúad? eg vil verja øllum mínum kroptum í þeirri stétt og lífs-høgum, sem Guds forsjón hefir sett mig í, til ad vera þarfur mínum sam-kristnum, svo þarfur, sem mínir veiku kraptar leyfa. Eg vil med mínum efnum adstoda þurstuga, og sæ eg ecki adstodad þá, vil eg þó hugsvala þeim. Eg vil gjøraſt ráda-neyti og leidtogi rádvilltra, eg vil vísa aptur á réttann veg þeim villtu. Eg vil áminna óráðvanda; hugga ó-støduliɩla, styrkja breyſka, vera þol-inmódur vid alla, 1 Thess. 5. Í gjør-vøllu mínu dag-fari vil eg þannig láta mitt ljós lýsa fyrir mínum medbrædr-um ødrum mønnum, ad þeir fái séd mín gódverk, og prísi minn fødur, sem er á himnum, Matth. 5. Þessi skal vera minn heilagaſti, minn óraſkanlegaſti áſetníngur; þá er eg verdugur limur þess sam-félags, er eg svo hátídlega kenni mig vid; þá mun þessa sam-félags høfud og Herra líka láta mig njóta allra sam-félags-

sins

sins hagsælda, og í náð líta ofan til minnis ar gudlegu athafnar..

Hid þridja fiærlægara augnamid þessa gudlega verks, er innifalid í þessum Jesú ordum: þetta er mitt blód, blód þess nyja sáttmála, sem úthellast mun fyrir marga til syndanna fyrirgéfníngar, Matth. 26. Med þessum ordum af Jesú munni verd eg minntur á hinn mikla og huggunar-ríka sannleika, ad Jesús hefir fyrir sinn dauda, stiptad nyjann sáttmála vid Gud, og aftekid hinn gamla, þyngsla-fulla, ógnandi og skélfandi israelitiska sáttmála. Þessi heilaga máltíd er mér hátídlegur pantur og fullvissa uppá þenna mikla sannleika, ad eg hefi fyrirgéfníngu hjá Gudi fyrir Krists dauda. Þó eg sé syndari, og vegna synda minna míns Guds nádar óverdugur, hef eg nú samt þá vissa von, ad finna nádugann Gud og forlíktann fodur. Jesús Kristur hefir afrekad mér þessa nád; hann hefir af Guds álfu géfid mér fullvissu um hana, og þessi heilaga máltíd á ad styrkja mig í þessari sáluhjálplegu fullvissu. Svo sannarlega, sem eg et af þessu braudi, og dreck af þessu víni, svo sanna vissu hefi eg um þad, ad eg á hlut-

skipti í öllum þeim miklu ráðstöfunum, sem minn Guð gjört hefir til minnar forlíkunar.

O! hvílík huggan! hvílík uppörfan fyrir mína sálu er þessi þánki! að enn þá er náð mér til handa, að mínar syndir géta orðið útsléttar og afmáðar, að eg, þegar eg hverf aptur til Guðs með einlægu hjarta, gét með vissu vænt að finna hann forlíktann föður, hjá hverjum að er mikil fyrirgéfníng. Hvað! ef þessi fullvissa styrkti mig ekki, hvörn hug og dug, hvörja eptirlaungun, hvörja alúð og alvöru mundi eg þá géta fundið hjá mér, til að stríða við og yfirvinna sjálfann mig, til að brjótast fram á dygðarinnar veðhlaupi, gégnum allar þær óblugu freistíngar, sem alla vega að mér sækja og umsitja mig? hvaða krapt gæti eg þá fundið til að ráðast mót öllum mínum andlegu óvinum, þegar eg hefði að qvíða því, að eg eptir allt mitt stríð, alla mína baráttu, hlyti þó að lokunum fortþnast.

Nei, nú veit eg að þar er frelsi fyrir mína ódauðlegu sál. Enn þá stendur mér himininn opinn; enn þá útbreiðir einn forlíktur faðir sinn ástar faðm til að taka á móti mér. Jesú blóð, sem úthellt var til

synd-

syndanna fyrirgéfningar, þad er líka ûthellt til fyrirgéfningar minna synda. O! einn huggunar-ríkur sannleiki! og þessi heilaga máltíd er mér svo hátídlegur pantur uppá þenna sannleika. Hvílík upporsan minni sálu, til ad berjast og hlaupa, er vissa sû, ad eg þó loksins fæ nád því ...álinu, sem á vedhlaupsins enda er uppsett handa mér, og fæ hondlad þad hnoss, sem Jesús hefir mér útvegad, þegar eg loksins hef endad mitt vedhlaup.

En, minn Gud! vilji eg hondla þetta hnoss, þá hlýt eg ad trúa á hann, sem þú útsendir, Jesúm Krist, eg hlýt ad medtaka hann fyrir þann, fyrir hvorn þú útsendir hann. En, engin daud, engin dádlaus trú gétur gjort mig hluttakandi í þessu hnossi; mín trú á ad vera kroptug fyrir kjærleikann; mín trú hlýtur ávaxtarsom ad vera ad gódum, ágætum og Jesú tilbidjara velsæmandi athofnum. Mín trú, hlýtur ad láta sig í ljósi í mínu gjorvollu dagfari, svo eg hreinsi mig af allri saurgun sálar og líkama, og helgi mig allann med því ad óttast Gud, 2 Cor. 7. Svo ad eg kosti alls kapps um, ad eg tjái í minni trú stødugglyndi, í stødugg-

lynd-

lyndinu hyggindi, í hyggindunum bindindi, í bindindinu þolinmædi, í þolinmædinni Guds ótta, í Guds ótta bródurlegann kjærleika, í bródurlegum kjærleika almennilegann kjærleika, 2 Pét. 1. O! minn Gud! þetta skal vera mink ásetníngur í dag, minn heilagasti og alvarlegasti ásetníngur, þannig ad sýna mína trú med mínum verkum, med heilögum og þér þócknanlegum verkum; þá finn eg ecki einúngis hina gledilegu hjartafridandi fullvissu, ad Jesú blód, blód þess nýja sáttmála sé úthellt til fyrirgéfníngar minna synda, heldur veit eg líka med vissu, ad eg í raun réttri, er hluttakandi ordinn ennar sömu fyrirgéfníngar. Styrk mig, o Jesú! í þessum heilaga ásetníngi, svo eg aldrei vísvitandi bregdi af né gleymi honum. Æ! ef eg gleymdi honum, ef eg vísvitandi yfirtrædi mitt áform, hvorsu miklu stærri mundi þá mín sekt og synd verda! Jesú daudi yrdi þá gagnslaus fyrir mig; já, hann legdi þá nýjann byrdar-þúnga til minnar fordæmíngar; Jesús væri ad sönnu útgéfinn fyrir mínar syndir, og uppvakinn mér til réttlætis, Róm 4. og eg yrdi þó eilíflega ad tortýnast.

II. Kapí-

## II. Kapituli.

### Það næsta aðal augnamið heilagrar Qvøldmáltiðar.

Hið næsta aðal augnamið þessarar heilögu máltiðar, hefir Jesús nógu skilmerkilega gêfið oss til vitundar. Hann tók brauðið, þackaði og braut það og sagði: takið, etið, það er minn líkami, sem fyrir yður verður brotinn; gjørið þetta í mína minníngu. Hann tók sømuleiðis kaleikinn eptir qvøldmáltiðina og sagði: þessi kaleikur er nýtt sáttmál fyrir mitt blóð, gjørið þetta, svo opt, sem þêr það dreckið, í mína minníngu. Kristur ítrekar tvisvar þessa skipun: gjørið þetta í mína minningu! og Páll segir: svo opt, sem þêr etið af þessu brauði og dreckið af þessum kaleik, skuluð þêr kunngjøra dauða Drottins þángað til hann kêmur, 1 Cor. 11. Vêr sjáum af þessu, að sú heilaga qvøldmáltið er endurminníngar máltið; hvílik máltið, sem ætluð er til þess, að kristnir menn í og með henni skuli hátíðlega endurminnast Krists dauða, hans písla og þeirra velgjørða,

gjørda, sem hann med sinni pínu og dauda hefir afrekad heiminum.

Þvílik endurminníngar-máltid var Páska-máltídin hjá Israels fólki, sem innsett var til árlegrar endurminníngar frelsis þess af Ægypta-landi. Vér hof-um enn þá á vorum dögum þvílikar end-urminníngar-máltídir. Veitslur þær, er sumir gjöra á sínum afmælis-degi, hvad eru þær annad enn endurminníngar-mál-tídir til ad minnast hátídlega Guds vel-gjørda vid oss? og þvílik endurminníng-ar-máltíd er heilög qvøldmáltíd, sem til-skipud er til ad minnast Jesú pínu og dauda fyrir heiminn. Vér erum svo daufir og svefn-samir; oss gleymast svo audveldlega Drottins stærstu velgjørdir; oss gleym-ast þær, jafnvel midt í því vér erum ad njóta þeirra, ef oss er ecki sífeldt vakid minni um þær. Jesús Kristur þeckti þessa gleymni hjá sínum mannskepnum, þess vegna tilskipadi hann þessa heilögu mál-tíd, ad vér í og med heñi skyldum eñ lifsegar enn annars, enn þá hátídlegar enn vant er, hugsa um hann, hans pínu, hans for-líkandi dauda og allar þær velgjørdir, er vér eigum honum ad þacka. Og mundum vér

ecki

ecki vera hinir óþacklátustu af ollum Guds sképnum, ef vér ecki vildum setjast ad þessu bordhaldi, edur ef vér vid þetta bordhald ecki vildum minnast hans, sem útheimti af oss þenna vott um þacklátsemi vora, fyrir svo miklar, svo óútsegjanlega miklar velgjordir? hvad? ef einhvorr dandvona ástvinur, eda velgjorda-madur, eda fadir, léti á sinni bana-sæng hina sídustu bón sína til sinna vina og áſtfólginna og barna, vera þessa: eg skil vid ydur, mínir ástvinir! þér vitid hvorsu mikid eg hefi elskad ydur, af hvorsu heitri ást til ydar hjarta mitt hefir brunnid, hvorsu alvarlega eg hef látid mér annt um, ad ebla af ollum mætti ydar velferd; en eg þeckí líka breyskleika mannsképnanna; eg veit hvorsu fljótt monnum gleymist bædi velgjorda-madurinn og velgjordirnar; og þessi gleymni, hún er ydur eins skadvænleg, eins og endurminníng hans og þeirra er ydur holl. Því sérskari, sem endurminníng ydar velgjorda-manns vakir ydur í huga, því meir elskid þér mig, og því innilegar, sem þér elskid mig, því vandlegar verjid þér mínum velgjordum til ydar sonnu heilla; og því sælli erud þér í því þér njótid þeirra.

Safn-

Safnist þess vegna saman einusinni edur optar á ári hvorju vid eitt bordhald; minnist vid þetta bordhald ydar framlidna velgjörda-manns; glædid med þessari endurminníngu ydar elsku til hans, svo ad ydar elska til hans sái upporfad ydur til, ad verja svo hans velgjördum, sem sambýdur hans vísdómsfulla og góda tilgángi, sem enginn er annar, enn sjálfra ydar velferd. Mundum vér ecki skammast vor, ef vér ecki fullnægdum þessum sídasta vilja vors daudvona velgjörda-manns? og annad er þad ecki, sem Jesús Kristur af oss heimtar. Hann vill ad vér skulum samansafnast vid hans bord, til ad minnast hans velgjörandi dauda; og vér eigum einúngis þess vegna ad minnast hans, af því sú endurminníng er svo sáluhjálpleg fyrir sjálfa oss*). Þetta er adal-augnamidid, höfud-tilgángurinn þessarar heilögu stiptunar. Hvílík smán væri oss þad þá, ef

*) Kristur hefir ad sönnu skipad sínum tilbidjendum ad halda þessa máltíd heilaga í sína minníngu; en hann hefir ecki sagt, hvörsu opt vjer skulum hana heilaga halda. Þad á þá med öllum rjetti ad setjast kristnum mönnum í sjálfrædi.

ef vér gleymdum áminníngu þessa deyjandi mannanna ástvinar! hvlíkt óþarklæti, ef vér ecki adhlýddumst henni! hvørsu mikill skadi er þad ecki fyrir vora egin velferd, ef vér forsómum þessa heilogu endurminníngar-máltíd.

En, ef þessi endurminníngar-máltíd á ad verda oss ad sonnum notum; ef hofud tilgángi þessarar heilogu athafnar skal verda á oss framkomid; hljótum vér þannig ad yfirvega Jesú dauda, ad sú yfirvegan fái eblt vora umvendun, til ad afneita heiminum og sjálfum oss, fái gjort oss ótrauda, fái styrkt oss á móti daudans qvída og eilífdarinnar skélfíngum. Í þessu þrefalda tilliti vil eg nú virda fyrir mér minn deyjandi forlíkunar-mann. Í þessu þrefalda tilliti vil eg nú med huganum gánga í gegnum þær píslir, sem hann minna vegna hefir svo viljugur á sig tekid, svo eg af þeim fái nád þeim krapti, sem eg vidþarf til ad betra mitt hjartalag, til ad afneita heiminum og sjálfum mér, og til ad gánga á sídan fríhuga eins og hann á móti mínum dauda.

Ad vísu ætti eckért ad vera kroptugra til ad uppvekja mig til alvarlegrar umvendunar,

unar, til ad koma inn hjá mér heilagri hrædslu fyrir syndinni, til ad uppfylla mína sálu med heilagri skélfingu fyrir míns Guds réttlæti, og knýja mig til ad leita athvarfs vid kross míns borgunar-manns, enn yfirvegan Jesú pínu og dauda*). Hér læri eg ad þeckja hvílík vanart búid getur um sig í mannlegu hjarta, og í mínu hjarta. O! mín sál! vird þú fyrir þér Pilatus, Júdas, Kaiphas; vird þú fyrir þér þessa stríds-bodla, þessa Pharisæa, þessa Gydínga, er svo ákaflega sóktu eptir Jesú dauda, og fundu til gledi í hans hrellíngu. Skoda þár med ángist og ofbodi glæpi þá, þá himinhrópandi stór-glæpi, sem lángvinnur syndavani og andvaraleysi fær ad lyktum tælt oss til. Og hefi eg ecki af náttúrunni hid sama hvikula hjarta, sem hinir hofdu? er eg ecki fleckadur af sama breyskleika,

*) Medal annara gudrækuis ydkana, mundi þad án efa vera mjøg nytsamlegt þeim, sem til Guds bords gánga, ad þeir í sérhvørt sinn ádur þeir gánga til altaris, læsu Jesú Píslar-søgu igegnum. Eg finn eckert efni í gjørvallri heilagri Ritníngu lærdómsríkara, uppbyggilegra edur hjartnæmara. Einúngis ad madur lesi þad med athygli og heimfæri þad uppá sjálfann sig.

leika, sem kom hinum til ad taka þá óhæfu fyrir sig, ad krossfesta sinn mesta velgjörda-mann? er eg ecki, kannské, fleckadur med sömu elsku til líkamlegra fémuna, sem blind-adi Júdas svo mjög, ad hann ofurseldi sinn Herra í sjandmanna hendur? rædur ecki, kannské, sama ærugirndin fyrir mig, sem tældi Höfudpresta og höfdíngja Gyd-ínganna til ad áklaga Jesúm, sem falsara? plágast eg ecki, kannské, af hinni sömu hrædslu fyrir mönnunum, sem kom Pila-tus til þess, ad deyfa samvitskunnar raust, og fella hinn ránglátasta dauda-dóm yfir Jesúm saklausann? er mér ecki af náttúr-unni sama ómiskunsemi eginleg, sem gjördi hina rómversku stríds-bodla svo tilfinn-íngarlausa, ad þeir hæddu Jesúm lídanda í sinni eymd? finn eg ecki, kannské, til hinn-ar sömu sjálfs-elsku, sem kom Pétri til ad afneita sínum ædsta velgjörda-manni, þar sem hann hefdi fyrir hans sakir átt ad afneita sjálfum sér og gjörvöllum heimin-um? ó! eg fordæmi þessar vesælu mann-eskjur, sem lögdu hendur á Jesúm sak-lausann; en eg skyldi miklu heldur í þess-um vesælu manneskjum fordæma sjálfann mig. Eg er af náttúrunni í engu betri,

engu

engu varfærnari hinum; eg kynni, ef eg misti vid Guds míns adstodar, ad falla í somu syndir, sem hinir féllu í. Eg fordæmi þeirra athafnir; en, æ! rannsaki eg orsøkina til þessara athafna, þá eru þad rétt enar somu girndir, somu gedshræringar, sem búa í mínu brjósti, sem eru: ógégnileg sjálfs-elska, hroki, sérplægni, ótti fyrir mønnum, og láti eg þessar girndir ná ad ráda fyrir mig, mun eg þá ecki vera allt eins vidbjódslegur í augum ennar ædstu veru, eins og hinir, sem létu þessar girndir ná ad brjótast út í verkinu? Já! sá vanart, sem mér er svo gjarnt til, hlýtur víst ad gjøra mig vidbjódslegann í augum hinnar heilogustu og réttlátustu veru. Sá á krossinum lídandi og deyjandi Forlíkunar-madur, er mér órækt roksemd fyrir syndarinnar vidbjódslegleika og straffverdugleika, sem á mér liggur. O! þú heilagi Endurlausnari! þú ert þad Guds lamb, sem ber heimsins syndir, Jóh. 1 Þú pínist, þú deyr fyrir minna synda sakir. Þú ber mín kránkdæmi, þú hledur mínum harmqvælum á þig; þú ert lemstradur fyrir mínar syndir, og særdur fyrir minar misgjørdir; hegníngin ligg-

liggur á þér, svo að eg mætti hafa friðinn, og fyrir þínar benjar er eg heilbrygðaður, Es. 53. O! þessi þánki, þegar eg sæ rétt lifandi tilfinningu af honum, hvörsu innilega mætti hann ecki gánga mér til hjarta? sú vanart, sem mér er svo gjarnt til, sú sekt, sem á mér liggur, hún varð ecki afplánuð, ecki forlíkuð, nema með Jesú Kristz fórn alleina. Svo gagnstæðt er það réttlæti hins allrahærsta, að líða syndina óhegnda; svo viðbjóðslegur hlýt eg að vera fyrir hans heilagleika, ef eg ecki kappkosta, fyrir hans náð, að hreinsa mig af allri saurgun holdsins og andans, og ef eg enn þá held áfram að hlaða yfir mig ásetníngs syndum ofan á svo margar undanfarnar ávirdíngar. Ef eg á að álykta, hvörsu stór sektin verið hafi, sem á mér lá, af stærð lausnargjaldsins, sem fyrir mig varð að lúkast; hvörsu mikið það hatur sé, sem Drottinn hefir á syndinni, af þeirri elsku, sem Jesús auðsýndi á mér; egi eg að meta stærð syndarinnar eptir stærð fórnarinnar, sem fyrir hana er útlögð, hvörsu saurug skepna hlýt eg þá ecki vera, ef eg andvaralaust drýgði hana? ef eg framvegis niðursöckti mér í glæpanna

vanvirdu, eptir ad eg þeckti, hvørsu dýru verdi eg keyptur er, til ad lifa þér einum, þú heilagi og réttláti Gud!

Hvørsu stóra orsøk hef eg þá ecki, sem syndari, ad titra og skjálfa fyrir míns Guds réttlæti, og hvørsu lítid þeckti eg þetta réttlæti, ef eg ecki skélfist fyrir því? hvad skyldi ljósar og fullkomlegar kénna mér ad þeckja þad, enn písl míns Forlíkunar-manns? allar hans píslir, hans innvortis og útvortis qvalir afmála fyrir mér þad straff, sem mínar syndir vinna til, og þad straff, sem liggur fyrir mér, ef eg ecki næ ad verda hluttakandi í hans píslum. Sú óendanlega sálar-ángist, sem Jesús hlaut ad berjast vid, þegar hann í Gethsemane bljúgur nidurkropinn hrópadi: minn Fadir! ef møgulegt er, þá lát þenna Kaleik víkja frá mér; þó ecki, sem eg vil, heldur sem þú vilt, Matth. 26. Þessi sálar-ángist er mér, sem spegill, í hvørjum eg sjed fæ þær sálar-qvalir, sem fyrir mér liggja, ef eg enda mitt líf í vantrú og ydrunarleysi. Sú óútsegjanlega qvalafulla tilfinning á krossinum, sem kom honum til ad hrópa: Gud minn! Gud minn! hvar fyrir hefir þú yfirgéfid mig? Matth.

Matth. 27. Hún sýnir mér þad ástand, í hvörju eg blífa hlyti, ef eg burtsvaradi því mikla medali, sem Gud hefir mér á-vísad til minnar sáluhjálpar. Þau harm-qvæli, sem hans heilagi líkami hlaut ad bera, sýna mér þau harmqvæli, sem síd-armeir mundu hafa óbærileg á mig hlad-ist, ef minn Forlíkunar-madur hefdi ecki verid þau fyrir mig.

Sét eg sett mér allt þetta rétt lifandi fyrir sjónir, án þess ad finna til ángistar og skélfingar fyrir réttlæti óendanlegs Guds, sem er fortærandi eldur ígégn syndinni? en, eg vil létta þessum qvída og skélfingu, sem umþenking minna synda, umþenking míns Guds réttlætis ætti med öllum rétti ad koma inn hjá mér; eg vil létta honum med því, ad leita mér athvarfs í krossins qvöl míns lídandi og deyjandi Jesú. Þegar eg sje minn Medalgángara í þeirri ángist og baráttu, sem syndir mínar hafa or-sakad; þegar eg rek med þaunkunum blód-feril þeirrar óendanlegu fórnar, sem hann svo viljugur frambar síns födurs réttlæti; þegar eg heyri af hans deyjandi munni þessa miklu hjarta fridandi fullvissu: þad er fullkomnad; öllu var nú aflokid; for-

 lík-

líkunarinnar gjörvallt ráð, gjörvallt endurlausnar-verkið var til lykta leidt. O! þegar eg sje, þegar eg heyri allt þetta, þá kémur huggan, rósemi og djörfúng aptur í mína sálu. Þegar Sínaí nú skelfir mig, þá huggar Golgatha mig; þegar lögmálið bölvar mér, svo úrskurdar Evangelíum mig fríann, því eg veit, ad þar er engin fordæmíng fyrir þá, sem eru í Kristó Jesú. Þessi fagnadar-ríka fullvissa skal uppörfa mína sálu til ad lifa honum framvegis, sem fyrir mig er dáinn og upp aptur risinn.

En, æ! rétt vegna þess hins sama veitir mér svo ordugt ad lifa Kristi, af því eg lifi svo mikid sjálfum mér og heiminum. Eg vil þess vegna hér eptir kappkosta ad afneita heiminum og sjálfum mér, og yfirvegan Jesú dauda skal styrkja mig í þessari sáluhjálplegu vidleitni. Af hverjum skyldi eg betur læra, ad afneita heiminum enn af Jesú Kristi? hann ofurgaf sinn eginn vilja, til þess ad gjörast undirgefinn síns födurs vilja; hann afneitadi sjálfum sér til ad fá framqvæmt hid mikla erindi, vegna hvers hann var í heiminn kominn. Hann hatadi hvorki sjálfann sig né

sitt líf né heiminn, í hvörjum hann um-
gëckst. En hans elska til Guds brann svo
heitt í hans sálu, ad hann med fúsu, ró-
semu og audsveypnu hugarfari tókst á hend-
ur ad skiljast vid vini sína, sína kjærustu
ástvini, ad taka uppá sig forsmán óbóta-
manns, ad þola sárustu qvalir, og í þeim
bitrustu sálar og líkama píslum ad upp-
gëfa sinn anda, af því dýrd hans födurs
og frelsi hans mannskëpna krafdist þessa
offurs af honum. Þessa krefst Drottinn
líka af mér; en eckért heimtar hann meira.
Hann vill ad eg láti mína elsku vera und-
irgëfna hans elsku; hann vill ad eg tempri
svo mína elsku til sjálfs míns, til míns
lífs, minna eigna, minna munada, ad eg
sé reidubúinn til ad sjá öllu þessu á bak,
þegar hans nafn kann fyrir þad vegsam-
ast, hans vilji uppfyllast, og minna brædra
mannanna velferd éblast. Drottinn bann-
ar mér eck: ad elska sjálfann mig, líf mitt,
vini mína; hann skipar mér ecki ad burt-
snara þeim metordum og eignum, sem hans
forsjón hefir mér gëfid; hann æskir ecki, ad
eg skuli leggja af mér mitt embætti, edur
hafa skipti á mannanna selskap og sam-
búdum fyrir eydimerkur; nei! eg má elska

 þad

Þad, sem náttúran leyfir mér ecki ad hata; en mín elska á ad vera regluleg, hófleg, skynsamleg; eg má halda því, sem Drottinn hefir leyst mér ad eignast; en Jesú eptirdæmi kénnir mér, ad eg á ætíd ad vera viljugur til ad sjá á bak því, sem eg á, og yfirgéfa þad, sem eg elska, þegar eg gét á engann annann hátt látid í ljósi þá trú, þá hlýdni og elsku, sem eg er honum um skyldugur, er eg á ad elska umfram alla hluti. Æ! ad eg fengi þó daglega styrkt sjálfann mig í þessari elsku, til þess ef ad því kjæmi ad Drottinn krefdist þvílíks offurs af mér, eg væri þá ecki ófús til ad færa honum þad, edur eldúngis synjadi honum þess! fyrirmind Jesú lídandi á ad uppvekja mig til þessarar, sjálfum mér svo sáluhjálplegu, ofurgéfníngar; þar fyrir hefir hann mér eptirdæmi eptirlátid, ad eg skuli feta í hans fótspor. Jesús Kristur afneitar sjálfum sér, hann afneitar gjörsöllum heiminum med allri hans vegsemd; hann lídur, hann deyr; þegar hans fadir krafdist af honum þessarar sjálfs afneitunar; mundi eg nú géta álitid mig fyrir hans sannann tilbidjara, ef eg viki frá hans fótsporum, ef eg léti mína sjálfs-

sjálfs-elsku mega meira í hjarta mínu, enn míns Guds elsku?

Og, því midur! eg finn svo opt hjá mér, ad elskan til Guds verdur af minni syndsamlegri sjálfs-elsku ofurlida borin, þess vegna er eg aldrei svo rósamur og svo farsæll, sem eg gæti verid. Ef eg vil fá smackad nockra sanna, nockra óraskanlega farsæld, þá hlýt eg ad feta í Jesú Krists fótspor, eg hlýt ad afneita sjálfum mér, eins og hann afneitadi sjálfum sér. O! hvörsu kann eg nóglega ad undrast yfir þeirri bendanlegu hugprýdi, þeirri óraskanlegu audsveypni og ofurgéfning undir Guds vilja, því háleita sálar kyrrlæti, hvar med minn Frelsari leid hinar harmqvala-fylltstu píslir og yfirvann þær! hvörsu rósamur horfir hann á deyrd sinna fjandmanna, sem einkis óskudu framar enn hans ófara! hvörsu kyrrlátur og fullhuga heyrdi hann uppá háreysti gjörvallrar þeirrar uppvægdu alþýdu, sem hann med ótal velgjördum hafdi unnid til góds af, en hrópadi nú: krossfestú! krossfestú hann! hvörsu alúdlega annadist hann jafnvel á krossinum sína eptirlátnu módur, sem hann fól á hendur umsjón síns elskada lærisveins!

með hvílíku stöduglyndi virdti hann ecki fyrir sér glens og ofsakjæti sinna óvina, sem með háðúngum sínum og skapraunum leitudust jafnvel við að auka hans qvalir! með hvörsu elskuverdu ljúflyndi bidur hann jafnvel fyrir sínum ofsóknurum? hvörsu ótraudur og audsveypur felur hann ecki sína sálu í síns fodurs hendur! hvörsu rósamur hneigir hann nidur sitt höfud! hvörsu fullhuga gëfur hann upp sinn anda! þessa fullhuga hugprýði, þessi audsveyppa ofurgëfníng á Guðs vald, þetta stöduglyndi, þetta sálar kyrrlæti framkom allt af þeirri sjálfs-afneitun, sem Jesús Kristur hafdi sífeldlega iðkad sig í. Þetta heillasæla hugar-far mun og verda mín umbun, ef eg í tíma kappkosta að afneita sjálfum mér og heiminum. Heimsins ofsóknir, rángsæti mannanña, líkamans harmqvæli, hjartasorgir og sálar sturlanir mundu þá aldrei til fulls gëta svipt mig minni sálar-rósemi og mínu stöduglyndi; eg mundi þá gëta sjeð á bak öllum heiminum; og það mundi þó ecki fá með öllu kollkastað sálar minnar stadfasta jafnlyndi. Eg mundi þá líða þolinmódlega eins og Jesús Kristur, deyja rólega, eins og hann, af því eg hafdi lengi

lengi ádur enn ad þvi kom, ad Gud krafd-
ist þess af mér, tamid mér ad leggja, Guds
vegna, bædi sjálfann mig og mitt líf í
sölurnar. Æ! þó eg í dag njóti lífsins
yndis og ánægju, má eg þó maklega vid
þvi búast, ad þessar yndis-stundir verdi
mér eins hverfular og ödrum monnum, og
ad nærsti dagurinn færi mér sorgir og sinn-
is órósemi, þvi hvörnig kann eg ad gjora
mér von um stadfasta og varanlega far-
sæld í svo breyskum líkama, í svo órósöm-
um heimi, í sambúdum mannanna, sem
eru svo hverflyndir og svo ójafnadarsam-
ir? eg veit, ad minn vidskilnadar-tími nálg-
ast, og fyrr enn mig varir, kann hann í
skyndingu ad yfirfalla mig; eg vil þess
vegna í tíma eptir Jesú Krists dæmi af-
neita sjálfum mér og heiminum; hans há-
leita fyrirmind skal þannig styrkja mig í því,
ad dempa mína mátalausu elsku til heimsins
og sjálfs míns, ad eg géti eins tekid mín-
um þjáníngum, eins og hann tók sínum,
og min æfilok fái ordid, eins og hans æfi-
lok urdu.

Já! þá skal hugleidíng Jesú dauda
líka herthja mig og útbúa móti daudans
ótta. Eckert er þó vissara, enn þetta: ad

Þad liggur fyrir mér ad yfirgéfa jardneſk gædi, og eckért er náttúrlegra enn þad, ad eg qvídi fyrir ad ſtiga þetta mikla og hátídlega ſótmál, ſem áqvardar mín kjør fyrir gjørvalla eilífdina, ſkyldi eg þá eckí, medan eg enn þá lifi, búaſt vid daudanum, ſvo ad eg verdi ecki óvørum yfirfallinn, ſvo ad mér verdi ecki í ſkyndingu burtu kippt þá, þegar eg er hvad óhæfaſtur til ad heyra daudans bodſkap qvídalauſt. Hafi eg híngad til forſómad þenna mikilvæga undirbúníng, hafi ſála mín gjort ad fyrraſt daudans umþenkíngu, af því þeſſi umþenkíng var mér ógurleg, ſvo vil eg nú bæta þad upp, ſem eg híngad til forſómad hefi; eg vil um þeſſa daga tilbyrgja þær uppſprettur, af hvørjum minn qvídi fyrir daudanum haſt hefir ſína uppráſ. Enginn tími er hér til hentugri enn þeſſi, þegar eg framkém ad Jeſú Kriſts altari, og Jeſús deyjandi er líka ſem afmáladur fyrir augum mér; æ! ad eg gæti verid rétt vandlátur, hreinſkilinn og alvørugéfinn í þeſſum mikilvæga undirbúníngi; kannſké þetta verdi í ſeinaſta ſinni, ſem eg næ ad koma ad þeſſu bordhaldi.

Hvad er þad, sem gjörir mér þánkaun um minn seinasta vidskilnad svo ógurlegann? ef eg er, kannské, ecki nógu fullviss um ódaudlegleika minnar sálar, um þá fyrir hendum verandi upprisu míns líkama, og hinn betra heim, sem búinn er sálu minni? hvad mundi þá vera kroptugra til ad sigra þessar sturlandi efasemdir, enn yfirvegan Jesú pínu og dauda? hvornig kann eg ad efast um ódaudlegleika minnar sálar og uppvakníngu míns líkama frá daudum, þegar eg sie Jesúm fela sína sálu í síns fødurs hendur, þegar eg heyri hann géfa þeim sakamanni, sem dó med honum, gledilega fullvissu um, ad hans sála skyldi fara vistum í vistarverur þeirra farsælu, og þegar eg sie sjálfann hann, eptir daudann, aptur hverfa til lífsins? minn Endurlausnari, sem var madur eins og eg, hann deyr og lifnar aptur; hvornig skyldi eg, sem er somu náttúru og hann, géta útaf dáid vonarlaus um betra líf og fyrir hendum verandi endurnýjun!

Hvad er þad, sem gjörir mér umþenkínguna um minn sídasta vidskilnad svo ógurlega? er þad hugsanin um þenna heim, um eignir mínar, um mína munadi, um

ástvini mína, sem eg svíptur verd med daud-anum? o! svo vil eg því framar ydka mig í minni sjálfs-afneitun, og yfirvegan Jesú dauda skal efla mig í þessari sáluhjálplegu ydkun; eg vil kosta kapps um ad losa æ meir og meir af mér þau fjøtur, sem binda mig vid jordina; eg vil upplypta mér med mínu hjartalagi svo hátt til himinsins, ad jordin, med øllum hennar eignum, sái í þessum fjarska ordid æ lítilsjørlegri og minniverdari í augum mínum. Min umgengni skal hér eptir vera þar uppi, hvar ed Jesús Krist-ur er, þar uppi, hvar ad er mitt sanna fød-urland, sem eg á ad stefna til, og þad hlut-skipti, sem mér er eilífliega ætlad ad njóta.

Hvad er þad, sem gjørir mér þánkann um minn vidskilnad svo ógurlegann? er þad þánkinn um syndir mínar, þánkinn um reikníngskapinn, sem fyrir mér liggur, og um dómstól þess réttláta? já, skelfileg-ur mætti þessi þánki vera mér, hefdi eg ecki vissu um mína forlíkun. En, nú veit eg: ad Jesús Kristur hefir borid mínar syndir, er dáinn í minn stad, og geck med sitt egid blód inní þad allra helg-asta, hvar hann fann eilífa endurlausn líka einnig mér til handa, Ebr. 9. Nú

þori

Þori eg fríhuga ad segja: hvørr vill á-klaga Guds útvalda? Gud er sá, sem réttlætir; hvørr er sá, sem fordæmi? Kristur er sá, sem dáinn er, já, miklu framar sá, sem upp er risinn, sá, sem situr til hægri handar fødursins og bid-ur fyrir mér, Róm. 8. Þessi gudlega fullvissa um Það, ad eg sé til nádar tekinn, skal hugstyrkja sálu mína mót øllum eilífdar-innar skélfingum; eiúngis vil eg taka mér vara fyrir Því, ad eg ecki hér eptir med ásetnings-syndum gjøri mig óverdugann Þessarar nádar; eg vil bidja, strída, hlaupa, uns eg sæ høndlad mitt hnoss, og gánga sídan fríhuga af-fram inn í Þann betra heim, hvørsu dymmur og ógurlegur, sem mér synast mætti hann líta út; á dóm-stólnum mun eg Þar finna Jesúm, sem fullnægju gjørt hefir Guds óendanlega rétt-læti, sem borid hefir mitt straff, og af-mád mínar syndir med sínu blódi á kross-inum. Æ! ad eg hætti Þá aldrei ad strída vid sjálfann mig, fyrr enn eg hef yfirunn-id daudans qvída med yfirvegun Jesú dauda, og finn mig reidubúinn til ad gégna med óskélfdum huga Drottins raustu Þeg-ar hann á sídan kallar mig. Þessi gud-

dómlegu, þessi huggunar-ríku sannindi: Jesús, minn bródir, deyr og lifir ad nýju; Jesús minn Forlíkunar-madur, er fyrir minna synda sakir útgefinn, og fyrir míns réttlætis sakir uppríſinn; þessi sannindi: o! ad þau mættu vera svo djúpt innrætt, inngrafin í mitt hjarta, ad eg mætti finna til þeirra, finna alla þeirra huggun og krapt, þegar mínir kraptar eru ad þrotum komnir, og boda mér, ad mín æfilok séu fyrir höndum.

Þanníg skal yfirvegan Jesú pínu og dauda vera mér kroptug uppörfan til minnar umvendunar, kroptuglega hrærandi og tilknýjandi orsök til minnar sjálfs-afneitunar, þá mún sú sama yfirvegan líka verda mér öblug huggunar ástæda móti daudans og eillífdarinnar skélfingum. Hvílíka hugdyrfd og krapt og styrk mun eg þá ecki finna ad qvöldi æfi minnar, ef eg nú þegar í tíma hefi, fyrir yfirvegun Jesú dauda, unnid sigur á mínum náttúrlegum qvída fyrir sjálfs míns dauda! þegar mín líkamlegu augu formyrkvast, þá mún eg, gladur af voninni, renna mínum trúar augum gégnum hina dymmu grafarinnar nótt, inn í ríki míns Endurlausnara, og líta þar minnar

ar sáluhjálpar uppbyrjara og fullkomnara á hægra veg Gudi. Þegar mín samviska á því skélfilega augnabliki áklagar mig, þá mun eg í hans písl og dauda skoda mína fridþægíngu og forlíkun. Hans daudi mun þá koma inn hjá mér því hugar-fari, ad eg lítils meti mitt jardneska líf, en þrái og lángi eptir hinu himneska. Eg mun þá, eins hughraustur og hann, sjá mín æfilok nálægjast, eins hógvær og hann, sættast vid óvini mína, eins stoduglyndur og hann, horfa á mína sorgandi ástvini, sem eg hlýt ad yfirgéfa, eins gédvær og hann, lýsa því fyrir nærstoddum, ad mitt vedhlaup sé fullkomnad, eins trúgódur og hann, fela sálu mína í míns fødurs hendur.

O! þú med dýrd tignadi forlíkunar-madur! Þinn kraptur verki med mér í mínum breyskleika, ad þær hugleidíngar, sem eg hefi hér gjort mér yfir þína pínu og dauda, mættu ecki verda ávaxtarlausar fyrir mína sálu, ad þær sái uppfyllt mitt hjarta med þessu heilaga áformi, med þessum sáluhjálplegu tilfinníngum; ad mér aldrei gleymist þetta áform, ad eg aldrei missi, aldrei oldúngis missi þessar tilfinníngar; þá mun mitt sídasta verda eins og

þitt

þitt sídasta, þegar eg loksins skal afleggja þessa jardnesku tjaldbúd, Amen.

## III. Kapituli.

### Pad hugar-far med hvørju vér skulum gánga til heilagrar Qvøldmáltídar.

Þegar eg virdi fyrir mér sjálfann mig í mínu fleckada og spillta ástandi; þegar eg skoda med hugskots sjónum svo mikid reglu-leysi í mínum hugrenníngum, svo mikid gáleysi í mínum ordum, svo mikla ákefd í mínum girndum, svo mikla ofstæki í mín-um géds-hræríngum, svo mikid tómlæti til hins góda, svo mikla hvatvísi og fram-hleyppni til hins illa; þegar eg finn hjá mér svo mikid íllt, sem eg hef gjort, og sem eg hefdi átt ógjort ad láta, svo mikid gott, sem eg hefi ógjort látid, er eg hefdi átt ad gjora og gétad gjort; þegar eg samanber þenna minn saurugleika vid míns Guds heilagleika, þessar mínar yfirtrodslur vid míns Guds réttlæti, og eg veit, ad þessi Gud er réttlátur, ad hann hlýtur þó einu-sinni ad sýna þad á sinna laga yfirtrodslu-mønnum, ad hann ecki hefir géfid sín løg

til ónýtis, ad hann hlýtur þó lokſins ad gjøra ſig vegſamlegann á oſs, med því ad aga oſs, þegar vér vildum ecki gjøra hann dýrdlegann med því ad hlýda hon- um, ad hann hlýtur þó lokſins ad færa ſonnur á þad fyrir øllum ſínum ſkynſemd- arfullu verum, ad hann er eins óendanleg- ur í ſínu réttlæti, eins og hann er óendanleg- ur í ſinni miſkun. Æ! þeſſi ſannindi, ſvo óneitanleg, ſem þau eru í ſjálfum ſér, ſvo øgurleg hljóta þau ad vera minni ſálu, ſvo full af ángiſt og ſkélfíngu fyrir hana! Þegar eg leidi mér í huga minn ódaudlegleika og mína eilífd, og réttlátann dómara í þeſſari eilífd, hvørſu gvidvænleg hlýtur þá þeſſi eilífd ad vera fyrir mig! eg, ſem í mínu gjørvøllu athæfi er ſvo vanhelgur og ſaur- ugur, hvørnig mætti eg fá ſameinaſt vid þá heiløguſtu veru? myrkrid kann þó ecki ad ſameinaſt vid ljóſid, ecki Kriſtur vid Belíal, ecki réttlætid vid ránglætid, 2 Cor. 7. Eg, ſem ſvo mørgum ſyndum er hladinn; mínar gjøranlegu ſyndir eru margar; mínar forſómunar ſyndir eru enn þá fleiri; og allar þeſſar ſyndir egna upp í gégn mér míns Guds réttlæti. Hvørſu ſkyldi eg í eilífdinni fá ſtadiſt fyrir Guds rétt-

réttlætis dómstóli? við þessa þánka mætti eilífdarinnar bál byrja þegar í minni sálu, ef eg ecki hefði þá huggun af Guðs opinberaða orði: vér höfum endurlausnina fyrir hans blóð, og vorra synda fyrirgéfningu, Ephes. 1. Með því vér erum réttlættir fyrir trúna, þá höfum vér frið við Guð, fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist, Róm. 5. Þar er engin fordæming fyrir þá, sem eru í Jesú Kristi, Róm. 8.

O! þessi fagnaðar-ríki, þessi friðandi þánki, eg hef endurlausnina fyrir Jesú Krists blóð; fyrir hans blóð hef eg minna synda fyrirgéfningu; fyrir hann hef eg frið við Guð; í sameiníngunni við hann hef eg engri fordæmíngu að qvíða. Þessi fagnaðar-ríki, þessi friðfærandi þánki, hvílíkar skyldur segir hann mér ecki á hendur? hvílíkar tilfinníngar ætti hann ecki að uppvekja í minni sálu? hvílíkt hugar-far ætti hann að fæða af sér í mínu hjarta, nú, þegar eg mæti fyrir Jesú Krists altari, til þess að minnast hátíðlega þess mikla forlíkunar-offurs, sem framborið var fyrir heimsins syndir, og fyrir mínar syndir? o! það er elskan til Jesú Krists, sem

öll

oll mín sál, ætti ad verda gagntekin af vid þessa heilogu endurminníngar⸗máltid. Endurminníng þeirra allrastærstu, allra⸗mikilvægustu velgjörda ætti med réttu ad fæda af sér í minni sálu enar heitustu elsku tilfinníngar til velgjörda⸗mannsins. Þessa krefst hann af sínum sonnu tilbidjendum, og hvorsu mikinn rétt hefir hann ecki til ad krefjast þess? Þad var Jesú áminníng til sinna lærisveina í þeirri rædu, sem hann héldt eptir þad hann hafdi meddeilt þeim þá heilogu qvoldmáltíd: eins og fadirinn hefir elskad mig, og eg hefi elskad ydur, svo standid stødugir í því ad elska mig; ef þér haldid mín bodord, þá standid þér stødugir í elskunni til mín, eins og eg hefi haldid míns fødurs bodord, og stadid stødugur í elskunni til hans, Jóh 15.

Í þessari skipun Jesú Kristi er þad hugar⸗far innifalid, sem hann heimtar af þeim, sem framkoma vilja fyrir hans altari; eg á ad elska hann; eg á ad sýna þad med minni hlýdni, ad eg elski hann. Er nockud óvidurqvæmilegt í þessari krofu? er nockud í henni, sem mótstrídi minni náttúru? er þar nockud, sem mínum kropt⸗

um

um sé nm megn? hvørn mundi eg géta elskað, ef eg elskaði ecki minn æðsta velgjorða=mann; og ef eg elska hann ecki, hvorsu óverðugur er eg þá hans velgjorða? Jesús Kristur lítillækkaði sjálfann sig svo að eg mætti upphafinn verða; hann barðist, svo að eg mætti oðlast kórónuna; hann dó, svo að eg mætti lifa; o! hvílík elska! skyldi eg ecki að minnsta kosti finna til sømu elsku til Jesúm, sem eg finn hjá mér til annars velgjorða=manns? og, ef eg finn það ecki, gét eg þá trúað því, að eg sé verðugur gestur við þetta heilaga borðhald, sem innsett er til endurminníngar þeirrar stærstu elsku, innsett til að glæða í minni sálu þær heitustu tilfinníngar elskunnar til hans aptur á mót?

En, eg ætla að vísu líka að eg elski Jesúm; o! að eg þó ecki svíki sjálfann mig í þessari ætlun! hvørsu hættuleg væru ecki þvílík svik tiegn sjálfum mér! þó eg ecki øldúngis hati Jesúm, ecki offæki hann, ecki hæði hann, það er engin elska; að eg gjøri þessa játníngu með munninum: Kristur hefir elskað mig, eg á að elska hann aptur á mót, það er ecki elska; að eg finn mig snogglega vikna, eður heitar hræríngar

ar hreifa sér í hjarta mínu, er eg krýp ad Jesú altari, sem hverfa máské á sama augnabliki og eg sný frá því aptur, þad er ecki elska. O! ef elskan til Krists væri innifalinn í ollu þessu, hvorsu audveldt væri þá ecki ad elska hann; hinn andvaralausasti syndari mundi þá líka gëta elskad hann. Nei, mín elska til Krists hlýtur ad vera ávaxtarsom og verkandi, hún hlýtur ad minnsta kosti ad hafa somu verkun hjá mér, sem elska sú, er eg ber til hvors annars vinar og velgjorda-manns. Og hvad er þad, sem eg gjori, þegar eg elska vin minn? hvorjar eru þá mínar tilsinningar? hvor mín vidleitni og atburdir? eg leitast vid ad líkjast honum, eg leitast vid ad laga minn vilja eptir hans vilja í ollum hlutum. Þessar eru elskunnar verkanir; þessi eru hennar óbrygduluslu einkénni, þvílík einkénni hlýtur mín elska til Krists líka hafa, þá veit eg, ad eg elska hann, þá veit eg, ad eg færi þad hugar-far med mér ad Jesú altari, sem útheimtist af verdugum bordgësti vid þad.

Ef eg annars elska Krist, hlýtur þad líka ad vera mín heilagasta, mín alvarlegasta vidleitni, ad líkjast honum. Þetta er mín

mín vidleitni þegar eg elska einhvørn vin. Hvørsu mikla alúd legg eg ecki á þad, ad eg geti lagad mitt hjarta eptir hans hjarta, mitt hugar-far eptir hans hugar-fari? Þad, sem hann elskar, vil eg ógjarnan hata; þad, sem hann hatar, vil eg ógjarnan elska, því þess líkari, sem eg verd honum, þess gèd-feldari veit eg ad eg verd honum. Hugsa eg vidlíka þar, sem minn Jesús á hlut ad? og hafi eg ecki þetta hugar-far í tilliti til hans, hvørnig gèt eg þá ætlad eg elski hann? er hans framferdi e nûngis fyrirmind míns framferdis, og hans dygda ferill kjærustu lífs-reglurnar, sem eg haga eptir allri minni breytni? finn eg eckért þad dygda-skart á mínum Jesú, sem eg ecki óski ad eg fengi látid skarta á minni sálu? í hjá Kristi finn eg audmÿkt vid minni-háttar, hógværd vid óvini, medaumkun med aum-um, sannsøgli í ordum, gódgjørdasemi í athøfnum, linkind og lempni vid breyska, vandlæti vegna Drottins dÿrdar, þolin-mædi í hørmúngunum, rádvendni í hans gjørvøllu dagfari; hvørsu mikid hef eg lagad mig eptir øllum þessum fyrirmind-um? edur hvørsu mikid ætla eg mèr ad leitast vid ad laga mig eptir þeim hèr ept-ir?

ir? er það þó að minnsta kosti minn stað-
sástur, minn heilagasti ásetníngur, upp
frá þessu æ meir og meir að laga mína
sálu eptir hans sálu, og gjörvallann minn
þenkíngar-hátt og hugferði eptir hans hug-
ferði, og gésast aldrei upp á þessu, svo
lengi, sem mig vantar eitt einasta atrið,
sem eg finn í Jesú Krists fyrirmind, svo
lengi, sem eg finn í svip mínum einn ein-
asta galla, sem veldur því, að eg er Je-
sú mind ólíkur.

O! minn Guð! o! að þú vildir styrk-
ja þetta sáluhjálplega áform, svo að eg
ecki að eins taki það fyrir mig, heldur sé
líka stödugur í því; hvörsu miklu tignari og
fullkomnari mundi eg þá verða, þángað
til eg að næsta sinni mætti fyrir þínu alt-
ari, og því hærra, sem eg kémst í fullkom-
legleikanum, því hærra mun eg þá líka
komast í farsæld, í samvitsku-friði, í sál-
ar-rósemi. Með hvílíkri djörfúng gæti eg
þá, minn Borgunar-maður! komið að
þinu borðhaldi, með hvílíkum fögnuði far-
ið frá því? því þá vissi eg að eg elskaði
þig, að þú aptur á mót elskaðir mig, og
hefðir mér til handa tilreiddar allar þín-
ar sælu-gnóttir.

En,

En, eins og mín elska til Krists á kroptuglega ad upporfa mig til ad líkjast honum, svo á hún líka ad sýna sig í mínu gjorvollu dag-fari med gladri, fúsri, bafs markadri, einlægri og stadfastri hlýdni; fyrir utan þessa hlýdni ætlast eg forgéfins til þess, eg fái uppreist ímind Jesú Krists í minni sálu. Ef þér haldid mín bodord, þá standid þér stødugir í elskunni til mín, segir Jesús Kristur? hvørr, sem elskar mig, sá heldur mín ord, segir hann í ødrum stad, Jóh. 14. Og hans Postuli ítrekar þá somu reglu: þar af vitum vér, ad vér elskum hann, ad vér høldum hans bodord, 1 Jóh. 2. Þetta audkenni, hvørsu ljóst er þad, hvørsu óyggjanlegt og hvørsu náttúrlegt; eg kann ecki ad elska Krist án þess ad hlýdnast honum. Stadfestir ecki mín egin reynsla þenna sannleika? Þegar eg elska minn fødur, minn vin, minn velgjørda-mann, med hvad mikilli athygli gjæti eg þá ad hvørju tilliti; sérhvør bending er mér løgmál; hvørsu stóra alúd legg eg ecki á ad láta ad ordum vinar míns! hvørsu léttbært verdur mér jafnvel hid torveldasta ómak, þegar eg sé ad eins þócknast honum med

þvi?

Því? hvörsu þúngt fellur mér það, ef mér verdur móti vilja mínum einhvörju sinni á ad styggja hann? hvörsu illa eyri eg við fyrr enn eg hef sættst við hann aptur, og hvörsu fyrirverd eg mig þá, þegar eg jafnvel er búinn ad koma mér í sátt við hann? skyldi mín elska til Krists hafa nockra adra verkun enn þessa? ef eg elska hann, skyldi eg þá ecki leggja jafnmikla alúd og ástundun á ad uppfylla hans skipanir; skyldi eg þá ecki una eins illa við, og vera eins óánægdur med sjálfann mig, þegar eg, jafnvel á móti vilja mínum hefdi yfirtrodid hans bodord? ef eg elskadi hann, skyldi hans vilji þá ecki vera mín einasta réttar-snúra, og sjálfs míns vilji sú fullkomnasta fórn, sem eg hefdi vit á ad frambera fyrir hann? ef eg elskadi hann, skyldi þá ecki sérhvör hans skipan verda mér audveld; hvört eitt bodord í hans lögum mundi vera mér kiært, en það mundi þó vera mér hvad kiærast, sem mér væri torveldast upp ad fylla, það, sem eg finndi mína náttúru hellst rísa á móti, og sem gagnstædast væri þeim girndum, sem eg elska, af því eg, med hlýdninni við það, gæti med hellstum rökum sannad elsku mína til hans.



En,

En, æ! undir eins og eg tjái sjálfum mér það, sem eg ætti að gjöra, tjái eg mér undir eins að eg ecki hafi gjört það. Að sönnu yfirtreð eg ecki öll Jesú Krists lög: því hvörr er svo gagn-spilltur, að hann skyldi yfirtroða þau öll; en hlýðnast eg þeim öllum fyrir það? og hvörr, sem heldur allt lögmálið, en verður brotlegur í einu boðorði, hann er sekur við þau öll, Jac. 2. Eg held að sönnu Jesú Krists lög, þar sem það kostar mig enga þraut, eckert ómak að uppfylla þau og hlýðnast þeim; en, þar sem það kostar kappsmuni, stríð og sjálfs-afneitun að uppfylla þau, þar ofurgéf eg kannské Jesú Krists lög, og læt lögmál minnar spilltu náttúru gánga fyrir, en hlýðra hjá Jesú Krists vilja, til þess eg fái framkomið og fullnægt eginn vilja; og gét eg þá sjálfur ætlað að eg elski Jesúm? mundi eg trúa því að sá elskaði mig, sem ecki væri öðruvísi skapi farinn mér til handa? og gét eg þá haldið, að eg, með þessu hugar-fari, elski Jesúm? en, ef eg elska hann ecki, svo vantar mig hinn mikilvægasta eginlegleika, sem útkrefst af hvörjum verðugum borðgésti við hans kjærleiks-

leiks-máltíd. O! minn Gud! glæd þú
þvi siálfur þessa elsku í mínu hjarta og
styrk mína hlýdni fyrir ena somu. Hvad
gagnar þad, ad eg tvískipti minni hlýdni
millum þín og mín, ad eg fórnfæri á þitt
altari, og á altari minnar-egin spillingar!
þessi ófullkomna hlýdni, þetta tvískipta
hjarta, þessi haltrandi kristinndómur kann
þó ecki ad vera þér þócknanlegur. Þú
útheimtir mitt hjarta heilt, gjørvalla mína
hlýdni, undanfærslulausa, einlæga, tak-
marks-lausa hlýdni heimtar þú; engin
hlýdni, nema þvílík, er roksemd fyrir, ad
eg elski minn Gud um alla hluti fram, ad
eg elski hann af øllu hjarta, sálu og sinni,
og af øllum kroptum. O! ad eg gæti ad
eins fundid til þessarar algjørdu, einlægu
undanfærslulausa elsku hjá mér, þá mundi
eg líka hafa í frammi algjørfa, einlæga og
undanfærslulausa hlýdni, þá hid fyrsta
elska eg rétt siálfann mig.

Øll Guds løg, allar Jesú Krists
skipanir horfa þó til einkis annars enn
til minnar egin farsældar; þegar eg ad
eins yfi[illegible] eina e nuftu af þeim, þá raska
eg egin farsæld, egin sálar-rósemi. Hvørsu
opt hefir ecki siálfs míns reynsla sannfært

 mig

mig um þenna sannleika. Því fullkomlegar, sem eg sæ uppfyllt þær allar, því framar ebli eg frid minnar samvitsku. Eg skélfist þá ecki fyrir Gudi og feila mín ecki fyrir mönnum; eg ebli mína rósemi í öllu þessa lífs andstreymi, því eg veit ad þad eru engir hefnda-dómar, sem styggdur Gud leggur á mig í reidi, heldur elskurikar typtanir frá nærgætnum og ástríkum födur. Eg ebli mína djörfúng móti daudans nálægd; því eg veit, ad minn daudi er inngángur til lífsins. Já, allar Jesú Krists skipanir eru einskiær ástúdleg heilrædi, sem leidsegja mér til dygdarinnar, af því ad dygdin einúngis er sá beinasti vegurinn til farsældar. O! hvörsu fagnandi og fús skyldi eg þá ecki sýna mína hlýdni! hvörr er sá, sem ecki med fagnadi verji erfidi og ómaki til sinnar sjálfs farsældar? hvörsu fús skyldi eg ecki vera til ad nidurdempa hér eptir þessar mínar syndsamlegu tilhneigingar, sem gjöra mér vanvirdu, til ad sigra þessar mínar girndir, sem enn þá ráda fyrir mig, og eru mínir Drottnar, og til ad ofurgéfa þann part hjarta míns mínum Gudi til þjónustu, sem til þessa dags hefir þjónad heiminum. Ef eg ecki kapp-

kosta

kosta hér eptir ad ná þessu takmarki, hvorsu litid elska eg þá sjálfann mig, hvorsu lítil kénnsli ber eg þá á egin farsæld?

Já, Drottinn! þetta takmark er þad, sem eg vil kosta kapps um ad ná; þetta er mitt áform, mitt hreinskilnasta áform. Þinn kraptur veri óblugur í mínum breyskleika, svo ad eg ecki einúngis byrji, heldur einnig fullkomni, ad eg skjótist ecki úr bardaganum vid sjálfann mig, fyrr enn eg hef algjörlega sigur unnid á sjálfum mér!

Ef eg elska Krist, og ef eg vil sýna mína elsku med hlýdninni, þá hlýtur min hlýdni ad vera eins sús, eins og hún er einlæg og undanfærslulaus, en undireins hlýtur hún ad vera jafn stadföst, sem hún er sús. Hvad stodar þad, ad eg gángi fram fyrir Drottins auglit, ad eg vinni þeim alvísa þau stærstu og heilogustu heityrdi, og sé sídan varla genginn í burt frá Drottins altari, fyrr enn eg bryt mín heit ad nýju? og, því midur! eg hefi ad vísu svo opt rofid þau. Þessi hvikula elska, þessi óstodúga hlýdni, hvad gagnar hún mér? þar qvedur svo ad: ad sá, sem stödugur stendur allt til enda, skuli verda hólpinn, ad sá, sem trúr er allt

 til

til enda, skuli erfa lífsins kórónu, Opinb. b. 2. Ef eg þá hætti midt á því byrjada vedhlaupi, ef eg gleymi ad nýju þeim tryggdum, sem eg hef svarid Drottni, hvorrar sáluhjálpar kann eg þá ad vænta, hvorri kórónu fagna í eilífdinni? þessi kórónu, sem einúngis er geymd handa stadföstum Jesú Kristz stridsmennum, hún getur ecki ordid mér ad hlutskipti. Ad gánga fram fyrir Jesú Kristz altari, ad gjöra Drottni sín heityrdi, heityrdi um elsku, hlýdni og tryggdir, þad er eidur sem eg sver þeim eilífa; og hvorsu hátídlegur er ecki þessi eidur? eidur, sem eg sver í Drottins musteri frammi fyrir Jesú Kristz altari, í augsýn minna sam-kristinna, sem eru vottar ad því, ad eg hef svarid hann; eidur, sem eg stadfesti med því heilaga sacramenti, og innsigla med blódi þess nýja sáttmála! hvad, ef eg brýt, ef eg af ásettu rádi gjöri ad rjúfa þenna eidstaf, þá er eg meinsæris-madur, og hef bætt ofan á allar adrar mínar syndir þessari, sem er stærst af öllum, meinsærinu; hvorsu yfrid stór hlýtur mín synd og sekt þá ad vera? o! þá væri þad eins gott, ad eg gengi aldrei til Drottins bords; eins

og

og ad eg gángi þángad, og rjúfi sídan ad nýju þau hlýdnis heit og særi, sem eg vinn Gudi þar!

Já, af breyskleika, óvitsku, brádrædi og hadgætni, kann mér ad verda á ad rjúfa þau, þvílík afbrot fyrirgéfur Drottinn mér, þegar eg alvarlega ydrast þeirra. Mannanna fadir þeckir þad dupt, af hvörju vér erum gjördir, og þær öblugu freistingar, sem umkríngja oss, æ svo lengi vér erum á vegferdinni hér nidri í duptinu, og höfum ecki nád voru rétta födurlandi; en, vei mér! ef eg vísvitandi gjöri ad rjúfa mín særi; vei mér! ef mín elska útslöknar aptur, ef mín hlýdni umbreytist aptur í óhlýdni, hvad gagnar mér þá þessi heilaga athöfn? hún bætir ad eins nýjum yfirvættis þúnga ofan á mína fordæmíngu og mína ólucku. Æ! Drottinn! ef eg skyldi rata í þær ófarir, ad falla þannig, æ! svo virdstú þó ad reisa mig vid aptur; þegar eg hrasa, þá virdstú þó ad stydja mig; þegar eg villist af þeim stig, sem leidir til frelsis minnar sálar, þá virdstú brádlega ad endurvitka mig, og snúa mér aptur, svo ad eg ecki tortýnist. Virdstú ad hjálpa mér ad strída gódu strídi, ad full-

fullenda mitt vedhlaup, ad vardveita mína trú, svo ad eg á sídan megi höndla Þad hnoss, sem Þú hefir affídis lagt mér til handa í Þínu ríki. Þegar eg Þá, styrktur af Þínum krapti, uppfylli Jesú skipun: eins og fadirinn hefir elskad mig, og eg hefi elskad ydur, svo standid stödugir í Því ad elska mig; ef Þér haldid mínar skipanir, Þá standid Þér stödugir í minni elsku, eins og eg hefi haldid míns födurs bodord og stend stödugur í hans elsku, Jóh 15. Þegar eg kém ad Drottins bordi, ad minnsta kosti, med Þann hreinskilinn tilgáng, Þann einlægann sölskvalausann ásetníng, ad vilja uppfylla Þessa skipun og hlýdnast henni, Þá finn eg Þá hjarta-fridandi vissu, ad eg sé verdugur bordgéstur vid Þessa heilögu máltíd, og ödlist hlutskipti í öllum Þeim sáluhjálplegu notum, sem Jesús Kristur hefir lofad sínum verdugum bordgéstum.

## IV. Kaptuli.

### Avextirnir af verdugri nautn heilagrar Qvöldmáltídar.

Pad er oss audsært af Því, sem eg sagt hefi hér ad framan, ad Þegar vér mætum vid bord-

bordhald Drottins, þá bædi vidurkénnum vér Jesúm fyrir vorn borgunar-mann, sem af elsku til vor dó vor vegna, og krefst af oss elsku til sín aptur á mót, og líka fyrir vorn Drottinn og Yfirherra, hvorjum vér erum um alla vora hlýdni skyldugir, og þvílíkri hlýdni lofum vér honum. Þessi athöfn, hvílika sáluhjálplega ávexti gæti hún þá hafst fyrir oss, ef vér ad eins tídkudum hana med þvi hugar-fari, sem útheimtist af sonnum Jesú tilbidjendum?

Vid nautn Jesú qvöldmáltídar medkénnum vér Jesúm fyrir vorn forlíkunar-mann, sem vor vegna dó, svo vér skyldum lifa. Hvorsu rikur er sá þánki af huggun og gledi og hugarhægd og rósemi fyrir mína sálu! Jesús er minn borgunar-madur; med sitt egid blód géck hann mín vegna inní þad allra helgasta, og fann mér til handa eilífa endurlausn. Sú djörfúng, med hvorri eg nú þori ad framgánga fyrir nádarstólinn; sú fullkomna fullvissa, sem eg finn til, ad mínar syndir séu fyrir hann afmádar, ad minn dómari sé nú minn fadir, minn forliktur fadir. Þessi djörfúng og þessi fullvissa, hvílíka rósemi hlýtur hún ecki ad innhella í sálina, hvílíkum fridi í

samvitskuna, hvílíkri huggun í hjartad! Løgmálid lýsir ecki bølvun yfir mér, samvitskon ógnar mér ecki, eilífdin skélfir mig ecki. Þegar eg heyri þessa þrumu-raust frá Sinai: bølvadur veri sá, sem ecki heldur øll løgmálsins ord, svo hann gjøri þar eptir; þá gledja mig og géfa sálu minni nýtt líf endurnærandi nádar-geislar frá Golgatha, þeir auka mér krapta, og géfa mér nýjann dug til vasklegrar framgaungu á vegferd minni til eilífdarinnar. O! svo ógurlegur, sem mér er þánkinn um syndina, því eg gét ecki svo hugsad til syndarinnar, ad eg ecki undir eins hugsi til løgmálsins; eg gét ecki hugsad svo til løgmálsins, ad eg ecki undir eins hugsi til løg-gjafarans og dómarans; svo ógurlegur, sem mér þess-vegna er sá þánki, svo sáluhjálplegur og hjartafridandi er þessi: þú hefir forlíkunar-manninn; þínar syndir eru fyrir hann afmádar; þínar misgjørdir verda þér ecki tilreiknadar; þitt ránglæti er hulid med hans réttlæti; því hann, sem hreinn var af syndum, áleit Gud svo sem syndara í minn stad, svo ad eg fyrir hann skyldi verda réttlátur fyrir Gudi, 2 Cor. 5.

Set þér, mín sála! fyrir sjónir syndarann, án þeirrar forlíkunar, sem þér er afrekuð fyrir Krist; hvörnig mun honum finnast ástadt fyrir sér, edur hvörnig ætti honum ad minnsta kosti ad finnast ástadt fyrir sér, þegar hann ser ad hugsa um heilann herskara af syndum; syndum, sem sumar eru óvitanlegar, en svo margar vitanlegar, sumar eru breyskleika brestir og yfirsjónir, en svo margar þvermódsku lagabrot og misgjørdir. Ef adskilnadur frá Gudi, sviptir hans nádar, qvídi fyrir dóminum og samvitskunnar nagandi bríxlum; ef allar þessar tilfinningar hafa annars nockud ofbodslegt í sér, þá hlýtur þvílíks syndara ástand ad vera hid ógurlegasta af øllu. Hvada samqvæmi getur hann, sem óforlíktur syndari, haft vid sinn Gud? vorar syndir, segir Spámadurinn, gjøra adskilnad í millum Guds og vor. Þeirri heiløgustu veru og vanheiløgum syndurum, hvørnig má þeim koma saman? en ad vera ecki sameinadur Gudi, standa ecki í samqvæmi vid hann, sem í sinni náttúru er hid ædsta góda, uppsprettan til allrar farsældar, sem vér fáum notid hér nidri, og þeirrar, sem vér sídarmeir egum í vændum; o!

hvad skélfileg ólucka! en ad finna til þessa adskilnadar, finna rétt lifandi til hans, o! hvilikt helvíti!

Einn ófridþægdur syndari, hvada von gétur hann gjört sér um Guds nád? ad troda Drottins logmál undir fótunum, og ad ætlast þó til nádar og hylli log-gjafans, er hvørt odru gagnstædt; en ad vera sviptur þessari nád, ad finna sig sannfærdann um, ad madur géti ecki annars enn verid henni sviptur, hvílik ólucka er þad!

Einn óforlíktur syndari, til hvada rósemi gétur hann fundid í samvitsku sinni? já, vidlíka og værda hins druckna, sem sem sefur á flaka síns brotna skips, midt í því brim-bodarnir eru ad skola honum ad blind-skéri því, sem brýtur hans flaka í mola og steypir honum í afgrunnid. En þegar þessi samvitska vaknar upp á sídan, þegar hún herthýar sig med ollum sínum ógnunum, ígégn syndarans hjarta, þegar hún opnar afgrunnid undir fótum honum, og þetta afgrunn verdur þó jafnvel ecki ad fylla fyrir Log-gjafans reidi, o! hvílik ólucka!

Einn óforlíktur syndari, til hvílíkrar ángistar hlýtur hann ad finna fyrir daudanum,

anum, dóminum og eilífdinni? og sérhvert augna-blik flytur hann nær þessari eilífd, en hann þeckir ecki þad augna-blik, sem flytur hann, kynni máské, ad flytja hann í skyndingu med sér inn í eilífdina; til hrollkrar ángistar hlytur þessi syndari ecki finna, ef hann þeckir þá þrøm á hvorri hann reykandi flanar, og þann hyl, sem ólgar undir fótum honum? hann hlytur ad finna til vidlíka ángistar, sem óbótamadurinn, er ecki veit nær enn augnablikid kémur, ad laganna straff gángi yfir hann.

En, látum oss nú af þessu álykta og hvørsu mjøg væri óskandi, ad sú ályktan væri ecki ad eins kold og dádlaus verkan skilníngsins, heldur heit og lifandi tilfinníng, fyrir hvørja egin reynsla taladi í hjartanu. Látum oss af þessu gjøra þá ályktun: ad sé syndarinnar byrdi svo þúng, sé þánkinn um syndirnar, um óforlíktar syndir, svo ógurlegur, þá hlytur fullvissan um, ad vorar syndir séu fyrirgéfnar og afmádar, um vora forlíkun vid vorn Gud, ad vera eins sáluhjálpleg. Vorar syndir adskilja oss fra Gudi, vor fridþægíng sameinar oss aptur vid hann; vor-

ar syndir svipta oss Guds náð; vor friðþæging gjörir oss aptur á ný hluttakandi í hans náð; vorar syndir uppæsa ígégn oss allar samvitskunar öldur, ósjó og stormviðri; vor friðþæging lægir þessi stormviðri, og útbreiðir kyrrð og lygnu yfir þenna ósjó. Vorar syndir fylla hjarta vort skélfingar fyrir dóminum og eilífðinni; vor friðþæging umbreytir dóminum í frjunar-úrskurð, og eilífðina gjörir hún að umbun fyrir oss.

O! hvílíka huggun, hvílíka rósemi í minni sálu, hvílíka djörfúng í bæninni, hvílíka þolinmæði í mínum þjáníngum, hvílíkt hetju-skap og hugar-hreysti, þegar dauðinn að hondum kémur, mætti eg þá ekki géta fundið hjá mér, ef eg gæti með sanni, með fullkomnustu sannfæríngu sagt: mínar syndir eru fyrirgéfnar, mínar misgjörðir eru afmáðar. Hann, sem með sína friðþægíngar-fórn, inngéck í það allrahelgasta, sann líka mér til handa eilífa forlíkun! til þess, sem hinn iktsjúki fann, þegar Jesú náðar-fulla raust reisti hann á fætur: statt upp, minn sonur! þínar syndir eru þér fyrirgéfnar! til þess sama ætti eg líka géta fundið, til sömu huggunar

ar og fagnadar og sálar rósemi, því sama raustin talar enn þá í Evangelió til allra verdugra bordgésta vid Jesú qvöldmáltid, þegar þeir standa upp frá hans bordhaldi: statt upp, minn sonur! statt upp, mín dóttir! þínar syndir eru þér fyrirgéfnar. Nú þori eg ad taka undir lof-qvædi Davids: sæll er sá, hvørs yfirtrodslur eru fyrirgéfnar, hvørs syndir ad eru huldar; sæll er sá madur, hvørjum Drottinn tilreiknar ecki syndina. Já, þegar eg ber þad hugar-far med mér ad Drottins bordhaldi, sem Jesús Kristur útheimtir, þá gét eg med fögnudi tekid undir þenna lof-saung.

Þad er satt, þessa fridþægingu vid Gud, gétum vér ödlast ádur eñ vér gaungum til Guds bords; já, ádur enn vér komum þángad, hljótum vér ad hafa ödlast hana; en þad er jafnframt satt, ad naudn heilagrar qvöldmáltídar er oss útvortis sýnilegur pantur uppá vora fridþægingu og forlíkun. Þegar vér medtøkum braudid, þá þenkjum vér med sjálfum oss, og ecki einúngis þenkjum, heldur finnur gódur kristinn madur til fullkominnar sannfæríngar um þetta í sálu sinni: svo sannarlega,

sem Jesú líkami er sundurbrotinn fyrir mínar syndir, svo sannarlega, sem eg nú meðtek þetta brauð, og verð hluttakandi í píslum hans líkama, svo víst og satt er það, að mínar syndir eru nú fyrir hann afmáðar; þegar vér meðtökum vínið, þá finnum vér í vorri samvitsku til þessarar fullkomnu sannfæríngar: svo sannarlega, sem Jesú blóð er úthellt fyrir mínar syndir, svo sannarlega, sem eg meðtek þetta vín, og verð hluttakandi í hans blóðs úthellingu, svo satt er það líka, að mínar syndir eru fyrir hann afmáðar, og mínar misgjörðir fyrirgéfnar. Minn Guð er mér nú náðugur; hann er mér ecki lengur strángur dómari, heldur forlíktur faðir. Eg er hans barn, eins og barn er eg hans erfingi og Jesú Krists samarfi. Nú ofanstigur í mína sálu einn náðar-geisli eptir annann; hún finnur sig æ léttfærari til að skunda fram á sínu veðhlaupi til móts við sitt uppsetta takmark; gvíði fyrir dóminum og eilífðinni ofþýngir henni ecki lengur í sínum framgángi á dyggðarinnar og heilagleikans veðhlaupi. Þessi er hinn fyrsti ávöxtur af nautn heilagrar qvöldmáltíðar, þegar eg að eins með réttskickuðu hugarfari setst að þessari endurminn-

minníngar máltíd Krists, svo sem míns forlíkunar-manns, eg sæ þá sasnad ollum þeim sáluhjálplegu ávøxtum fyrir mitt hjarta, sem ecki kunna annars enn leida af fullvissunni um mína forlíkun.

En, þegar vér mætum fyrir Drottins altari, þá medkénnum vér Krist ecki ad eins fyrir vorn Forlíkunar-mann, hvorjum vér erum um vora elsku skyldugir; heldur og fyrir vorn Drottinn hvorjum vér erum um vora hlýdni skyldugir, og þessari hlýdni heitum vér honum, vér heitum honum henni opinberlega, og med hátídlegasta hætti. Þetta er nú uppspretta þeirrar farsældar, sem þetta heilaga verk gétur áunnid mér, þegar eg med réttskickudu hugar-fari tídka þad. Þegar eg setst ad þessari heilogu máltíd, þá vinn eg mínum Gudi, mínum Drottni, hofundi minnar trúar, þau hátídlegustu hlýdnis-heit. Eg vinn honum einhvorn hinn helgasta hollustu-eid. Þessi heit og þennann eid, vann eg Drottni ad sonnu í skírn minni, edur adrir gjordu þau þar mín vegna, þegar eg var inntekinn til ad vera limur og borgari í Jesú Krists kirkju. Þessi heit og þessi særi ætti eg ad vinna honum á hvor-

á hvörjum degi. Á hvörjum morgni þegar eg rís af sæng minni, ætti eg ad senja til hans, sem er fadir minnar veru: minn Fadir! minn velgjörari! þad var í þínu valdi ad afmá mig úr tölu lifendra; hefdir þú ad eins tekid þinn Anda frá mér, þá hefdi eg horfid aptur í mitt fyrra Eckert, og ordid aptur ad því dupti, sem eg var tekinn af. En, þú gafst mér enn þá þennann dag; þessi dagur skal því vera þér helgadur, helgadur þinni dýrd, hann skal vera helgadur minna medbrædra velferdar eblíngu; hann skal vera helgadur sjálfum mér handa eilífdinni.

Þetta hugar-far ættum vér ad hafa á hvörjum degi; en vissir dagar eru oss þó hátídlegri enn adrir; vissir dagar útheimta því af oss ödrum framar, ad vér á þeim endurnýjum fyrir oss þvílíkann heilagann ásetníng. Og hvörs krefst þá ecki sá dagur af oss, þegar vér mætum fyrir augliti alltsjáanda Guds, frammi fyrir Jesú Krists bordi? já, hvört heldur eg hugsa til þessara heita edur ecki, þá krefur sjálf þessi athöfn elsku og hlýdni af mér, og mín hluttekníng í þessari heilögu athöfn, er hátídleg skuldbindíng til ad fullnægja þessari kröfu.

Hvört

Hvort heldur eg hugsa til þessara heityrda edur ecki, svo verd eg meinsæris-madur, óverdugur míns Guds nádar, óverduaur þeirrar forlíkunar, sem fyrir mig er skéd, óverdugur vonar eilífs lífs, ef eg yfirtred vísvitandi þær hátidlegu skuldbindíngar, sem mér verda hér á hendur sagdar, og held áfram í mínum syndum.

O! þessi hugleidíng, hvílíkri heilagri hrædslu mætti hún ecki koma inn hjá mér, þegar eg nidurkrýp fyrir Drottins altari, og strengi þessi heit, og tek á móti þessum skuldbindíngum, ef hjarta mitt er ecki hreinskilid og fölskvalaust? en ef mitt hjarta er hreinskilid, hvorsu sáluhjálpleg gétur þá ecki þessi athöfn ordid mér, hvorsu heilladrjúg og notasæl? hvad! ef eg hefdi ætíd haft fyrir augunum þessi hlýdnis og trúnadar særi, sem eg hefi unnid mínum Gudi; ef eg á hvörjum degi segdi svo vid sjálfann mig: þad var þad heit, sem þú gjördir Drottni, þad var sá eidur, sem þú sórst eilífum Gudi, þegar þú seinast mættir frammi fyrir hans altari; ad þú vildir strída í móti sjálfum þér, berjast í móti þinni spillíngu, yfirvinna þessa girnd, temja þessa tilhneigíngu, setja skordur þessari

geds-

gêðshrærîngu, vaka yfir þèr fyrir þessum freistîngum, keppast eptir að ná þessum fullkomlegleika; þú hlýtur að kappkosta að binda enda á þitt heit, þú hlýtur að láta þèr ofbjóða að rjúfa þín særi, svo að þessi athöfn, sem þèna átti þèr til frelsis, snúist þèr ecki til dóms áfellis. Hvað! ef eg opt, ef eg á hvörjum degi, þegar freistîngar heimsins og míns egin hjarta, ráðast á mína sálu, ef eg þá nógu lifflega setti mèr fyrir sjónir það heit, sem eg seinast gjörði Drottni, hvílíkann styrk mundi eg þá ecki finna í stríðinu við sjálfann mig og við heiminn? hvílíka heilaga uppörvatníngu að hlaupa í orustuna og fullenda mitt hlaup? hvör synd mundi þá verða lèttvæg í mínum augum, hvör ávirðíng afsakanleg, til hvílíks heilags ótta og skélfíngar mundi eg finna í sèrhvört sinn, sem mín samvitska segði mèr, að eg hefði af ásetníngi rofið þetta, það heilagasta og það hátíðlegasta af öllum heitum; í sèrhvört sinn, sem eg fyndi til þessarar þrumu raustar í minni sálu: Þú ert meinsvari, eilífur Guð sjer þitt meinsæri og fordæmir þig. Ó! hvörsu mundi eg þá skélfast fyrir sjálfum mèr, og skjálfandi flýja á hans náðir, hvörs krapt-

ur

ur fær mig aptur uppreist af fallinu? hvörsu mundi eg þá aptur safna nýjum hug og dug, endurnýja mína krapta, og skunda því hradfarari fram á dygdarinnar og heilagleikans vedhlaupi, svo ad eg um sídir fengi höndlad mitt hnoss.

En, hafi nú nautn þeirrar heilögu qvøldmáltídar þannig allt þad í sér, sem kann ad fælg oss frá löstunum, og uppørfa oss til dygdar og rádvendni, þá hefir hún líka allt þad í sér, sem kann oss farsæla ad giøra. Hvad er þad, sem fyllir sálu vora med svo miklli órósemi, og vort líf med svo margskyns beiskju? hvad er þad, sem herthjar samvitskuna ígégn oss, med svo mørgum bríxlum og daudann med svo mørgum ógnunum? Þad eru syndir vorar og lestir, vorar ósedjanlegu girndir, vorar óstjórnlegu gedshræríngar, sem vér hvørki viljum fullkomlega temja né heldur sáum fullkomlega fridstillt. Hvörsu miklu sælli gæti eg þá ecki verid, ef eg fyrir krapt þess anda, sem volduglega verkar í mínum breyskleika, gæti svo barist, ad eg nædi sigri yfir sjálfum mér og mínu hjarta, gæti aflagt mína vondu vana, yfirunnid mínar syndsamlegu tilhnegíngar, hreinsad mig

mig frá allri saurgun sálar og líkama, og fullendad mína helgun med því ad óttast Gud? þá mundi mín sála uppbirtast og mitt hjarta hverfa aptur til sinnar rósemi.

Já, eg gét ad vísu svo barist, ad eg fái nád þessum sigri yfir sjálfum mér og yfir heiminum. Frammi fyrir Drottins altari ætla eg ad vinna alskygnum Gudi þad hátídlegasta heit, ad eg hédan í frá skuli strída vid sjálfann mig, og afmá úr sálu minni eina-fleckun eptir adra, sem vanvirdir mig í augsýn hinnar ædstu veru; hvorn dag vil eg hugsa til þess, ad eg unnid hefi Drottni þetta heit; einkum þá þegar freistingarnar storma inn ad minni sálu, þá vil eg hugsa til þessa færis, og sá þánki skal stydja mig í strídinu vid sjálfann mig; Jesú fyrirheit skal géfa styrk mínum veikleika: hvørr, sem etur mitt hold og dreckur mitt blód, sá blifur í mér og eg í honum, hvørr, sem blifur í mér og eg í honum, sá ber mikinn ávøxt; því án mín, fáid þér eckért gjørt. Þá mun eg verda sigursæll, og eptir þrautir strídsins og b-ráttu fá ad finna til og njóta fridarins farsældar.

Þessir eru ávextirnir, sem vér uppskorid gétum af verdugri nautn heilagrar

qvöld-

qvöldmáltídar; þetta er farsæld sú, sem þessi heilaga athöfn gëtur oss ablad. Hugsvölun í sálunni, fridur í samvitskunni, abl og kraptur í voru andlega stridi, kappsamleg ástundan dygdarinnar, og öll sú farsæld, sem náttúrlega leidir af þvílíkri heilagri alúd og atburdum.

Þad er satt, allir þeir, sem til Guds bords gánga, uppskëra ad sönnu ecki þessa ávexti; allir verda þeir ad sönnu ecki hluttakandi í þvílíkri farsæld; en þessari heilögu stiptun er ecki um þad ad kënna, ad vër annadhvort misbrúkum hana, edur brúkum hana ecki eins og hennar tilgángi sambhydur. Vër finnum ecki til þeirrar huggunar og gledi og hugar-hægdar, sem sá syndari ætti ad finna til, sem viss er um sína forlíkun; hvar fyrir finnum vër ecki til þessa? kannskë af því vër finnum ecki til fullvissunnar um vora forlíkun; og, kannskë, vër finnum ecki til hennar, af því vor samvitska vitnar á móti oss, ad vër höfum ecki verid þannig undirbúnir undir þetta heilaga verk, og ad vër ecki med svo ásigkomnum hjörtum höfum tidkad þad, ad vër gætum ordid hluttakandi í þessari forlíkun. Eptir brúkun heilagrar

qvoldmáltidar finnum vèr kannské, ecki til þessa styrks, þessara nýju krapta í stridinu vid-sjálfa oss og heiminn; en hvad fyrir heit gjordum vèr líka frammi fyrir Jesú Kristo altari? hvorsu alvarleg, hvorsu hreinskilin vóru þessi heit? hvad lengi var oss þad hugfast ad vèr hefdum gjort þau? hvorsu mjøg ógnadi oss ad verda meinsæris-menn, med því ad rjúfa þau? og furdar oss þá á því, þó vèr ecki uppskérum af vorri altaris-gaungu, þau not, sem sá sannkristni uppskér, þegar ver hofum ecki hjartalag þess sann-kristna til ad bera. Gud gæfi! ad ég gjordi því aldrei þessa raungu ályktun: eg hef ecki fundid til þessara ávaxtar nota af brúkun heilagrar qvoldmáltidar; þessi stiptan hefir því ecki þessa ávexti og not til ad bera. Nei! ef eg finn ecki til þessara nota, þá má eg heldur álykta hinn veginn: eg géck ecki til Guds bords med því hugar-fari, sem Drottinn útheimtir af sínum verdugum bordgéstum. Mitt ótilreidda hjarta, mín hálf-velgja, mitt ydrunarleysi, mínar drottnandi girndir, mínar óstjórnlegu géds-hræringar, minn alvorulausi og dausi ásetníngur, mín maktarlausu veiku loford, sem dóu á vorun-

unum, þessir vóru óvinirnir, sem svipta mig svo miklum og veglegum ávoxtum þessarar heilogu athafnar.

Minn Guð! eg vil þess vegna í þetta sinn svo alvarlega leitast við að krjúpa fyrir þínu altari, með þeirri trú, þeirri auðmýkt, þeirri þeckingu og viðurkénníngu míns ófullkomlegleika, já, þess, að eg er eckert, og þeirri vissu um þá forlíkun, sem fyrir mig er skéð, að eg géti þaðan aptur uppstaðið rósamur í sálu minni, fyrir þá sáluhjálplegu sannfæringu: þér eru þínar syndir fyrirgéfnar. Eg vil í þetta sinn niðurkrjúpa fyrir þínu altari með þessu hreinskilnu, þessu órjúfanlegu heitorði: o! Faðir! o! velgjorari! o! þú minn, fyrir Krist, forlíkti Faðir! nógu lengi hefi eg þjónað sjálfum mér, nógu lengi heiminum; héðan í frá vil eg þjóna þér, í heilagleika og réttlæti vil eg þér þjóna. Fyrir þig einann vil eg frambera mína fórn og mitt reykelsi. Eg vil ecki leyna hjá sjálfum mér neinni syndsamlegri girnd, neinni órélegri tilhnegíngu. Þér tilheyrir allt mitt hjarta, það skal vera þitt musteri og þinn bústaður. Fyrir þinn krapt vil eg hér eptir kosta kapps um, að hreinsa mig sjálfann

frá allri fleckun sálar og líkama, og fullenda mína helgun í þínum ótta. Vei því augnabliki, þegar eg skyldi af ásettu ráði styggja þig. AE! minn Guð! æ! að eg mætti með þessum þaunkum og þessu einlæga áformi, niðurkrjúpa fyrir þínu altari! o! að eg gæti framvegis leitast við, að viðhalda þessum þaunkum og þessu áformi lifandi í sálu minni, þá mun þetta heilaga verk verða sáluhjálplegt fyrir mig; miklir og vegsamlegir munu þá þeir ávextir verða, sem eg mundi af því uppskéra; ávextir, sem eg nyti hér í tímanum, og ávextir, sem eg njóta mundi alla takmarkalausa eilífð.

## V. Kapítuli.

*Hvörsu straffsverdt sé að brúka heilaga Qvöldmáltíð óverdugur.*

Að það ríði ecki á litlu, hvort vér með verdugum edur óverdugum hjörtum nálægjum oss til Drottins borðhalds, að þess óverduga naumn hljóti eins vel að hafa sín sálunni skadlegu eptirkeft, eins og þess verdug naumn hefir sína sáluhjálplega ávexti, það gétur skynsemin einúngis sagt oss, þó Páll hefði jafnvel aldrei sagt: hvar sem

sem etur og dreckur óverdugur, sá etur og dreckur sjálfum sér dóm, 1 Cor, 11. En, þessi ritníngar-gein verdur opt ráng-lega útlögd, og raung útleggíng á henni hefir ósjaldan gefid veikum sálum tilefni til efasemi og stuftunar. Eg hlýt þess vegna fyrst med fám ordum ad leida í ljós þessarar greinar réttann skilníng, ádur enn eg fer lengra áfram. Tvennt er hér, sem verdt er athygli vorrar: bædi, hvad Páll meinar med því ad eta og drecka óverdugur, og líka, í hvörju þad dóms-áfelli er innifalid, sem þeir yfir sig leida, sem eta og drecka óverdugir.

Fyrra spursmálid er: hvad merkir í þessari grein ad eta og drecka óverdug-ur? hinir fyrstu kristnu höfdu sínar svo nefndar kjærleiks-máltídir. Ríkir og fátæk-ir samansöfnuduft, þeir átu fyrst og druckú saman, ádur enn þeir átu braudid og druckú vínid í minníngu Jésú Kristo; þessi sidvenja, sem rétt brúkud, gat verid nytsamleg, vard fyrir misbrúkunina skad-leg. Þeir ríku forsmádu þá fátæku, þeir, sem nockud áttu til, ofþýngdu náttúrunni med ofmiklum mat og dryck; hinir fá-tæku þarámóti, sem eckert áttu til, hlutu

 ad

ad ſvelta. Menn ſiá berlega af ſaman‑henginu, ad þad er þetta regluleyſi, ſem Páll midar til, og ad fremja þvílíkt ó‑ſkick og regluleyſi vid bordhald Drottins, þad kallar hann ad eta og drecka óverd‑ugur, edur kannſke ecki ſidur útlagt: ad eta og drecka á ótilbærilegann hátt.

Sídara ſpursmálid er: hvad meinar Páll med því dóms‑áfelli, ſem ſlikir ſam‑neytendur átu og druncku ſiálfum ſér? eg ſvara: ad Páll talar hér ecki um eilífa fordæmingu; hann talar um tímanlega hegníngar‑dóma, med hvoriúm þeirra var á þeim tímum heimvitjad, ſem hegdudu ſér ótilbærilega vid þá heilögu qvöldmáltíd, hvad audſært er af því, ſem eptirfylgir: þar fyrir, ſegir hann, eru ſvo margir ſiúkir og veikir ydar á milli, og nockrir eru daudir, 1 Cor. 11. Á þeim fyrſtu tímum kriſtninnar var þad naudſynlegt, ad Drottinn med ſýnilegum hætti tæki ſ forſvar heidur ſinna trúarbragda. Kriſtn‑in ſtód þá undir heidnum yfirvöldum, ſem eckert létu ſér umgéfid þad innvortis reglu‑leyſi og óſkick, ſem framid var á móti Jesú lögum og Poſtulanna tilſkipunum; þeſsvegna ſtraffadi Drottinn réttlínis þetta

óſkick

óſkick og reglulęyſi. Þeſs vegna var þeim Ananias og Sapphiru burtu kippt med haſtarlegum dauds-daga, Act. 5. Þeſs vegna vóru líka þeir, ſem hegdudu ſér ó-ſæmilega vid Drottins bordhald, ſtraff-adir á ſérlegann hátt, ſtundum med hörd-um ſóttum, ſtundum med brádum dauda. Og til þeſſa lítur Páll, þegar hann ſegir: Þar eru ſvo margir ſjúkir og veikir ydar á medal, og ſumir eru daudir. Af því þér, vill hann ſegja, med ſvo ó-ſæmilegum hætti mætid vid Drottins bord-hald, þá verda ſvo margir ydar á medal fyrir hremmíngum af hördum ſóttum, þeſs vegna verdur líka mörgum med ſérlegum hætti ſkyndilega í burtu kippt. Þetta er þad dóms-áfelli, ſem hann ad framan tal-ar um, ſá dómur, ſem þeir átu og druku ſjálfum ſér vid Drottins qvöldmáltíd-ar bord.

Vér ſjáum af þeſſu, ad áminnſt ritn-íngar-grein á ecki heima vid vora tíma. Vér höfum engar þeſskonar kjærleiks-máltídir; vér kunnum þá ecki ad fremja þeſsháttar óſkick, ſem Poſtulinn hér um talar. Þad ſtraff, ſem þeir fyrſtu kriſtnu urdu fyrir, brúkar Drottinn ecki heldur

á vorum tímum. En, af því ad vér ecki freiujum þad, og verdum ecki fyrir þess-konar sérlegum hefnda-dómum, skyldi þad þá fljóta þar af ad oss vardi engu, hvornig vér gaungum til Guds bords? og ad þad sé sídur straffsverdt, ef vér hegdum oss óverduglega og ósæmilega vid þessa heilögu máltid? eg hefi ad undanförnu sagt, med hvílíku hugar-fari vér mæta eigum vid heilaga qvöldmáltid. Þegar vér komum til Guds bords med sannri elsku til Kristś, og þeim stadföstum ásetníngi af elsku til hans ad hlýdnast honum, svo gaungum vér verduglega til Guds bords, edur ver erum svo sinnadir, sem Jesús Kristur vill ad sínir bordgéstir skuli vera, Þegar vér þá gaungum til Guds bords fyrir utan elsku til Krists, sem af elsku til vor lét lífid fyrir oss; þegar vér hösum ecki þann ásetníng ad láta vora elsku til hans í ljósi med hlýdninni, med vilugri, undanfærslulausri og stadfastri hlýdni, þá gaungum vér þángad óverdugir; því vér gaungum þá ecki med því hugar-fari, sem Jesús Kristur heimtar af oss, og þessi óverdugleiki, mun hann vera í sjálfu sér sídur straffsverdur, enn sá, um hvern Páll

Páll talar? Þetta viljum vér ransaka. Það má eg með sanni segja, að kristnir menn, sem á vorum tímum gánga óverðugir til Drottins borðs, eru í sínum hjörtum eins spilltir og hinir, sem Postulinn um talar, og gēfa eins mikið hneixli af sér, og hinir; þeir hljóta þá að vera í Drottins augum eins straffsverðugir, þó svel þó þeir verði ecki fyrir hremmíngum hinna sömu hefnda-dóma.

Hvørr einn óverðugur borðgéstur við Drottins borðhald, edur sá, sem fyrir utan elsku til Krists og án þess ásetnings að hlýðnast honum, gengur til þeirrar heilögu qvöldmáltíðar, hann yfirtreður þessa Páls áminníngu: hvørr maður prófi sig sjálfann, og eti af þessu brauði, og drecki af þessum kaleik, 1 Cor. 11. En sá, sem gengur óverðugur til Guds borðs, mun hann fyrst hafa ransakað sitt hjarta? mundi hann dyrsast að mæta fyrir Drottins altari, ef hann hefði ransakað það? Þegar hann finndi í sínu hjarta svo mikla hálfvelgju og ástleysi til þess endurlausnara, hvørs elska uppfylla ætti hans sálu með þeim heitasta elskunnar blossa til hans aptur á móti; Þegar hann finndi svo margar syndsamlegar

gêdshræríngar, sem enn þá drottna yfir honum, og svo dausa lyst til ad hreinsa burt þessar girndir, og til ad dempa þessar gêdshræríngar, mundi hann þá dyrfast ad mæta fyrir Drottins altari? og sé þad ætid syndsamlegt ad yfirtroda Drottins bodord, hvörsu miklu stærri sök hlytur þá ad vera á þeirri synd, rétt á sama stundu, sem vér mætum fyrir hans bordi, sem vér viljum leita hans nádar, sem vér viljum taka á móti svo hátídlegum panti uppá hans elsku? hvörsu miklu stærri sök hlytur þá ad vera á því, ad yfirtroda þessa skipun Drottins: hvörr madur prófi sig sjálfann; ad yfirtroda hana rétt í sama sinn, sem vér losum honum edur ættum ad lofa honum vorri gjörvallri hlydni?

En, kannské sá óvertugi bord-gêstur rannsaki sjálfann sig, kannské hann þecki sínar óhreinu girndir, sínar reglulausu gêdshræríngar, sínar syndsamlegu og lastverdu athafnir, og gángi svo fram ad Drottins altari. Vid þetta vex hans synd. Þad, sem ádur var kannské ecki annad enn straffsverdt eptirþánka og athugaleysi, þad verdur nú ad óskammfeilni, þverúd, forakti vid þá mikilvægustu og heilögustu athöfn. Hvör-

Hvörjum er svo bodid til bordhalds hjá sinum velgjörda manni, ad hann ecki mæti í þeim búningi, er sambýdur tign manns sins, sem baud honum? ad haga sér þvert á móti þessu sidseminnar lögmáli, það sýnir forakt vid velgjörarann, og þetta forakt gjörir hann óverdugann hans ástar-þocka. Allteins er því varid fyrir þeim, sem gánga til Guds bords án þessa evangelíska verdugleika. Kristur útheimtir, ad sínir bordgéstir skuli ofleggja þann gamla mann og íklædast þeim nýja; hann vill, ad þeir komi þar ad prýddir elsku og hlýdni; og nú færa þeir þángad hjarta, sem vanhelgad er af óhreinum girndum, sem druckid er af skilníngarvitanna glisi og fýsnum, sem þræll er sinna gédshræringa, og hertekid undir ánauduga þrælkun af heiminum og hans töfrandi glaum og glingri. Hvad viljum vér kalla forakt Drottins nádar, hvad viljum vér kalla óskammfeilni, ef ecki þetta? þvílíkir kristnir mæta eins hyrdu- og andvara-lausir vid þessa heilögu máltíd, sem vid hvörja almennilega máltíd; já, þeir brúka jafnvel minni andirbúníng undir hina fyrri enn þessa seinni.

Þessi synd verdur fyrir tilgáng þess, sem hana fremur, enn þá stærri. Hvorr einn óverdugur géstur sá, sem hefir spillt hjarta, og enga lyst né vidleitni til ad hreinsa sig af sinni spillíngu, hvors vegna gengur hann til Guds bords? annadhvort hyggst hann ad ávinna sér nockud med því, og væntir ad fá, med þessari útvortis athøfn einúngis, komid sér í nád hjá sínum Gudi, og odlast fyrirgéníngu synda sinna, til þess ad hann géti ad nýju byrjad nýjar syndir, ellegar hann ætlar sér ad draga bædi Gud og menn á tálar. Hann vill ad minnsta kosti vera álitinn fyrir þann, sem hann ecki er; þar hann gétur ecki fengid af sér ad verda sá, sem hann vill verda álitinn fyrir ad vera. Hañ kastar utan á sig þessum ham, þessu yfirskini gudhrædslunnar, hvorrar krapti hann í hjartanu afneitar. Hann leggur yfir sig þessa yfirhøfn heilagleikans, og þar innan undir er hann óhreinn og vanhelgur; þessi dularfeldur, er hann nú ecki afueitan Guds heilagleika, alvitsku og allstadar nálægdar? er hann ecki rétt ad hæda ad Gudi? og mun sá óendanlegi láta í g hæda af sínum sképnum? mun hann ecki á sídan sýna þad, ad eckert myrkur er myrkur fyrir hon-um;

um; ad dular-hamurinn fær ecki bleckt hans auga?

En syndin, hvorsu straffsverd sem hún jafnvel er í sjálfri sér, verdur þó ætíd enn þá stærra straffs verdug, þegar hún undir eins er skadleg ødrum, sem hún hneixlar; og sá óverdugi bordgéstur vid Drottins bordhald, hvílíku hneixli veldur hann ecki í søfnudinum? Þeir, sem hafna brúkun heilagrar qvøldmáltídar, svo sem væri hún gagnslaus og ekkért umvardandi, færa ætíd til síns máls dæmi þeirra, sem ár frá ári gánga til Guds bords, og eru þó eptirá hinir sømu vanhelgir kristnir, sem þeir hafa ætíd verid. Þessi þeirra átylla er ad vísu bygd á raungum skilníngi um verkun þessarar heilogu athafnar; þetta nádar medal er einúngis stadfestíngar medal; þad á ad gjora vora von vissari, vora trú ítrfastari, vora elsku enn brennheitari. En hvar sem nú engin von er, engin trú, engin elska, þar hlytur þetta medal, sem í sjálfu sér er kroptugt og verkandi, ad verda ávaxtarlaust; þad gétur ecki annars enn ordid þar án alls kraptar og verkana. Þad væri ysirid fráleit ályktan, ef einhverr vildi dæma þannig: þetta læknis-medal hefir ecki heilbrygdad

þann edur þann sjúkling; þess vegna hefir þad-í sjálfu sér alls enganu heilbrygdandi krapt, og því kann enginn fyrir þad ad lækn- ast; þessi fæda er skadleg fyrir sjúkann mann, því kann hún ecki ad styrkja heilbrygdann; og alltéins óviturlega álykta þeir, sem af ó- laagfærdu ástandi eins edur annars, sem til Guds bords gengur, vilja draga þá álykt- un, ad þetta dýrmæta nádar medal sé gagn- laust. En þessir óverdugu géstir, sem ept- ir brúkun qvøldmáltídarinnar eru eins ó- lagfærdir í sínum lífshættum, eins óum- breyttir í sínum hjörtum, eins og ádur, þeim er þad ad kénna, ad þetta sáluhjálp- lega medal verdur lastad og forsmád í stad- inn þess, ad þad ætti ad sýna sinn krapt í gjørvøllu þeirra framferdi. Er þetta ecki hneixli, ein sá versta tegund af hneixli? væri þad ecki betra, ad þeir í þessu ydrunar- og umbótar-lausa ástandi, héldi sig frá bord- haldi Drottins, þeir mundu þá ad minnsta kosti mæta tiltali fyrir egin syndir ad eins. Þeir mundu þá ecki steypa sínum medbræd- rum med ser í sømu glotun, og ecki med sínu hneixli hlada aññarlegum syndum ofaná sínar egin syndir. Væri þad ad undra, þó Drott- inn, jafnvel med bersýnilegum hefnda-dóm- um

um, heimvitjadi þessara óverdugu bord-gésta, til ad burttaka þvílikt hneixli, og átsnaradi þessum þyrnum af sæðinum, sem ecki ad eins sjálsir eru ávaxtarlausir, heldur draga frá hveitinu þess næring-ar-vökva.

Eg vil enn þá bæta þessu vid, ad sá ó-verdugi bordgestur vid Drottins bord, sem vid þetta heilaga verk eckért lagfæriſt, eckért umbreytiſt, hann lætur í ljósi illt og for-herdt hjarta. Hvørr getur tekid á móti þessum heilogu endurminningar teiknum um elsku Jesú deyjanda, án þess hann setji sér rétt lifandi fyrir sjónir hans saklausa dauda, og hans harmqvælasullu píslir? med þess-ari heilogu athøfn er oss vakid minni, á þessa sídunu um Guds óendanlega réttlæti, en á hina um Jesú hjartgrónu elsku. Þessi endurminning Jesú dauda, þessi umþenk-ing hans elsku, hvors skyldi hún abla í vor-um hjørtum, nema sárrar hrellingar yfir syndinni, fyrir hvørrar sakir Jesús Krist-ur var krossfestur, sáluhjálplegs ótta fyrir guddómsins réttlæti, sem ecki kunni ad frid-þægjast, utan med þvílíkri svo óendanlega stórri fórn; hún ætti ad abla innilegrar elsku til þessa vors háleitasta velgjørara aptur á

 mót,

mót, sem med þvílíkri óútsegjanlegri elsku elskadi sínar manneskjur allt í daudann, og stodugs, heilags, órjúfanlegs áforms ad eptirfylgja honum, ad dýrka hann, ad hlýda, ad þjóna honum, ad ofurgéfa honum aptur á mot vort gjørvallt hjarta med øllum þess kroptum, med øllum þess kjærustu tilhnegíngum og girndum til hans þjónustu.

Eg vil láta vera, sem einn deyjandi ástvinur hefdi á sinni bana-sæng med eignum sínum frelsad oss frá þúngum og sárum armód, og hjálpad oss til þeirra lífshaga, sem vér køllum farsæla. Æ! þessi eptirlíking er þó allt of dauf og léttvæg til ad utmála Jesú Krists elsku. En, eg vil leida mér í hug, ad vér værum fordæmdir til ad brennast á báli fyrir einhvern stór-glæp. Daud-daginn er þegar tilreiddur, bálid er þegar qveikt, sem á ad brenna oss, reykurinn, med eld-blossanum, stígur med ógurlegri hæd og bálast upp í skýin. Vér sjáum þessi dymmu, þessi ógnarlegu ský; þegar álengdar finnum vér til þess hita, sem þadan leggur, svo sem forsmeckr þeirrar píslar, sem nálgast oss. Allir vorir limir eru fjøtradir; vorir

veiku

veiku fætur hafa einúngis það ólucku legá frelsi, að draga oss fram að þeim hryllilegasta dauð-daga. Allt er nú tilbúið; morð-engillinn bídur einúngis seinustu skipunar að varpa oss í þenna elds afgrunn, og nú heyrum vér þetta reiðarslag, rétt eins reiðarslag og þeirrar seinustu básúnu, sem boðar heimsins eydileggíngu. Vorir fætur reyka af óstyrk, vor kné hníga niður, vorir seinustu kraptar yfirgéfa oss. Vér erum þrifnir á lopt, rétt í skyndíngu er oss varpað fram að þessu eld-hafi. En hér, við þetta seinasta fótmál millum dauðans og lífsins, mætir oss einn vinur, sem umfaðmar oss; hann reisir upp vort niðurhnígandi höfuð; hann semur sáttar-gjörð við vorn Dómara; Dómarinn lætur sig forlíka fyrir hans dauða; með gleði hleypur hann nú í dauðann fyrir oss, og vér frelsumst; vér náum aptur voru frelsi; já! vér erfum allar hans eignir. Þess eina krefst hann af oss til umbunar, að vér með þacklæti skulum minnast hans dauða, sem oss var svo góðgjörðasamur, að vér skulum elska hann, sem vorn velgjörara, að vér á vissum tímum skulum samansafnast til að endurnýja hjá oss minníngu

hans

hans velgjørda med einni kjærleiks-máltíd, uppá þad, vort þacklæti og vor elska til hans skuli ecki hvad af hvørju deyja út í vorum hjörtum. En vèr gætum þess eina, en'afrækjum þad annad; vèr komum saman, vèr etum, vèr dreckum, vèr gaungum í burt aptur; en hugsum aldrei til velgjørarans, setjum oss aldrei fyrir sjónir hans dauda, og hugsum aldrei til hans dauda dýrmætu ávaxta oss til handa. Vor hjörtu verda köld, köld af øllum elsku og þacklætis tilfinníngum.

Æ! til hvørs finnum vèr þó, þegar vèr setjum oss þessa eptirlíkíngu fyrir sjónir? finnum vèr ecki til heimuglegs ógeds og ángurs yfir þessum óþacklátu? fellum vèr ecki þann rèttvísa dóm, ad þvílíkir menn sèu sviptir øllum gódum, øllum tignum tilfinníngum? munum vèr álíta þad órèttvíst, þó sá fyrsti dauda-dómur gángi yfir þessa óþacklátu, þessa tilfinníngarlausu? munum vèr ecki finna oss freistast til ad vera hinir fyrstu, sem áklaga og fordæma þá?

Og hvad er þó þessi synd ad reikna, hjá þeirra synd, sem mæta vid Jesú bordhald, án allra elsku og hlýdnis til-

tilfinnínga? já, hvad væri elska þess. strax áminnsta velgjørara, ad reikna á móti Jesú Krists elsku, sem med sinni pínu aptur forlíkadi oss vid Gud, vid hañ, sem er uppspretta allrar vorrar farsældar; sem frelsadi oss, ecki frá harmqvælum nockurra fárra augnáblika, heldur frá gjörvallrar eilífdarinnar eymd og ólucku, sem med sínum dauda opnadi oss inngáng til ódaudlegleikans, til þess farsæla ódaudlegleika. Og hvørsu hlýtur þá ecki þeirra forherding ad vera stór, sem nálægja sig ad Drottins altari, taka á móti þessum heiløgu endurminníngar-teiknum hans sundurknosada líkama og úthellta blóds, án þess ad hugsa med þacklæti til hans dauda, og án þess ad finna til heitustu elsku aptur á mót vid yfirvegun þessarar óvidjafnanlegu elsku!

Hvørsu straffsverdt hlýtur þad þá ecki ad vera ad tídka þá heiløgu qvøldmáltíd med óverdugum hjørtum! Þvílíkir yfirtroda, á svo hátídlegum degi yfirtroda þeir Drottins útþryckilegu skipun um þad, ad prófa sjálfa sig; þeir láta í ljósi hid skammarlegasta forakt vid þessa heiløgu athøfn; þeir leitast vid med gudhrædslu

yfir-

yfirskini, ad draga þann alvitra edur adra menn, brædur sína á tálar; þeir gefa sofnudinum hid skammarlegasta hneixli; þeir sýna ad þeir búi yfir vondu og forherdtu hjarta. Er þá ad undra, þó sú athøfn, sem efla ætti þeirra líf, verdi þeim nú banvæn og snúist þeim til dauda?

Sé þad þá svo háskasamlegt, svo straffsverdt ad mæta fyrir Drottins háborði med ótilreiddu og óverdugu hjarta, ó! svo látum oss þá fyrst, ádur enn vér nálægjum oss til þessarar heilögu máltídar, látum oss heimta aptur saman frá heiminum vorar dreifdu hugrenningar, látum oss slá frá oss vorum tímanlegum onnum, látum oss setia vor skilníngarvit og vorar girndir í kyrrd, og í kyrrdum og einrúmi ransaka sjálfa oss, og framfylgja þessari Páls áminningu: hvørr madur prófi sig sjálfur og eti svo af þessu braudi og drecki af þessum kaleik.

## VI. Kapituli.

### Sjálfs-prófan kristins manns, ádur enn hann gengur til h. Qvøldmáltídar.

Gjorvallt sjálfs-próf kristins manns, ádur enn hann gengur til Guds bords, kann í þrem-

í þremur höfuð-spursmálum að innibindast: hvørt gengur þú? hvørs vegna gengur þú? hvørnig gengur þú? þessi spursmál vil eg þá rétt alvarlega framsetja fyrir sjálfann mig, og fylgislaust svara uppá þau. O! mín sál! o! að þú svikir ecki sjálfa þig í þessari mikilvægu ranisókn! o! að mín sjálfs elska fengi ecki blindað mig, eins og hún blindar svo marga, og hefir kannské, því miður! svo opt blindað mig. Nei, þvílík blindan væri háskasamleg fyrir mína sálu; øll mín lagfæring er undir því komin, að eg nái að þeckja mitt egið hjarta. Hvørnig má eg kosta kapps um að fá þann sjúkdóm læknaðann, sem eg ecki þecki? hvørnig má eg afleggja þá bresti og breyskleika, sem eg ecki veit að eg hafi? hvørnig má eg rétt alvarlega képpast eptir þeim dygðum, sem eg hygg mig vera þegar gæddann? og þessar dygðir, sem mig skortir, hvørsu yfrið margar eru þær að reikna móti þeim brestum og ávirdíngum, sem eg í raun og veru er hlaðinn? undir þeckíngunni á mínu egin hjarta er þá komin úrlausin þeß mikilvæga spursmáls, hvørt eg hafi heldur góðs að vænta eður illu að qvíða við þetta heilaga verk, sem eg tek mér nú fyrir hendur.

ur. Hvörsu illa væri mér háttad, ef eg færi villur í þessu, ef eg vænti mér þar góds, sem eg hefdi fremur orsök ad qvída illu? en hvörsu huglaus og örvæntinn mætti eg verda, ef eg qvidi þar illu, sem eg hefdi orsök til ad vænta góds? undir þeckingu míns egin-hjarta er þad komid, hvört eg má eigna mér alla þá sáluhjálplegu ávexti af brúkun qvöldmáltídarinnar, sem Drottinn hefir lofad sínum verdugum bordgéstum, hvört eg fæ í raun og veru ad smacka þessa ávexti, og njóta þeirra í sinni gjörvallri fyllingu, edur eg hlýt ad finna til þessa ógnarlega þánka, ad eg med óverdugri nautn þessarar heilögu máltídar, hafi framid þá stærstu af öllum syndum. Eg vil því draga af þann dular-ham, sem kynni ad leyna mér fyrir sjálfum mér; hann fær þó ecki falid mig fyrir Gudi; eg vil nota allt þad ljós, sem Drottinn hefir géfid mér til þess, ad sá þreyngt mér inní þau innstu fylsni minnar sálar, eg vil med athygli grenslast gégnum mitt gjörvallt hjarta, og ransaka þad í öllum þe's djúpustu fylsnum. Og þú, minn Gud! hald þú í hönd med mér, svo enginn heimuglegur afkými í minni sálu leyni sér fyrir mér, svo þar verdi eng-

enginn blettur eptir í mínu hjarta, sem eg ecki taki eptir! eg spyr þá sjálfann mig:

Hvört gengur þú? já, til einnar máltídar, en þeirrar heilögustu og hátídlegustu af öllum máltídum; máltídar, sem skipud er Jesú Kristi til dýrdar, máltídar í Drottins musteri, hvar óendanlegur Gud er sérdeilis nálægur. Þad er satt, eg veit ad Drottinn er allstadar nálægur, hann uppfyllir himin og jörd med sinni óendanlegu hátign; jafnvel þá þegar eg í einrúmi nidurkrýp fyrir mínum födur, er hann mér nálægur og hjá mér, nálægur mér, med sína nád og miskun lítur hann ofan til reykelsis-offurs minna vara, og þyggur þad med velþóknun. En, í sínum kirkjum hefir hann einkum heitid oss sinni nádar nálægd; hvar tveir edur þrír af hans tilbidjendum eru samankomnir í hans nafni, þar vill hann vera midt á medal þeirra; þad er Jesú egid loford, Matth. 18. O! einn huggunar-fullur þánki! einn yfirvættis mikilvægur þánki! sá óendanlegi, hvörn allir himnanna himnar fá ecki tekid, hann vill virda mig sinnar öldúngis stakleg(r)ar nálægdar, þegar eg mæti í hans húsi, þegar eg nid-

urkrhp fyrir hans háborði; en þvílíkur þánki, sem jafnframt á að koma inn hjá mér djúpustu auðmýkt, og heilagri lotníngu fyrir þeirri veru, fyrir hvorrar augsýn eg mæti. Finn eg þá til þessarar auðmýktar, þessarar lotníngar, þegar eg hugsa til þessa: Drottinn er nálægur? þessi auðmýkt og lotníng, sem eg finn til fyrir þeim nærverandi guðdómi, útbreiðir hún sig líka yfir mitt gjörvallt hjarta? sú auðmýkt, með hvörri eg niðurbeygi mig fyrir mínum Guði, er hún þá ecki einúngis einn dular-hamur, undir hvörjum eg legni þeim hroka, með hvörjum eg upphef mig yfir mína samkristna? gét eg hér, frammi fyrir Jesú Krists altari gleymt, eiðúngis gleymt mínum met.rðum, mínum fyrirgaungu-rétti, mínum nafnbótum og virðíngum? þecki eg hér og viðurkénni sjálfann mig jafnann við þann auðvirðilegasta; kannast eg við, að eg sé syndari eins og hann? mold og aska eins og hann? sé til sama ætlaður sem hann? og sé af náttúrunni undirorpinn sömu spillíngu og sömu fordæmíngu sem hann? ó! mín sál! ef þú upphrokar þér enn þá hér, þar sem þú finnur hinar oblugustu hjærðnoi

ástæð-

áſtæður til að auðmÿkja þig, þá er jafnvel ſiálſt það auðmÿktar ſkin, ſem þú lætſt ſÿna á þér fyrir þinum Gudi, ecki annað enn hégómi, og með þeſſu hégómlega hjartalagi gleymir þú, hvort þú gengur, þú gleymir þeirri veru, fyrir hvorrar augliti þú ſtendur, og því altari, fyrir hvorju þú niðurkrÿpur. Nei! minn Guð! lát mig aldrei gleyma, að eg ſtend fyrir þinu augliti, að eg ſtend í þeim ſtað, hvar þú ert nálægur, að eg viðurkénni mig hér að vera ſyndara, ſem óverdugur ſé þinnar óforþéntu náðar, ſvo að eg niðurlægi mig fyrir þér, ecki að eins með líkamanum, heldur og líka með ſálunni, og upphroki mér ecki yfir mína brædur, midt í því eg lætſt auðmÿkja mig fyrir þér. Kannſke ſá auðvirdilegaſti í ríki veraldarinnar ſé ſá tignaſti í þinu ríki; kannſke ſá, ſem eg forſmái, ſé þér áſtfólginn, og ſá, ſem nú ſtendur lángtum neðar enn eg, mun kannſke í einum betra heimi ſtanda fyrir ofan mig, því hjá þér er eckért mangreinarálit.

En framar vil eg aðſpyrja: hvørs vegna geng eg til Guds bords? kannſke eg gángi það af því aðrir gánga það? kannſke til þeſs, að eg verði ecki álitinn fyrir

fyrir vanhelgann og andvaralausann? kannské til ad fyrra mig kirkjulaganna og safnadarins vítum? kannské, af því þad er nú kominn sá venjulegi tími, á hvörjum eg er annars vanur, ad gánga til Guds bords? o! sé minn tilgángur þessi vid þessa heilögu athöfn, hafi eg ecki annann tilgáng enn þenna, hvörsu óhreinn og vanhelgur er þá minn tilgángur! get eg vænt þess ad vera þeirrar heilögustu veru velþócknunar verdugur, þegar eg hef svo óhreinann og vanhelgann tilgáng? eg framqvæmi þá ecki þessa athöfn af hlýdni vid Jess Krists skipun, ecki af elsku til míns ædsta velgjörara, heldur af vana, af ótta fyrir mönnum, af skinhelgi og hræsni. Var þessi þá tilgángurinn hvar fyrir Jesús innsetti þessa heilögu máltíd? gjörid þetta, segir hann, í mína minníngu! minn tilgángur hlýtur ad vera sá sami, sem Jesú Krists var. Géng eg þá líka til Guds bords til þess, ad setja mér, vid þessa hátídlegu athöfn, vott lifandi fyrir sjónir míns Jesú pínu og dauda fyrir mínar syndir, til þess ad vidurkénna Jesúm opinberlega fyrir minn forlíkunar-mann, og þá einustu upp-

sprettu

ſprettu minnar vonar, minnar huggunar, minnar hugar⸗hægdar, og til þeſs, ad dýrkg hann med þeſſari vidurkénníngu? geng eg til Guds bords til ad vidurkénna opinberlega ſyndir mínar, til ad fá med þeirri vidurkénníngu audmýkt mig fyrir Gudi mínum, og árnad mér aptur hans miſkunar, fyrir ſakir hans, ſem lagdi út lífid fyrir mig? geng eg til Guds bords til ad ſtyrkjaſt í minni trú, til ad gjøraſt fullviſs um míns Guds nád, til ad upp⸗tendraſt í minni elſku, til ad ſtyrkjaſt í mínum gódum áſetníngi, til ad ſafna mér nýjum kroptum til ad ſtrída vid ſjálfann mig, til ad yfirvinna freiſtíngar heimſins og míns egin hjarta, og gánga þann veg því ſtodugar og óhvikular fram á því ved⸗hlaupi, ſem leidir mig til hins ókomna ſæla ódaudlegleika, ſem Jeſús hefir mér med ſínum dauda afrekad? æ! væri minn til⸗gángur ecki þeſſi, þá kjæmi hann ecki ſam⸗an vid Jeſú Kriſts tilgáng, og hvørnig kynni eg þá ad vera verdugur bordgéſtur vid þeſſa heiløgu máltíd?

Nei, minn Forlíkunar⸗madur! þú ert fyrir mig dáinn, og þú ſkipadir mér ad halda þeſſa máltíd heilaga í minníngu þíns

 dauda.

dauda. Þessi tilgángur skal sífeldt vaka, lifandi skal h.nn vaka mér fyrir hugsjónunr; enginn annar óverdugur og óhreinn tilgángur skal vanvirda þessa mína heilögu athöfn. Þínar harmqvæla-fullu píslir, þín sálar-ángist, þinn daudi, mínar syndir, fyrir hverjar þú deydir, þeirra vidbjódslegleiki og straffsverdugleiki, þín elska, ad þú vildir deyja fyrir þær, og leggja þitt líf í solurnar til ad fá gèfid mèr lífid; þessar hugleidíngar einúngis skulu vera idja og sunn minnar gjörvallrar sálar, med þeim vil eg mæta fyrir þínu altari, med þeim vil eg fylla alla mína þánka þar; þar vil eg andvarpa med Davíd: Drottinn! vertú mèr nádugur eptir þinni miskunsemi, og afmá allar mínar syndir eptir þinni mikilli miskun! Ps. 51. Med þessu andvarpi vil eg snúa mèr til þinnar nádar, og þángad sækja huggun sálu minni, þegar lögmálid lýsir bölvun yfir mèr, og mín egin samvitska fordæmir mig. Þegar minn tilgángur, fyrir hvörn eg geng til Jesú máltídar, er þessi, hvörsu sáluhjálplegt mun þá þetta heilaga verk verda fyrir mína sálu; eg gèt þá gengid frá því med þeirri gledilegu og fridandi

sannsæríngu, ad eg hafi fundid nádugann födur, hjá hvørjum ad er mikil fyrirgéfníng; þá mun Drottins fyrirheit aptur reisa mig á fætur: eg vil ecki syndarans dauda, heldur ad hann snúi sér og lifi, Ezech. 33. Hvørsu sæll er eg, þegar eg gét eignad mér þetta fyrirheit, en ef eg á ad géta eignad mér þad med fullkominni vissu, þá hlýt eg einkum ad spyrja sjálfann mig ad:

Hvørnig gengur þú til Guds bords? já, eg hef lagt alúd á útvortis undirbúníng; *) eg hefi nockra stund þrifid mig lausann fra heimsins ys og glaumi, eg hefi varid nockrum stundum til ad syngja og bidja og til andlegra hugleidínga; en fylgir þad þá uppá víst af þessu, ad eg gángi, med því hugar-fari til Guds bords, sem Drottinn heimtar

 af

*) Med þessum útvortis undirbúníngi telja sumir Føstuna; en þann sid, hefir hvørki Kristur ne hans Postular skipad oss. Jesú lærisveinar høfdu jafnvel haldid heila máltíd ádur enn Kristur meddeildi þeim þeirri heiløgu qvøldmáltíd. Látum oss þá einkis meta þetta fráhald frá mat og dryck, og enn sídur hafa illa þánka um þá, sem þessa sidvenju einkis meta!

af sinum verdugum bordgéstum? mun ecki sá vanhelgi syndari géta lika gjort allt þetta med? hvörsu margir kristnir menn eru ecki til, sem, jafnvel þó þeir brúki þenna útvortis undirbúning, eru varla komnir frá Drottins bordhaldi, fyrr enn þeir eru hinir somu vanhelgu kristnu, sem þeir hafa ætíd verid; hjörtu þeirra eru hin somu, þeirra þenkingar-háttur hinn sami, þeirra athafnir hinar somu. Og verkun þessarar heilogu athafnar ætti þó ad vera sú, ad lagfæra hjartad. Hvörja álykun á eg þá med rèttu ad gjöra þar af? ómótmælanlega þessa, ad þvílíkir hafi verid óverdugir géstir vid Drottins bord, og ad sá útvortis undirbúníngur einúngis gjöri þess vegna enganu ad verdugum bordgésti vid þessa heilogu máltíd.

Hvörsu nærsta lítid má eg þá reida mig uppá minn útvortis undirbúníng? mínir saungvar, mínar bænir, mínar andlegu hugleidíngar eru mér þá engin viss rökfemd fyrir því, ad eg komi til Guds bords med því hugar-fari, sem Jesús Kristur heimtar af sinum verdugum bordgéstum. Nei, eg hlyt ad þreyngja mér inn í innstu fylsni sálar minnar, til ad sá svarad

ad uppá þessa spurníngu: hvørnig geng-
ur þú til Guds bords? eg veit hvad
Jesús Kristur heimtar af mér: hann vill
ad eg skuli elska sig, sem minn ædsta vel-
gjørara; hann vill ad eg skuli sýna mína
elsku til sín med hlýdni vid hann. Drott-
inn heimtar ecki af mer fullkominn hrein-
leika, ecki neinn oldúngis óflecka dann hei-
lagleika og sakleysi; hvornig mætti eg þá,
hvornig mætti þá nockurr daudlegur-mæta
fyrir Drottins altari? hvorr er sá krist-
inn madur, sem ecki daglega finni orsok
til ad segja med Páli: það góda, sem eg
vil, það gjøri eg ecki, og það vonda,
sem eg vil ecki, það gjøri eg, Róm. 7.
Hvorr er sá, sem ecki hafi orsok til ad
segja med David: Drottinn! gack ecki
í dóm vid þræl þinn, því fyrir þér er
enginn madur réttlátur! Psalm. 143.
Nei, Drottinn heimtar ecki fullkomleg-
leika af sínum veiku og ófullkomnu skepn-
um; því hann þeckir þá elsku og það
dupt, af hvorju vér tilbúnir erum; en
hann heimtar þá tignustu af øllum tilfinn-
íngum míns hjarta, elskuna heimtar hann.
Finn eg þá líka til þessarar elsku til
Guds, sem sendi Jesúm Krist, og til

 Jes-

Jesú Krists, sem lét sig senda mér til frelsis? já! margir, óteljanlega margir eru míns Guds velgjörníngar vid mig; sérhvör velgjörd er roksemd um míns Guds elsku, og krefur af mér heitustu tilfinnínga elsku til hans aptur á mót. Hvört heldur eg virdi Gud fyrir mér í náttúrunnar, edur eg virdi hann fyrir mér í nádarinnar ríki, svo finn eg hvörvetna einn elskuríkann Gud. Út af sérhvörju heilegu afgrunni heyri eg þessa raust: Gud er kjærleikurinn, 1 Jóh. 4. Þetta einúngis, ad eg er til, er þad ecki verkun míns Guds elsku? ad eg er til allt fram á þenna dag, medal svo margra háskasemda, sem í nánd hafa umkríngt mig, og álengdar óttad mér, er þad ecki verkan míns Gud elsku? ad svo margar saklausar unadsemdir eru í lífinu tilreiddar mér til handa, ad eg hef krapta til ad njóta þeirra, er þad ecki verkan míns Guds elsku? ad hans auga hefir vakad yfir mér, hans armleggur verndad mig, hans hönd vísad mér veg, og hans nád hvílt yfir mér, er þad ecki verkan míns Guds elsku? ad eg er kalladur til hins sæla ódaudlegleika, ad eg á sídarmeir í vonum eilífa fagn-

fagnadi, svo sem umbun fyrir mitt sárra augna-blika erfidi í þjónustu míns Guds, er þad ecki verkan míns Guds elsku? hvörsu djúpt nidurlækkadi eg mig, hvad óvirduglega níddi eg sjálfann mig, ef eg gæti ecki elskad þá eilífuverdustu veru! hvílik smán, og hvílikt óþacklæti! ad elska ecki Gud, til hvörs elsku eg má finna á degi hvörjum, já á hvörju augna-bliki; því jafnvel sérhvört mitt andar-tak er líka sem qvísl, er útflóar af því grunnlausa hafi míns Guds elsku til mín.

En, ef eg virdi fyrir mér Guds míns elsku í nádarinnar ríki, hans elsku í Jesú Kristi; ef eg fer ad virda fyrir mér þad mikla medal, fyrir hvört hann opnadi mér himininn, sem mínar syndir höfdu aptur lukt: o! strax sem eg kém fram á barminn á þessu afgrunni, þá missi eg sjálfs míns í heilagri tilbeidslu og verd rétt frá mér numinn. Svo elskadi Gud heiminn, ad hann gaf út sinn eingét-inn son, uppá þad, ad sérhvör sá, sem á hann trúir, ecki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf, Jóh. 3. Gud elsk-adi heiminn, hann elskadi líka mig í heim-inum; Jesús Kristur var líka útgéfinn

fyrir mig; eg skyldi ecki heldur fyrirfarast, heldur hafa eilíst líf; eg var líka innilukur í míns Guds nádar-rádstofun, Þegar Þar var rádgast um Þad mikla Þreksvirki: gjörvalls heimsins frelsi. Hvörsu mikid ætti eg ecki ad elska Þennann Gud, sem útgaf Jesúm Krist líka einnig fyrir mitt frelsi; og hvörsu mikid ætti eg ad elska Jesúm Krist, sem fyrir mína skuld lét gésa sig út í Þær háduglegustu píslir, í Þann ógnarlegasta dauda, sem lítillæckadi sjálfann sig til Þess ad eg mætti upphafinn verda, bardist, svo eg mætti hrósa sigrinum, dó, svo eg mætti lifa.

Reki eg med Þaunkunum feril míns forlíkunar manns frá Gethsemane til Golgatha; ef eg horsi á hann í Gethsemane, hvar hann hádi Þad fyrsta blóduga stríd, vegna mannanna synda; ef eg heyri hann hér nidurbeygdann undir byrdi miña synda, undir daudans ógnunum ad andvarpa: minn Fadir! ef møgulegt er, Þá lát Þenna bikar frá mér vikja, Þó ecki sem eg vil, heldur sem Þú vilt. Horfi eg á hañ nidurbeygann undir sínum krossi, sem hann bar svo Þolinmódlega, af Því hann bar hann fyrir mig; horfi eg á hann á krossinum,

hvar

hvar hann hêck svo gêdvær og stilltur, hædd-
ur af jordunni en yfirgêfinn af himninum;
Þegar eg heyri hann hêr, á því seinasta lif-
sins augnabliki, yfirgêfinn af sínum fodur,
og þad þá, þegar hans sálu lá hvad allra
mest á huggun frá hans fodur. Þegar eg
heyri hann hêr ad andvarpa: Gud minn!
Gud minn! því hefir þú yfirgêfid mig?
o! skyldi eg þá ecki elska hann, sem mig hef-
ir svo heitt elskad, mig, sem engrar elsku er
af honum verdur; skyldi eg ecki elska hann,
sem af elsku til mín hefir útdruckid þenna ka-
leik, og borid þenna kross, sem af elsku til
mín vard fyrir hádi sinna óvina, og var
yfirgêfinn af sínum fodur. Já, mín vegna
hefir hann lidid allt þetta; eg finn til, rêtt
lifandi finn eg sjálfur til allra þeirra sálu-
hjálplegu nota og gæda, sem hann med þess-
ari sinni harmqvælasyllstu pínu hefir afrek-
ad mêr. Hvad væri minn daudi, ef Jes-
ús Kristur hefdi ecki dáid fyrir mig? já, ad
vísu væri hann mêr inngángur til ódaudleg-
leikans; en þvílíks ódaudlegleika, sem er
ógurlegri og skêlfilegri enn daudinn. Inn-
gángur til takmarkalausra eymda; og nú
er hann fyrir mig inngángur til óútsegjan-
legra hagsælda. Eg gêt nú fríhuga hugsad

 til

til minna æfiloka, því Jesús Kristur gèck
gègnum daudann inní þad allra helgasta,
og fann eilífa endurlausn mèr til handa.
Fullhuga og vongódur gèt eg nú stigid þad
mikla fótmál, sem adgreinir tímann og ei-
lífdina, og á grafar-backanum jafnvel hrós-
ad sigri med Páli: daudi! hvar er þinn
broddur? gröf! hvar er þinn sigur?
vegsamadur veri Gud, sem gèfur mèr
sigurinn, fyrir Drottinn Jesúm Krist,
Æ! þessi miklu heilla-kjör, þessi ómetan-
legu not, sem eg uppskèr af þínu míns for-
likunar manns, sú huggan, sú hugarhreysti,
sem eg fyrir hans dauda finn til á móti
daudans ótta og eilífdarinnar ógnunum,
skyldi hún ecki fá eldúngis uppfyllt mitt
hjarta med blossa hinnar heitustu elsku til
hans, sem fyrir mig dó?

Finn eg þá líka til þessarar elsku? elska
eg líka þenna mannanna ástvin, sem hefir
elskad mig allt til daudans á krossinum? o!
mín sál! svík ecki sjálfa þig þar, sem þetta
spursmál er ødrumegin! til holdlegrar elsku,
vidlíka og þeirrar, sem eg finn mig hafa á
einum jardneskum vin, hvors hjarta eg gèt
þrýst med heitum fadmlögum ad mínu
hjarta; til þvílíkrar holdlegrar elsku gèt eg
ecki

ecki fundid á Jesú Kristi, þar eg sje hann ecki; þvílíka eilsku heimtar hann ecki af mér; en hann heimtar verkun þessarar elsku, hann heimtar af mér hlýdni, glada, fúsa, undanfærslulausa og stadfasta hlýdni.

Er þetta þá líka minn ásetníngur, minn heilagasti og órjúfanlegasti ásetníngur, ad gjörast med þvílíkri hlýdni míns Guds og Jesú Krists lögum undirorpinn, af því sá Kristur, sem af elsku til mín dó mín vegna hefir fyrirskrifad mér þessi lög? Þar af þecki eg ad eg elska hann, ad eg held hans bodord. Já, í mörgum greinum hefi eg haldid og hef í áformi hér eptir ad halda míns Guds og Jesú Krists lög. En kannské eg haldi þad eina af þeim, sem mig mundi kosta meira ómak ad brjóta enn ad halda? máské, eg haldi þad eina af þeim, sem mér mætir engin freistíng til ad yfirtroda? máské, eg haldi þad eina af þeim, sem mitt lunderni og náttúrlegar tilhneigíngar þrýsta mér til ad halda? æ! hvörsu audveldt væri þad þá ad vera hlýdinn, og hvörsu lítt er þvílík hlýdni til þess fallin, ad vera reksemd og vottur minnar elsku? nei, þar sem eg hef ad berjast vid freistíngar til óhlýdni, þar er þad einúngis ad eg gét sýnt

 mína

mína hlýdni, þar orkar á þad einúngis, sem lögmál minnar vanartar og spillingar ris á móti Jesú Krists lögum. Þecki eg líka þá vanart, sem býr í minni sálu? hverjir eru mínir brestir, mínar tilhnegingar, mínar girndir, mínar syndsamlegar gedshræringar? er þad sérplægni og sjálfs-elska, edur ótukt, edur drambsemi og girnd hégóma dýrdar, edur ágirni og nídska, edur ósund, edur ósáttgirni, edur hatur, reidi, heiptrækni, edur kýsni, edur lastgirni, edur flárædi, edur lýgigirni, edur rángsleitni, edur hardhýdgi? er eg þræll skilníngar-vitanna og þeirra gjálífs eptirlætis? edur er eg þræll metordanna og þeirra svikfamlega glampa, edur jardarinnar og hennar forgengilegu eigna og fjársjóda? og þó eg sé ecki ánaudugur þræll neins af öllu þessu, elska eg þad þó ecki meira enn eg ætti ad elska þad? má þess elska sér þó ecki meira hjá mér, ne hefir yfirhöndina yfir Guds elsku?*) ó! mín sál

*) Þegar madur lés þetta registur yfir þá mannlegu spillíngu, þá er naudsynlegt, ad madur vid hvörja synd staldri lítid vid, og renni fylgislausu og athugasömu auga inní sitt hjarta, til ad ransaka, hvört sú eda sú synd

sál! nem staðar eitt augnablik við þessi mikilvægu spursmál; renn ransakandi auga til baka heim til þín sjálfrar, ransaka þig með athygli, ransaka þig fylgislaust, lát þína sjálfs-elsku ecki blinda þig. Finn eg eina eður fleiri af þessum syndsamlegu girndum í mínu hjarta, og skyldi eg ecki finna þær? eg er þó ecki hreinni, heilagri, fullkomnari enn aðrir menn. Sjálfur Páll mátti jafnvel játa um sig: í mér, það er, í mínu holdi, býr eckert gott, Róm. 7. Postulinn Jacob mátti jafnvel meðkénna: allir vér brjótum margfaldlega, Jac. 3. O! hafi þessir miklu menn, sem svo óþreytanlega stríddu á móti sinni spillíngu; hafi þeir enn þá fundið til þeirrar vanartar, sem í þeim bjó, skyldi eg þá ecki finna til hennar? og ef eg finn til hennar, skyldi eg þá ecki fá hana þeckta? og ef eg þecki hana, hvílíka lyst hefi eg þá til að stríða á móti henni? hef eg þá líka að þessu sinni, uppvhattur af Guðs og Jesú Krists elsku, tekið

E 7 fyrir

synd drottni þarinni. Það væri líka gott, ef sérhvörr kristinn maður skrifaði upp sinn hellsta löst, til þess hann gæti ætíð haft hann fyrir augum sér. Oss gleymist svo fljótt hvörnig vjer lítum út.

fyrir mig þann ſtadfaſtann, þann heilag- ann áſetning, ad ſtrída vid ſjálfann mig til þeſs, ad eg fái þó um ſídir yfirunnid ſjálf- ann mig? er þetta þad hreinſkilid heityrdi, ſem eg vil vinna Drottni frammi fyrir hans altari?

Æ! eg gét ecki lofad Drottni þvi, ad eg ſkuli vera oldúngis hreinn, oldúngis heilagur, oldúngis fullkominn. Svo lengi, ſem eg ber á mér þetta ſynduga dupt, hlýt eg líka ad finna til duptſins fleckunar, ſem lodir vid mig. En, gét eg þá ad eins framborid fyrir Gud eitt oldúngis fullkom- lega einlægt og hreinſkilid hjarta? er þad minn heilagaſti áſetníngur hédan í frá ad ſtrída móti þeim girndum, ſem mér eru kjæraſtar, ad ſetja takmork mínum gjá- lífu, mínum óſtyrilátu lyſtíngum, ad drottna yfir mínum ákéſdar-fullu géds- hræríngum, ad vaka yfir mínum ordum og þaunkum; ad afleggja mína vonda vana, ad afmá úr minni ſálu eina fleckun eptir adra, ad fylgja Jeſú Kriſti á hlýdn- innar og þolinmædinnar vedhlaupi; ad laga æ meir og meir mitt hjarta í ollum hlutum eptir hans hjarta, ad elſka minn Gud af mínu gjorvollu hjarta, ſálu og

hug-

hugskoti og öllum kroptum, ad elska minn náúnga eins og mig sjálfann, og ad standa stödugur allt til enda í þessu stríði og baráttu vid heiminn og sjálfann mig, og letjast aldrei. Sè þetta þad heilagt og óraskanlegt áform, sem Guds og Jesú Krists elska til mín, og mín elska til Guds og Jesú Krists, hefir uppvakid í minni sálu, já, þá veit eg med vissu, ad mín sála er prýdd þeirri elsku og hlýdni, sem Jesús krefst af sínum verdugum bords-gestum; meira krefur hann ecki af mèr, svo lengi sem eg er á vegferdinni hèr nidri í þessum veikleika, og hef ecki enn þá nád mínu sanna födurlandi, hvar sullkomleg-leikinn býr. Æ! Drottinn! þessu hrein-skilna hjarta offra eg þèr þá, sem fórn uppá þitt altari. Styrk þú sjálfur med þínum krapti minn heilaga ásetníng, svo mèr falli hann aldrei úr minni, heldur ad eg megi hèr eptir berjast gódri baráttu, full-komna mitt vedhlaup, vardveita mína trú, og fái svo vid enda míns vedhlaups höndlad þad hnoss, sem þú hefir afsídis lagt þínum strídandi kristnum til handa!

VII.

## VII. Kapituli.

### Hugleidíngar eptir brúkun Qvøldmáltídarinnar.

Nú hefi eg aflokid þeirri sáluhjálpleguſtu, þeirri mikilvæguſtu athofn í mínum gjørvøllum kriſtinndómi. Sáluhjálpleg er hún, ſokum allra hennar verkana, ſem minnni ſálu eru ſvo huggunar-ríkar; mikilvæg er hún, ſokum þeirra heilogu lofsorda, ſem eg hefi gjørt mínum Gudi.

O! Drottinn! ſvo ſatt ſem þad er, ad eg hefi mætt fyrir þínu hábordi med því hjarta, ſem, jafnvel þó þad vegna ſinnar medfæddu vanartar ſé ſaurugt og ófullkomid, þó einlæglega elſkar þig, og af elſku til þín er fúſt til ad ofurgéfa þér ſína gjørvalla hlýdni, ſvo ſatt er þad líka, ad þeſſi heilaga endurminníngar máltíd þíns forlíkandi dauda, er mér einn óbrygdanlegur pantur uppá þad, ad mínar ſyndir eru fyrirgéfnar, og ad mínar misgjørdir eru huldar, og eg þori nú med fullri djørfúng ad heimfæra uppá mig Davíds ord; ſæll er ſá, hvørjum yfirtrodſlurnar eru fyrirgéfnar, hvørs ſyndir ad eru huldar;

ſæll

sæll er sá madur, hvørjum Drottinn til-reiknar ecki syndina, Ps. 32.

O! hvørsu stór er nú mín farsæld! mínar syndir gjørdu adskilnad milli míns Guds og mín; en þær eru nú fyrirgéfnar, þær eru afmádar; eg er nú apturkominn í samqvæmi vid þig, minn Gud! þú, sem ert sá ædsti gódi, og fadir allrar minnar farsældar; vid þig, í hvørs sameiningu allir sáluhólpnir á himnum smacka himneskar unadsemdir, þú hefir sjálf-ur reist bygd þína og þitt musteri í mínu hjarta. Til hvílíks fridar finn eg nú ecki í minni sálu, til hvílíkrar rósemi í minni sam-vitsku; því eg veit: ad þar er engin for-dæming fyrir þá, sem eru í Jesú Kristi, Róm 8. Nú þori eg fullhuga ad taka undir med Páli: hvørr vill áklaga Guds útvalda? Gud er sá, sem réttlætir; hvørr er sá, sem fordæmir? Kristur er sá, sem dáinn er, já, miklu framar sá, sem upp aptur er vakinn, hvørr ed situr til fødursins hægri handar og bidur fyr-ir oss. Løgmálid lýsir nú ecki bølvun yfir mér; Sinaí þrumar ecki; þess eld-slog skélfa mig ecki, því eg veit ad mínar yfir-trodslur eru fyrirgéfnar, og mínar syndir huld-

huldar. Eg veit, ad eg, sem nú er réttlættur fyrir trúna, hefi frid vid Gud, fyrir vorn Drottin Jesúm Krist, Róm. 5.

Æ! Gud gæfi! ad eg aldrei framar, ad minnsta kosti aldrei med ásetnings syndum, raskadi þessum sáluhjálplega fridi! Þad er nóg, ad eg hlyt allt af ad andvarpa undan tilfinningu minna óteljandi bresta og breysfleika; mannanna fadir gefur mér upp þessa bresti, því hann þeckir þad dupt, af hvörju eg er tilbúinn, og þær oblugu freistingar, sem umkríngja mig. En mínar ásetnings syndir mundu á ny gjöra adskilnad millum Guds og mín; þær mundu aptur ofþyngja mér med nyjum reikningskap fyrir hástóli míns Guds, þær mundu raska á ny rósemi míns hjarta, mínum fridi vid Gud og vid mig sjálfann, svipta mig aptur míns Guds nád, hvörrar tilfinning minni sálu er nú svo holl og svo sælusull.

Hvörsu farsæll er eg, ad eg veit nú, ad eg hef aptur fundid nád hjá mínum Gudi! eg andvarpadi til þín: Drottinn! vertú mér nádugur eptir miskunsemi þinni, og afmá mínar syndir eptir þinni mikilli miskun! Ps. 51. Þú bænheyrdir mig, og létst mig heyra frá þínu altari þá gledi-

gledilegu, þá fridandi fullvissu, ad þú vild-ir vera mér nádugur og afmá allar mínar syndir. Æ! hvørsu rótt getur mér nú verid, midt í øllum þessa lífs ymislegu bilt-ingum, þegar eg veit, ad þú ert mér nád-ugur; eg veit þá, ad þær þjáníngar, sem mér ad høndum bera, eru engir hefnda-dómar frá styggdum og reidum Gudi, held-ur elskurikar typtanir frá nærgætnum fød-ur; elsku-taugar, sem skulu draga hjarta mitt frá jørdunni til himinsins, og snúa mínum þaúnkum til hins betra heims, sem eg á í vonum; heilagur eldur, sem á ad fága mitt hjarta, hreinsa mína sálu af því jardneska, og upptendra reykelsis offur minna bæna, svo ad þær verdi þér því þægilegri ilmur.

Já! jafnvel þegar daudinn nálgast, og eilífdin opnar sig, get eg verid rósam-ur; því eg veit ad þú ert mér nádugur, og hefir afmád allar mínar syndir. Med hraustum huga get eg hugsad til hins dóms og minna sídustu æfiloka, med føgnudi get eg horft á móti degi minnar endurlausn-ar, fullhuga í voninni snúid mínum þaunk-um frá því forgengilega til þe's óforgengi-lega, og á barmi eilífdarinnar hrósad sigri med

med Páli: daudi! hvar er þinn brodd-
ur! grøf! hvar er þinn sigur! lofad-
ur sé Gud, sem mér hefir sigurinn gef-
id fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist,
1 Cor. 15.

Hvorsu sáluhjálpleg hefir þá þessi at-
höfn verid mér til handa! undir eins og
hún hefir gjört mig vissann um míns
Guds nád og synda minna fyrirgéfníngu,
hef eg fengid frid í mína samvitsku, hugg-
un í mínum hørmúngum, og orugga hug-
ar-hreysti vid umþenkíngu míns seinasta
vidskilnadar vid heiminn. En ef eg á ecki
ad missa aptur þenna frid, þessa huggun
og þessa hugar-hreysti, sem ablar mínu
hjarta svo mikillar sælu, þá hlyt eg líka
alvorugéfinn og hreinskilinn ad halda þau
heilogu og hátidlegu heit, sem eg gjordi
Drottni frammi fyrir hans altari. Æ!
ef eg bryt, ef eg bryt af ásetníngi øll þessi
heit, já, þó þad sé ecki nema eitt einasta
af þeim heitum, sem eg vann mínum Gudi,
svo brytur minn Gud líka þau sáluhjálp-
legu loford, sem hann gaf mér; minn
Gud er mér þá ecki lengur nádugur fadir,
heldur strángur dómari; mínar syndir,
sem vóru afmádar, verda mér þá aptur
til-

tilreiknadar; mín sálar rósemi er þá rosk=
ud; fridur-minnar samvitsku horfinn; sú
hugarhreysti, med hvørri eg skyldi gánga
á móti þessa lífs rauna=hogum og daud=
anum og dóminum og eilífdinni, hún er
þá í burtu; burtu míns Guds nád og
hylli; burtu von þess eilífa lífsins; og
hvørju audgjørt er þad ecki fyrir mig, ad
rjúfa þessi heit, fyrir mig, sem í minni
gjørvallri náttúru er svo veikur og svo
breyskur; fyrir mig, sem finn til svo margra
óblugra freistínga bædi hid innra hjá sjálf=
um mér, og hid ytra í kríngum mig; fyr=
ir mig, sem kannské vildi heldur falla enn
standa uppi, ef eg ætti sjálfur ad ráda.
Æ! hægt er ad missa fótanna á þessa lífs
hála vedhlaupi, en þad er nærsta torveldt,
ad reisa sig vid aptur af sínu falli. Eg
vil þess vegna upp frá þessu vaka,
strída, bidja.

Eg hef svo opt ad undanfornu unnid
Drottni somu heit frammi fyrir hans alt=
ari, og æ! því midur! ad eg hefi ecki
nógu trúlega haldid þau; smámsaman
gleymdi eg, ad eg hafdi unnid þau; hvad
af hvørju féll eg aptur á ný í somu yfirsjónir
og bresti, máské jafnvel í somu lesti og stór=
glæpi,

glæpi, sem eg hafdi afsvarid frammi fyrir míns Guds altari; hvad af hvörju vard eg hinn sami, sem eg hafdi verid. O! minn Gud! skyldi eg nú enn þá verda hinn sami! mætti þín miskun þá ecki loksins þreytast, og þín miskunsemi umbreytast í reidi! nei, Drottinn! eg vil, æ! eg vil, styrk þú ad eins minn veika vilja; eg vil hér eptir med alúd og vareygd vaka yfir sjálfum mér, yfir mínum hugsunum, mínum ordum, mínum athöfnum. Eg vil vaka yfir sérhvörju tækifæri til syndarinnar, til þess ad eg géti í tíma umflúid þad; eg vil vaka yfir þeim fyrstu hræríngum minna girnda og gedshræringa, svo ad eg fái í tíma nidurdempad og tamid þær; og ef mig á freistíngar tímanum skyldi sækja svefn, æ! ad þú vildir þá sem fljótast vekja mig upp, svo ad eg ecki annadhvort í mínum syndum oldúngis út af sofni, edur vakni einúngis til ad sjá mína vanvirdu, og vera vottur ad sigurhrósi minna andlegu óvina. O! mín sála er umseтinn stadur; freistíngar heimsins og freistíngar míns egin hjarta eru þeir óvinir, sem allareida umkríngja mig, og sæta hvörju fyrsta færi ad yfirfalla mig; skyldi eg þá sofa, medan mínir óvinir vaka? hvad! en ef

ef þeir kynnu ad yfirfalla mig óvörum í þess-
um svefnværdum; eins augnabliks svefn
gæti ordid mèr ad gjörvallrar eilífdarinnar
tjóni; máske eg kynni á því eina augnabliki
ad sofa af mèr allrar eilífdar sælu. O!
mín sál! lát því Jesú áminníngu vera þèr
æ hugfasta og mikilvæga: vakid og bidjid
svo þèr fallid ecki í freistni, Matth. 26.

En eg vil ecki einúngis vaka yfir sjálf-
um mèr, svo eg kunni þess karlmannleg-
ar ad berjast vid sjálfann mig, og fá var-
ist mót freistingum heimsins og míns egin
hjarta. Hvad stodadi þad mig, ad eg
med opnum augum sæi fyrir freistínguna,
sem yfirfelli mig, og háskann, sem hún
mundi steypa mèr í, þegar eg brúkadi
enga krapta til ad mótstanda freistíngunni
og frelsa mig úr háskanum? mitt fall mundi
þar fyrir verda einúngis þess stærra straffs
verdugt. Nei, eg vann Drottni þad heit
frami fyrir Jesú Krists altari, ad eg skyldi
niðurdempa mínar vondar girndir, vinna sig-
ur á mínum tilhneigíngum, setja takmörk
mínum ákefdar-fullum gedshræríngum,
setja mínar hugrenníngar í heilaga röd og
reglu, leggja taum vid mína túngu, láta
skynsemina drottna yfir skilníngar-vitun-
um

um og þeirra töfrandi glíngri og sjönhverf-íngum, elska dygdina, hata ódygdina, elska Gud yfir alla hluti fram, og minn náúnga sem sjálfann mig; trúa á Jesúm Krist, en med þeirri trú, sem kroptug sé fyrir kjærleikann, og ávaxtarsöm af góð-um verkum. Þetta heit hlýtur ad vera mér heilagt og órjúfanlegt; vei mér! ef eg skyldi vísvitandi rjúfa þad; en ad halda þad, hvorsu mikla baráttu, hvorsu hardt stríd útkrefur þad ecki; midt í svo morg-um og svo oblugum freistíngum, sem alla vegu umsitja og umkríngja mína sálu. Heimurinn gjörvallur og allt þad, sem í heiminum er, gétur ordid mér ad freistíngu; metordin leida oss afvega til drambsemi; audæfin til óhófs edur ágirndar; heil-brygdin til syndsamlegs gjálífis; Guds velgjordir, svæfa oss, og hans typtanir leida oss afvega til óþolinmædi; sá ríki hefir sínar freistíngar, og sá fátæki sínar; sá, sem í virdíngum situr, hefir ad sjá vid því, sem hann vill svíkja, og sá forsmádi aptur vid þeim vélum, sem hann vilja fella. Æ! eg finn ad vísu líka til nock-urra af þessum freistíngum; þær hafa ad vísu optar enn einusinni rádist á mína sálu

og

og optar enn einusinni náð að vega sigur yfir mér. Og þó er skæðasti óvinurinn enn þá ótalinn, mitt egið hjarta. Þetta hjarta er minn svikari. Allir útvortis óvinir minnar sálar rósemi og minnar farsældar mundu ecki óvörum yfirfalla mig, ecki fella mig, ef mitt egið hjarta væri mér trútt. En, æ! sá hættulegasti óvinurinn býr í mér sjálfum. Svo mörg skilníngar-vit, svo margar girndir, svo margar geðshræríngar, sem eg hef, svo margar freistíngar ráðast á mína sálu, og þessar eru því háskasamlegri fyrir mig, sem þær eru mér nærstar, þó eg gæti jafnvel forðast heiminn; svo gét eg þó ecki forðast sjálfann mig; þessar freistíngar eru fæddar með mér; þær eru, innlífaðar mínu höfði og renna í mínum æðum; þær láta sálu mína aldrei hafa ró, eður þær láta mig að eins njóta skammvinnra náða, til þess þær fái því heldur komið flatt uppá mig og yfirfallið mig óvörum.

O! hvornig skyldi eg, sem er umkríngdur af svo mörgum og svo öflugum freistíngum, sem óaflátanlega leitast við að steypa mér, og svipta mig mínu hnossi; hvornig skyldi eg fá staðið stöðugur í mín-

 um

um heityrdum, stödugur í því góda, sem eg hef byrjad, og í mínu heilögu áformi, ef eg vildi ecki óaflátanlega berjast og strída vid sjálfann mig? á því fyrsta augnabliki, sem eg nem stadar á mínu vedhlaupi, læt mínar hendur síga í bardaganum, og sleppi úr hendi edur missi minna andlegu vopna, svo er eg yfirunninn, og ordinn mínum sálar óvinum ad herfángi. Þad skal þess vegna vera hér eptir mín alvarlegasta vidleitni, ad berjast og strída móti mínum kjærustu lystíngum, ad vinna sigur á sjálfum mér, og verda loksins herra míns egin hjarta. Þó þessi bardagi sé torsóktur, hvorsu yndæll er þó ecki sigurinn; þó þetta stríd sé mædusamt, hvörsu vegsamlegt er þó ecki þad hnoss, sem Drottinn hefir þar á sídan afsídis lagt handa sínum strídandi kristnum, og eg mun þá á sídan af míns Guds nád verda hluttakandi í þessu hnossi.

En eg veit, þad mín egin árvekni er ecki einhlýt til ad fá varist þessum lífsins freistíngum; mitt egid stríd og barátta er ecki einhlýtt til ad fá vegid sigur yfir sjálfum mér og yfir heiminum; mínir fjandmenn eru allt of oblugir, mínir kraptar allt

allt of veikir; freistingar heimsins og freistingar míns egin hjarta mundu sannarlega leggja mig ad velli, ef ædri kraptur styddi mig ecki á lífsins hála vedhlaupi. Ef ad sá Andi, sem í mér verkar, væri ecki máttugur í mínum breyskleika; Gud er sá, sem hlýtur bædi ad byrja og fullkomna þad góda í mér, Phil. 1. En ef eg vil odlast, þenna krapt, þenna medverkandi anda, þenna obluga styrk og stod, þá hlýt eg ad bidja um þad. O! ef eg svo litils metti þessa nád, ad eg vildi ecki ad minnsta kosti bidja um hana, hvornig gæti eg þá vænt þess, ad Drottinn vildi géfa mér hana? og ef hann þá gæfi mér hana ecki, hvad væri þá ad furda, þó eg félli sannarlega til baka aptur, bryti mín hátidleguslu heit, og yrdi þannig af ásettu rádi meinsvari fyrir Drottni mínum Gudi?

Eg vil þess vegna med heilögum, heitum, andaktugum bænum útbúa mig móti svikrædum og ginningum heimsins og míns egin hjarta. Mínar bænir skulu uppstiga til míns Guds, þá mun hans nád, hans kraptur og styrkleiki aptur til mín ofanstiga, þessar skulu vera mínar

daglegar ydkanir, mínar hollustu og sálu-hjálpleguſtu ydnir. Og þú! Drottinn! bænheyr þú mig, þegar eg ákalla þig; þegar mér kynni verda á ad detta, æ! þá virdſtú ad vekja mig, ſvo ad eg ecki ſofi þegar eg ætti ad vaka, og vakni þá fyrſt í eilífdinni, hvar eg mætti þá óſka ad eg gæti eiliflega ſofid. Þegar mínar hendur ſíga í ſtrídinu, þá virdſtú ad upperva mig og ſtrída ſjálfur voldugloga med mér, ſvo ad eg ecki verdi mínum andlegu óvinum ad herfángi, og miſſi af því hnoſſi, ſem þú hefir í þinni ſælu geymt mér til handa. Þegar eg bid, þá virdſtú ad útbúa mig med bænarinnar anda, ſvo ad eg fram-beri fyrir þig velþócknanlegt offur, og láttú þá ecki mínar andvarpanir koma óbæn-heyrdar aptur. O! Drottinn! Drott-inn! kannſké, þetta ſé í ſeinaſta ſinni, ſem eg mæti fyrir þínu altari; lát mig því ald-rei gleyma, þegar freiſtíngar heimſins veita minni ſálu yfirgáng, þegar mitt egid hjarta tælir mig til ad falla frá þér aptur; lát mig þá aldrei gleyma þeim heitum, ſem eg hefi ſvarid þér, og ef eg ſkyldi á freiſtíngarinnar augnabliki gleyma þeim, þá virdſtu fyrir þinn anda, kroptuglega ad minna mig á

þau,

þau, og volduglega ad styrkja og stydja mig, svo ad eg ecki rjúfi þau! virdstú ad heyra og bænheyra þetta, minn Gud! fyrir þinnar elsku sakir! Amen.

## VIII. Kapituli.

### Hugleiding þess, sem í fyrsta sinni gengur til altaris.

Hvorsu mikil er mín hagsæld, ad eg er fæddur í kristninni, og uppalinn í hennar heilogu lærdómum! eg þecki nú Gud, sem skóp mig, hans forsjón, sem vakir yfir mér, medalid, fyrir hvort eg er fridþægdur, eilifdina, sem eg stefni til á vegferd minni, og skyldur þær, sem Drottinn á mig skilur, svo eg verdi hluttakandi í farsælli eilífd. Hvorsu miklu sælli er eg enn Heidíngjarnir, sem gánga fram í myrkrinu! svo miklu, sem ljósid er yndælla enn myrkrid, svo miklu er eg sælli enn þeir.

Þegar þjáníngarnar umkríngja mig og gjorast mér mjog nærgaungular, og háskasemdirnar ogra mér álengdar, þá veit eg, ad sú vera er til, sem ber mín kjor í hondum sér, og stjórnar þeim mér til farsældar eptir vísdóms og gædsku logum; eg finn til þeirr-

ar hjartafridandi rósemi, ad eitt hár gétur ecki fallid af mínu hofdi án míns fodurs vilja; þegar lögmálid offækir mig med sinni bölvun, og samvitskan med sinum brixlum, þá veit eg ad mínar syndir eru afmádar, og ad þar er engin fordæmíng fyrir þá, sem eru í Jesú Kristi. Þegar daudans qvídi og eilífdarinnar skélfíngar uppvakna í minni sálu, þá veit eg, ad minn daudi er inngángur til lífsins, og ad eilífdin hefir geymda óútsegjanlega fagnadi minni endurleystu sálu til handa. O! hvorsu mikil, hvorsu óútsegjanlega mikil er ecki mín hagsæld, ad eg geng fram vid þá bjortustu hádegis sólar birtu, þar sem svo margir af brædrum mínum reyka og sálma í daudans dock-nætti! med hvörju hefi eg unnid til þessarar nádar? til hvors gat eg unnid, þegar eg var enn þá ecki til? nei, minn Gud! þad var þín óverdskuldud miskun, ad eg skyldi fædast í þeim stad, hvar þú sett hefir minníngu þíns nafns, og eg er ecki einúngis fæddur á þeim stad, eg er líka fæddur af kristnum foreldrum, sem hafa látid sér vera hugad um mitt uppeldi, og kostad kapps um ad fá mig svo lagad, ad eg yrdi gódur borgari bædi í tímanum og eilífdinni. Og nú er eg loksins

fyrir þeirra kristilega alúd og umhyrdíngu, kominn svo lángt, ad eg hefi gjört opinbera játníngu þeirrar trúar, uppá hvorja eg er skírdur, og hef hátídlega itrekad og endurnýjad þau særi, sem minna vegna vóru gjörd, þegar eg var fyrir skírnina gjördur ad lim Jesú Krists safnadar. Æ! minn Gud! hvörsu miklu meira gétur þú nú heimtad af mér, og hvörsu miklu meira muntu á þeim mikla reikníngsskapar degi af mér krefjast, enn af heidíngjunum? skuli gánga hardari dómur yfir Gydíngana enn yfir Tyrus og Sidon, þá heidnu stadi, sem ecki þecktu þig; hvörsu miklu þýngra straff mun þá ecki gánga yfir mig, sem svo miklu betur þecki þig enn þeir, og geng fram í miklu bjartara ljósi enn þeir, ef eg ecki fylgi þessari miklu meiri birtu, sem þú géfur mér fram yfir þá?

Þad skal þess vegna, uppfrá þessum degi vera mitt stødugt, mitt óriúfanlegt áform, ecki einúngis ad láta ætíd dagvortum taka þad þeckíngar ljós, sem þú hefir uppqveikt í minni sálu; heldur og líka óhvikult ad feta áfram á þvi vedhlaupi, sem þú med þessu ljósi hefir vísad mér á. Hvad stodar þad mig, þó bjart sé í mín-

um skilníngi, þegar dymmt er í mínu hjarta? hvað stoðar mig þó eg búi í ljóssins endimerkum, þegar eg þó aðhefst myrkranna verk? o! þetta ljós vill þá ecki stoða til annars enn að gjöra mig enn þá fordæmanlegri!

Eg hefi að vísu allt til þessa dags framið marga barndóms bresti, margar úngdæðis yfirsjónir, já, marga bresti, sem eg hefði með mínu dauða ljósi allvel sjeð gètað, og marga, sem eg ecki þeckti, sökum þess mig vantaði upplýsíngu, en nú þecki eg þá, þó eg enn þá aðhafist þá; hvaða afbötun er þá til fyrir mig, ef eg bæti vísvitandi yfirtroðslum ofaná þessa úngdóms bresti, hvað er mèr þá til málsbóta? þá væri það betra fyrir mig, að faðir minn hefði verið tyrki og móðir mín heiðin; mín kjör mundu þá í eilífðinni verða þeim mun þolanlegri.

Það skal því uppfrá þessu vera minn heilagasti ásetníngur, að leggja af þessa mína úngdóms bresti, og að gæta mín fyrir þeim afbrotum, sem þeim eru meiri. Eg vil brúka þá fræði og þeckingu, sem eg nú hefi numið, og, sem eg hefi nú svo hátíðlega uppá svarið, eg vil brúka hana

til-

til ad herthja mig móti svikrædum og ginningum heimsins og míns hjarta; eg vil med míns Guds nád vaka yfir því fyrsta tækifæri til syndarinnar, svo ad eg fái í tíma umflúid þad, eg vil vaka yfir þeim fyrstu afvegaleidandi hræríngum míns hvikula hjarta, svo eg fái í tíma aptrad þeim og nidurkafid þær. Þad skal vera heitid, sem eg nú vinn mínum Gudi, særid, sem eg nú í fyrsta sinni sver honum frammi fyrir hans altari, og innsigla med því heilaga sacramenti. O! vei mér! ef eg ynni þetta heit gálauslega í fyrsta sinni, og gjördi eins gálauslega ad rjúfa þad aptur! máské, eg mundi þá mína gjörvöllu lífstíd framqvæma þessa heilögu athöfn med sama gáleysi, sama eptirþánkaleysi, og þessi athöfn, sem átti ad þéna mér til lífsins mundi þá snúast mér til dauda.

Nei! Drottinn minn Gud! hreinskilid hjarta framber eg fyrir þig; en veikir eru mínir kraptar og margar eru mínar freistingar; æ! virdstú því ad styrkja mína krapta, svo ad eg fái yfirunnid þær. Leid þú mig med þinni nád, á lífsins hála vedhlaupi, svo ad eg ecki hrasi, ecki falli, og þó ad eg falli, þá virdstú snarlega ad

reisa mig vid aptur. Advara þú mig, þegar freistíngarnar mæta mér, og styrk mig, ad eg þá fylgi þínum heilögu advörunum. Stríd þú med mér, svo ad eg megi allt til daudans stadfastur blífa, og eptir daudann erfi lífsins kórónu, þá mun eg á þeim mikla degi dýrdlegur gjörr, lofsýngja þínu nafni, fyrir þad þú létst mig fædast í þinni kristni, og uppfóstrast í þínum sannindum; þá munu mínir foreldrar og yfirbodarar finna í minni farsæld umbun þá, sem þeir vinna til fyrir þá alúd og umhyggju, sem þeir hafa varid, til ad uppbyrta minn skilníng, og laga mitt únga óreynda hjarta.

## IX. Kapítuli.

### Hugleidíng þess, sem lengi hefir gengid til altaris.

Ar eptir ár geng eg til altaris, í svo mörg ár hef eg nú tídkad þessa heilögu athöfn, svo opt hef eg med ödrum kristnum mönnum tekid á móti þessum panti uppá míns Guds og Jesú Krists elsku. O! hvílík nád er þad af mínum Gudi, ad hann hefir unnt mér svo mikils tíma til minn-

minnar umvendunar og betrunar! margir af mínum samkristnum, sem vóru yngri enn eg, hafa um þetta skeid kallađir verid inn í eilífdina, án þess ad þeir hafi notid svo margra, svo opt ítrekađra uppörfana til ad framgánga á því vedhlaupi, sem leidir til lífsins; þetta lífs-skeid var þeim svo stutt ætlad, en mér svo langt.

Hvad skyldi Gudi mínum gánga til þessa? já, þad getur margt verid, sem honum gengur til þess; eg þecki þad ecki allt; en þessi er þó ómótmælanlega einn tilgángurinn speki hans og gædsku, ad eg mætti hafa því meiri tíma til ad búa mig undir eilífdina. Í sérhvört sinn, sem eg geng til altaris, ætti eg ad taka nýjum framförum, nýjum dagvoxtum í dygd minni og rádvendni; í sérhvört sinn ætti eg ad verda betri, fullkomnari, roskinari og æ betur fallinn til þeirrar eilífdar, sem eg sérhvört sinn er nær kominn. Hvörsu sæll væri eg ecki ef þessi Guds míns gódi vísdómsfulli tilgángur hefdi líka uppfyllst á mér! eg er nú ad vísu kominn daudanum og eilífdinni merkilegu skrefi nær, enn þegar eg í seinásta sinni mætti frammi fyrir Drottins altari. En hvörsu mörg

 ný

nÿ fótmál hef eg þá gengid áfram á heilagleikans og dygdarinnar vedhlaupi? hvörsu miklu er eg ordinn rádvandari? hvörsu miklu fullkomnari? hvörsu margar sigurvinníngar hef eg nád ad vega yfir sjálfum mér? hvörsu ágengt er mér ordid í því ad ná yfirdrottnun yfir mínum skilníngar-vitum, mínum girndum og mínum gèdshræríngum? hvad marga bresti, hvad margann vondann vana hef eg aflagt? í einu ordi: hvörsu miklu er eg betri nú enn þegar eg í fyrsta sinn mætti frammi fyrir Drottins altari? er eg betri, edur er eg kannské verri? eg gét þó ecki ad öllu leiti verid hinn sami. Mér hlýtur annadhvört ad hafa farid fram edur aptur sídan. O! vei mér! ef mín samvitska fordæmir mig, þegar uppá þessi spursmál á ad svara, sælli væri eg þá, ef þad hefdi ordid í seinasta sinni, þegar eg í fyrsta sinni kom ad Drottins bordhaldi. Hvörsu miklu betri ætti eg ecki ad vera nú, enn þegar eg í fyrsta sinni mætti fyrir Drottins hábordi? eg hefi nú fengid frekari reynslu um heiminn; eg þecki betur hans svikrædi og ginníngar; eg þecki betur, edur ad minnsta kosti ætti eg ad þeckja betur freistíngar míns egin hjarta. Mínir andlegu

legu kraptar hafa um svo lángann tíma mátt mikid eblast, já, verda þeim mun oblugri, sem mín þecking hefdi átt og mátt aukast, og eg í henni framforum taka. Í sérhvört sinn, sem eg mætti framm fyrir Drottins altari, fór eg ecki burt þadan aptur án visst-ra gódra tilfinnínga, med hvorjum andi Drottins hefir verkad í mínu hjarta, til ad fá þad lagsært; í sérhvört sinn hefi eg strengt þeim eilífa mín heit, og tekid fyrir mig nýjann ásetníng, ad strída vid sjálfann mig og sigrast á sjálfum mér; sérhvört sinn hefi eg sjed Jesúm krossfestann eins og af-máladann fyrir augum mér, og umþenking hans dauda, þess dauda, sem hann fyrir mínar sakir gieckst svo fús undir, hvílíkar hjartgrónar, óupprætanlegar verkanir hefdi hún ecki átt ad hafa í hjarta mínu, hvílíka brennandi elsku hefdi hún ecki átt ad upp-qveikja í minni sálu, hvílíka lyst og laung-un, hvílíkann dug og vaskleik hefdi hún ecki átt ad upplifga hjá mér, til ad hreinsa mig af allri saurgun á líkama og sálu og fullenda mína helgun í Guds ótta? æ! minn Gud! Þó ad eg eptir svo opt ítrekada nautn þessar-ar heilögu máltídar sé ecki ordinn betri, rád-vandari, fullkomnari, þá er þér ecki um

mína spillíngu ad kénna; nógu kroptuglega hefir þín náð verkad í mínu hjarta því til lagfæríngar; mér, einúngis mér er um mína vangæt og forherdíngu ad kénna, og hvörsu stórs straffs er eg þá ecki verdugur? Því optar, sem þú hefir advarad mig, á-minnt mig, lockad og ladad mig, hótad mér, hrært mig og komid mér til ad vikna, því straffsverdari er eg, ef eg hef forherdt mig móti þínum heilögu advörunum og á-minníngum. Æ! mætti þá ecki þitt lángs-lundar-géd þreytast um sídir, og þín náð umbreytast í reidi? og eg mundi þá kannské lofsins leita þín, leita þín forgéfins, og ecki finna þig.

Hvörsu sæll væri eg þá, ef eg, eptir þad eg svo lángann tíma hef gengid til altaris, væri ad minnsta kosti neckru betri, enn þeg-ar eg í fyrsta sinni mætti fyrir míns Guds altari. Mínar freistíngar og mínir veiku kraptar, sem áttu ad verjast þessum freist-íngum og sigra þær, hafa ad sönnu ecki leyft mér ad feta stórum áfram á dygdar-innar vedhlaupi; en sæll væri eg þó, ef eg hefdi gétad skridid, hefdi eg jafnvel med lángsemi og vanmætti gétad dregid mig fram ad því takmarki, sem mér er fyrirsett.

 Drott-

Drottins náð hefði þá, að minnsta kosti, ecki verið öldúngis ávaxtarlaus á hjarta mínu, og sá Guð, sem hefir byrjað það góða í mér, mundi þá líka fullkomna það; þessi heilaga máltið, til hvorrar eg er nú að undirbúa mig, mundi þá líka styrkja nockuð til míns viðgángs og framfara í fullkomlegleikanum, og eptir því, sem eg nálgast mín æfilok, skyldi eg líka verða æ hæfari og betur fallinn til að taka á móti þeim án qvíða og skélfingar.

O! minn Guð! þessi æfilok eru mér, kannské, allnærri, kannské nær, enn eg sjálfur hygg; kannské þetta sé í seinasta sinni, sem eg með mínum sam-kristnum mæti við þitt háborð; kannské þetta verði í seinasta sinni eg tek á móti þessum panti uppá þína elsku; það mun þó víst einhvorn-tíma verða í seinasta sinni, og hvað géfur mér vissu um, að það géti ecki verið þetta? styrk því mitt hreinskilið áform, að það mætti verða eins stadfast og óraskanlegt, eins og það nú er hreinskilið; þó eg hafi að undanförnu gleymt því, þá virðstú í þetta sinn að géfa mér þína náð, að það mætti nú verða mér heilagt og ógleymanlegt; þá mun þessi

at-

athøfn blessast minni sálu; eg mundi þá á minni bana=sæng hugsa med fognudi til þess dags á hvørjum eg framqvæmdi hana, já, í eilífdinni mundi eg enn þá hugsa til þess dags. O! Drottinn! þú útskúfar ecki þeim, sem ákalla þig med hreinskilnu hjarta: med hreinskilnu hjarta ákalla eg þig, Drottinn! æ! virdstú því ecki ad útskúfa mér! Amen!

## X. Kapítuli.

### Hugleidíng þess, sem lengi hefir afrækt ad gánga til altaris.

Hvør er orsök þess, ad eg hef svo lengi haldid mér frá Drottins bordhaldi, frá þessari heilögu máltíd til ad endurminnast elsku míns Jesú? gét eg gengid vid þessari orsök fyrir sjálfum mér? eda hlyt eg ecki miklu framar ad skammast mín fyrir hana? máské, eg hafi ecki vitad tilgáng þessa heilaga verks? máské, eg hafi ecki viljad dyrfast ad takast þessa athøfn á hendur, á medan eg ecki þeckti hennar tilgáng? já, þad væri gálaust eptirþánkaleysi, hefdi eg framqvæmt svo heilaga athøfn án þess ad þeckja hennar tilgáng; enn

en það væri líka vanvirða fyrir mig, ef eg ecki þeckti hann. Hefir þá Jesús Krist-ur leynt honum fyrir mér? hvad gétur verid ljósara enn Jesú ord þessi: gjørid þad i mína minningu! eg mátti þá vel vita, ad þessi máltíd var í því tilliti skip-ud, ad eg skyldi hátídlega minnast míns Jesú, hans pínu, hans dauda, og allrar þeirrar sælu, sem hann med sínum dauda hefir áunnid mér; og ad vilja ecki upp-fylla þenna tilgáng, hvílíkt óþacklæti!

Máské, eg hafi ætlad, ad eg í ein-rúmi gæti eins vel minnst míns Jesú, ad eg þess vegna í einrúmi gæti gjort þad sama, sem vid Drottins bord? ad þessi opinber athøfn væri þess vegna lítid um-vardandi, og hennar mætti gjarna án vera? o! þó ad eg jafnvel í einrúmi gæti gjort þad sama, skyldi eg þessvegna hafa rétt til ad yfirtroda Jesú Krists skipun, sem vill ad eg skuli gjøra þad í samqvæmi med mínum sam-kristnum, sem vill, ad eg skuli þar med opinberlega medkénna hann fyrir brædrum mínum, opinberlega tigna hann og dýrka fyrir mínum sam-kristnum. Í einrúmi gét eg þó ecki gjort þad sama; er þad møgulegt ad eg í einrúmi géti fundid

til

til somu andaktar, ad eg finni sálu mína eins óra og friska, minn innra mann eins lifandi, glóandi og áfúsann, sem eg finn þetta í samqvæmi med mínum samkristnum, hvar hid viknada hjarta þess eina, vidlíkt sem ú hellir sér í hjarta hins annars; skyldi eg eins finna til þessa í einrúmi, eins og í Drottins húsi, sem svo margir hlutir verda samtaka til ad fá hrært mína sálu til viknunar? eins og vid þessa hátídlegu athöfn, sem undir eins hrærir mín skilníngar-vit og verkar svo ígégnum skilníngar-vitin viknun og helgun hjarta míns? já, þó eg ecki þyrfti ad halda á þessum verkunum, sem ské ígégnum skilníngar-vitin, þó eg gæti verid án þeirara útvortis upporsana, væri mér fyrir það leyfilegt ad yfirtroda Jesú skipun: gjörid þetta í mína minníngu? þess, sem eg þykist sjálfs míns vegna ecki vidþurfa, þess þarf eg sakir minna samkristinna; skyldi það ecki vera skylda mín, ad upphvetja adra med mínu eptirdæmi? og hvorsu stór synd og sekt lendir þá ecki á mér, ef eg hefi med mínu dæmi géfid ødrum hneixlun, ef eg hefi valdid því, ad adrir vanrækja Drottins bordhald med því, ad vanrækja það sjálfur? Med

Med hvörju gét eg þá afbatad mína forsímun? kannské eg hafi qvídid fyrir ad gánga óverdugur til altaris, og verda svo straffs sekur eins og óverdugur géstur? O! hvad heimtar þó Drottinn af mér? máské hann heimti af mér fullkominn heilagleika, oldúngis óflekkad sakleysi? hvörr er sá krist-inn madur, sem þá mundi dyrfast ad nálægja sig þessari heilögu þjónustu? sjálfir Jesú Postular hefdu þá verid óverdugir. Nei! hann heimtar ellku, sem sýni sig med hlýdni, med stadföstum, rækilegum ásetníngi ad hlýdnast míns Guds og Jesú Krists lögum, med stadföstum heilögum ásetníngi ad nidurdempa mínar girndir, ad sigra mínar kjærustu tilhnegíngar, og eptir mínum veiku kroptum ad þjóna Gudi í heilagleika og réttlæti alla mína lífdaga. Skyldi eg þó ad minnsta kosti ekki géta komid med þessa ellku og þenna hlýdnis ásetníng med mér fram ad Drottins altari? hvada kristnum manni mætti eg þá vera, ef eg fengi ekki af mér, ad taka þó einusinni þetta áform fyrir mig?

Én, eg vildi ad vísu taka fyrir mig þennann ásetníng, eg vildi ad vísu vinna Drottni þessi særi; en eg qveid einúngis

vid.

vid því, ad eg mundi ecki fá haldid þessi loford. En ef mitt hjarta var ad eins hreinskilid, og mitt áform alvarlegt og einlægt, hvílíkra krapta mátti eg þá ecki vænta mér frá þeim allrahærsta, sem er máttugur í vorum breyskleika? rétt fyrir hid sama, ad eg fann til svo mikils breyskleika í því ad halda mín hreinskilnu heit, hefdi eg því optar átt ad ítreka þetta heilaga verk, til þess ad eg fengi því optar ítrekad og áuhjad þennann heilaga ásetníng, og því heldur styrkt hann, med því ad ítreka og endurnýja hann. Þó eg þá stundum móti vilja mínum felli aptur til baka, þá mundi eg leggja alúd á, ad reisa mig vid aptur af mínu falli; þó eg þá stundum yrdi ofurlidi borinn og sigradur af þeim óvin, sem mér væri yfirsterkari, eg mundi þá aptur fá nýjann hug og dug, safna nýjum kroptum, berjast ad nýju med endurnýjudum, styrktum og betrudum ásetníngi; þannig mundi eg smámsaman fá ad nýju æ meir og meir aukid mína andlegu krapta, og verda um sídir herra yfir sjálfum mér, og Drottinn mundi renna nádugu auga ofan til minna hreinskilnu, en þó veiku atburda, í strídinu vid sjálfann mig. Hvorn-

Hvornig skyldi eg þá qvída fyrir ad mæta fyrir Drottins bordi, þegar eg ad eins væri hreinskilinn? já, mér mundi, máské, rísa hugur vid ad leggja á sjálfann mig skyldur, og þad þvílíkar skyldur, sem eg gæti þó ecki uppfyllt? hvorsu dárlegur væri ecki þvílíkur qvídi? getur þá þessi athøfn sagt mér á hendur fleiri skyldur, enn þær, sem ádur þegar á mér liggja, fyrir þad, ad eg er madur og kristinn madur og míns Guds sképna? þó ad eg gengi ecki til altaris væri eg þess vegna sídur skuldbundinn til ad elska Gud, sem minn velgjørara, til ad tigna hann, sem minn Skapara, til ad hlýdnast honum, sem mínum Drottni? væri eg þess vegna midur skuldbundinn til ad elska Krist, sem minn Forlíkunar-mann, og audsýna mína elsku med því, ad tjá hans heiløgu løgum øldúngis gladværa, naudúngar og undanfærslulausa hlýdni? nei, hvørt heldur eg gengi til altaris edur ecki, svo væri þó mínar skyldur og skuldbindíngar ætíd hinar sømu. Þessi heilaga athøfn segir mér á hendur engar nýjar, engar fleiri skyldur, hún skuldbindur mig ad eins til ad halda þær; hún uppørfar mig ad eins til ad lifa

eptir

eptir þeim, af því það er sjálfum mér svo hollt og hjálpsamlegt að lifa eptir þeim; hún er einúngis meðal til að styrkja og staðfesta mig í mínu heilögu áformi; og því sterkara, sem það verður, þess öruggari stend eg, þess óblugra verður mitt herra-dæmi yfir sjálfum mér; þess meiri mín hugar-hægð og rósemi, því meiri mun á síðan verða mín tilkomandi vegsemd.

Þessum notum, þessum mikilvægu ávoxtum hef eg nú svipt sjálfann mig með því, að afrækja Drottins borðhald svo lengi. O! þessi þánki væri þegar nógur til að fylla mína sálu með sorg og trega; en hafi eg forsómað þetta heilaga verk af forakti við þessa guðlegu stiptun, af kaldsinni og hyrðuleysi um minn kristinndóm, af kjærleiksleysi og óþacklæti við hennar háleita höfund; hafi eg forsómað þessa heilögu athöfn af því eg el upp í minni sálu, þær girndir, sem eg læt svo dátt að, að eg vil ecki niðurdempa þær, af því eg aðhefst þær lastverðar athafnir, sem eg vil ecki afleggja; já, þá ætti þessi forsóman að koma inn hjá mér ángist og skelfíngu; eg mætti þá glatast, hvört heldur eg gengi til altaris eður ecki; þessi forsóm-

sómann og mín yfirtrodsla á Jesú skipun fordæmdi mig þá ecki einúngis; nei, mitt egid hjarta, mínar girndir og skaplestir mundu þá undir eins áfella mig.

Æ! hvad hef eg þá áunnid med því ad yfirgéfa Drottins altari? ofaná hinar adrar mínar yfirtrodslur, hef eg þaradauki bætt þessari, ad eg hefi yfirtrodid Jesú Kristo ástúdlegu áminníngu: gjørid þetta í mína miñíngu; ofaná adrar mínar syndir, hef eg þaradauki bætt þessari, ad eg med minni forsómun hefi géfid mínum sam-kristnum hneixli. O! Drottinn! virdstú ad vera mér nádugur eptir þinni miskun, og afmá þessar mínar þúngu syndir eptir þinni mikilli miskunsemi! hjálpa mér ad eg megi hér eptir þess optar leita þín frammi fyrir þínu altari, og virdstú þá ad láta mig finna þig! géf ad eg megi hér eptir vera svo miklu alvarlegri og vandadri í þessari heilögu idkun, sem eg hefi ad undanförnu verid kaldsinnadri og tómlátari í henni; unn mér enn þá svo mikils nádar-tíma, ad eg fái framvegis med alúd og alvörugéfni bætt þad upp, sem eg hefi ad undanförnu med mínu hyrduleysi og deyfd forsómad.

XI.

# XI. Kapítuli.

## Hugleiding þess, sem opt gengur til altaris.

Ecki gét eg bríxlad sjálfum mér um þad, ad eg gángi ecki nógu opt til altaris, tídki ecki nógu opt med ødrum kristnum mønnum þetta heilaga verk. Þad bríxli á ecki heima hjá mér, sem svo margir mega med réttu gésa sér, þeir, er oldúngis yfirtrođa Jesú skipun þessa: gjørid þad í mína minníngu. En þar fyrir er eg þó ecki réttlátur fyrir Gudi. Þad er tilgángurinn, fyrir hvørn eg geng til altaris, og mátinn, edur hvørnig eg geng þángad, sem á ad réttlæta mig; gángi eg þángad eins hyrdulauslega eins og eg geng þad opt; sé minn tilgángur ecki hreinskilinn, minn undirbúníngur ecki alvarlegur, sé þessi heilaga athøfn mér ávaxtarlaus, þá er eg, sem þó svo kostgæfilega geng til altaris, eins straffs-verdur eins og þeir, sem oldúngis halda sér frá því Hvørsu naudsynlegt er þad þá ecki, ad eg prófi hjarta mitt og ransaki minn tilgáng, ádur enn eg gledji mig yfir minni yduglegu altaris gaungu.

Hvørs-

Hvørs vegna tíðka eg svo opt þessa heilögu athøfn? er það skinhelgi, er það guðrækniss dulars-hamur, með hvørjum eg vil svíkja mína sam-kristna, og abla mér hróss af þeim, án þess að vinna til þess? kannske, eg vilji með þessum heilögu andaktar ydkunum leyna því vanhelga og lastafulla hjarta, á hvørs lagfæringu mér huggvæmist þó aldrei að leggja neina alúð? o! hvørsu svart, hvørsu viðbjóðslegt mætti mitt hjarta þá ecki vera! eg mætti þá skammast mín fyrir sjálfum mér, og feila mín fyrir Guði mínum; skammast mín fyrir mína sásinnu, að eg hyggst að svíkja Guðs alskygna auga, sem sjer og gegnumskoðar hin innstu fylgsni hjarta míns, og sjer þess viðbjóðslega saurugleika, að eg feila mín fyrir mínum bræðrum öðrum manneskjum, sem eru syndarar eins og eg, og óttast þó ecki fyrir þeim óendanlega, sem er minn Drottinn, og verða mun á síðan minn Dómari. Minn Guð! í hvílíkri forsmán mundi eg standa frammi fyrir þínum hástóli, þegar þessi dularhamur væri loksins dreginn frá minni ásjónu, og eg, sem hefi verið mér út um heilagleikans hrós, með því að vanvirða

 þig,

þig, stædi þar nakinn og opinber ad øll-um mínum saurugleika.

Hvar fyrir tídka eg svo opt þessa hei-logu athøfn? máské, eg telji mér þad til gyldis og til forþénustu, ad eg tídka hana svo opt. O! til hvørs skyldi eg géta unn-id med því, þó eg uppfylli mínar skyldur? þó eg fengi hid allrafullkomnasta uppfyllt þær, þá hefdi eg med því til einkis unn-id, alls eckért verdskuldad. Jesús Krist-ur burtskúfar øllum þaunkum um egin verdskuldun: þegar þér hafid allt þad gjørt, sem ydur var bodid, þá segid: ónýtir þjónar erum vér, því vér gjørd-um einúngis þad, sem vér vórum skyld-ugir ad gjøra, Lúc. 17. Og, því mid-ur! eg þori ad vísu enganveginn ad ætl-ast til þess, ad mitt hjarta hafi ætíd ver-id svo fullkomid, sem þad ætti ad vera, svo øldúngis upptendrad af elsku til Guds og Krists, svo øldúngis gagntekid af trú-festi og hlýdnis tilfinníngum, sem þad ætti ad vera, og hvad kynni eg þá ad forþéna med þessari heilogu athøfn? nei, med því ad vanrækja þessa heilogu athøfn mundi eg ad vísu vinna til míns Guds óblídu, en med hinu, ad tídka hana svo ydugléga

vinn

vinn eg til einkis. Eg þjóna med henni sjálfum mér ad eins, og ecki Gudi, og Drottinn verdur mér um eckért skyldugur fyrir þad, þó eg leggi alúd á mína eg-in sarsæld.

Hvors vegna tídka eg svo kostgæfilega þessa heilögu athöfn? kannské, eg hugsi med brúkun sacramentisins ad afplána og bæta fyrir syndir mínar, og skaplesti þá og glæpi, sem eg kannské, hef aldrei haft í hug ad afleggja? kannské, eg vilji leita fyrirgéfníngar á mínum umlidnu syndum, svo ad eg fái því óhultar byrjad á nýjum? æ! því midur! þar eru ad vísu margir til, og reynslan sýnist kénna, ad þeir séu margir, sem ecki hafa annann tilgáng med þessa gudrækins ydkun; þess vegna gledja þeir sig frammi fyrir Drottins altari í von um ad þeirra syndir séu fyrirgéfnar, og varla eru þeir heimkomnir frá Drottins altari, fyrr enn þeir hverfa aptur á ný til hinna sömu. O! þvílíkir kristnir menn, hversu litid bera þeir kénnsl á krapt og tilgáng þessarar athafnar! kannské eg þecki hann ecki betur? hvornig kann eg ad vænta minna synda fyrirgéfníngar án sannrar betr-únar, og ef eg framkém ecki med sannann

 betr-

betrunar áſetníng med mér fram ad Drottins altari, hvornig kann þá ſá áſetníngur hjá mér ad ſtyrkjaſt, ſem eg ecki hef og ecki vil hafa? nei, med því hjartalagi, ſem einn þá elſkar ſína vanart, og elſkar hana óſmikid til þeſs, ad þad vilji útrýma henni, med þeſſu ſauruga hugar-fari er þeſſi heilaga máltíd mér ávoxtarlaus og án verkana; þó er hún ecki án allrar verkunar, því hennar ávoxtur og verkan væri þá mín fordæming.. Eg brúkadi hana þá þvertámóti hennar hoſunds visdómsfulla og góda tilgángi, hún átti ad upptendra mína elſku, hún átti ad upporſa mína hlýdni, og eg misbrúkadi hana til ad vidhalda mínum andlega ſveſni og ala mína vanart.

Og hvar fyrir tídka eg ſvo koſtgæfilega þeſſa heilögu athöſn? máſké, þad ſé einsómis vani? þá framqvæmi eg ad víſu þeſſa athöſn eins gálauslega, eins hýrdulauslega, og adrar, ſem eru ordnar mér ad vana; og hvada verkanir getur þá þeſſi athöſn eptir ſig látid í minni ſálu? þeſſi heilaga máltíd ſær ecki framkomid ſínum verkunum í hjarta mínu, nema ígegnum mína þánka; en ef eg framqvæmi hana

hana eptirþánkalaust, edur hugsa allt annad, enn þad, sem eg á um ad þenkja, hvada verkanir getur hún þá haft hiá mér? eg geng þá frá Drottins altari, og verd hinn sami, sem eg var ádur enn eg kom ad því.

O! mín sál! reyn þá siálfa þig ádur enn þú gengur til Drottins altaris, svo ad sú hrósan, sem þú leitar þér í þessum heilogu ydkunum verdi ecki ad hégóma. Ransaka þinn tilgáng, hvors vegna þú gengur þángad; er þinn tilgángur hinn sami, sem Jesú Kristis: giørid þetta í mína minningu, svo ad eg tídka þessa athøfn til þackletis-fullrar endurminningar velgiørnínga míns Forlíkunar-manns, til ad styrkja mína trú og glæda mína elsku. Ransaka þad hugar-far, med hvorju þú gengur til þess, hvort þú mætir fyrir Drottins altari prýddur audmýkt og lotníngu fyrir þeirri veru, fyrir hvorrar augliti þú mætir, med sonnu kristilegu ángri og tréga yfir þínum óteljandi brestum og ávirdíngum, med heilogum ásetníngi ad byrja nýtt líf, sem hédan í frá sé fórnfært og helgad Gudi og Jesú Kristi til dýrdar. Ransaka þær verkanir, sem þessi heilaga athøfn

høfn hefir ad undanførnu haft í þínu hjarta; hvorsu miklu stadfastari þú hefir fyrir hana ordid í þinni trú, hvorsu miklu vareygdarsamari í þínum ordum, hreinferdugri í þínum girndum, hófsamari í þínum lystingum, framqvæmdarsamari í þínum gódu og kristilegu athøfnum? hvorsu mørg spor hefir þú gengid áfram á heilagleikans og dygdarinnar vedhlaupi fyrir þessar heiløgu ydkanir, sem þú hefir svo opt ítrekad? já, ef eg finn til þessara sáluhjálplegu ávaxta, þá gét eg ad vísu aldrei nógu opt gengid til altaris. Í sérhvort sinn, sem eg kém þángad, mun eg nýjum dagvoxtum fara í minni dygd og rádvendni. En finni eg ecki til þeirra, til þessara sáluhjálplegu nota, til þessara nota, sem eg mætti þó og ætti finna til, þá eru þessar heiløgu ydkanir mér aldúngis gagnslausar; eg er þá engu betri enn þeir kristnir menn, sem skjaldan edur aldrei tídka þessa heiløgu athøfn.

## XII. Kapítuli.

Hugleidíng þess, sem finnur til óróasemi í samvitsku sinni undir brúkun heilagrar Qvøldmáltídar.

Minn Gud! hvar fyrir er mér svo þúngt fyrir hjartanu, mín sál svo óróleg, mín sam-

samvitska svo ångrud og adþreyngd? Þad heilaga verk, sem eg er nú ad undirbúa mig til, er þad í sjálfu sér nockud ógurlegt edur skélfandi? ea framgeng þó ecki til Sinai, heldur til Golgatha, ad virda fyrir mér Jesú fridþægjandi dauda, sem afrekadi mér eilífa forlíkun; ad heyra fridar-tídindi frá himnum, sem boda mér Guds míns nád; ad gjörast viss um fyrirgéfníngu synda minna, og minn erfdarétt til eilífs lífs; ad taka móti þeim hátídlegasta panti uppá oll þessi huggunarríku og hjarta-fridandi sannindi; hvad skélfilegt er í ollu þessu? og hvadan kémur þá þessi ångist og órósemi, sem qvelur mína sálu? já, þad gétur leidt af mínum líkams veikleika, þad gétur líka leidt af mínum syndum! O! ad eg gæti þá fylgislaust ransakad þetta! o! ad þessi ransókn fengi þó ablad miñi sálu nockurrar sañrar og grundadrar rósemi! Já, ef mín hugar-óróserni sædist af miñi líkams vanheilsu, og af henni einúngis, þá þarf eg ecki ad adþreyngjast svo yfir sjálfum mér. Lasleiki líkamans hefir ad vísu opt sínar verkanir á sálunni, allt eins og sálarinnar vanheilsa hefir opt sínar verkanir á líkamanum. Þegar sál-

 in

In er sjúk, þá lídur líkaminn med, og þegar líkaminn er veikur, þá lídur sálin med. Kannske þetta seinasta egi heima hjá mér. Ef eg finn enga grundada orsök til þessarar órósemi í minni sálu, þá veit eg, ad eg má leita hennar í mínum líkama, og þessi minn sjúki líkami hefir ad vísu, vid önnur atvik optar enn einusinni, orsakad þvílíka óró og ángursemi í mínu hjarta. O! væri orsökina líka í þetta sinn í þessu líkamans ástandi ad finna, þá mætti eg med djörfúng nálægjast míns Guds altari, hvörsu megn sú óróseme annars er, sem mig qvelur; en, æ! ef eg skyldi finna orsökina í minni sálu, í mínum löstum og glæpum ad undanförnu, sem nú herthja móti mér samvitsku mína med eilífdarinnar báli, hvada djörfúng gæti eg þá hjá mér fundid vid tídkun þessa heilaga verks? og jafnvel þó eg finni ad mín samvitska vitni hér á móti mér, vil eg leitast vid ad gjöra mig róismann, og mín rósemi er vel grundud; því svo lengi, sem nádartíminn enn nú varir, þá standa líka nádar-dyrnar opnar fyrir mér; þetta einúngis, ad Gud hefir látid mig lifa fram á þenna dag, til þess ad eg gæti fyrir því, mætt

frammi

frammi fyrir hans altari, Þetta er mér rokſemd, ad nádar-dyrnar ſéu enn þá ecki apturluktar fyrir mér; enn þá hrópar hann til mín: eg vil ecki ſyndarans dauda, heldur ad hann umvendi ſér og lifi. Væri þad ecki míns Guds vilji, ad eg ſkyldi lifa, ſvo hefdi hann ad víſu gêtad ſvipt mér í burt í mínum ſyndum.

Eg veit ad ſönnu, ad eg er ſyndari; en er eg þar fyrir verri enn adrir ſyndarar? er eg verri enn óbótamadurinn á kroſſinum, ſem þó fann nád hjá einum forlíktum fodur á lífſins ſeinaſta augna-bliki? margir breſtir og ávirdíngar hafa ad víſu fleckad mína umgengni; en mín manneſkjuleg breyſkleika? hvornig ſkyldi þá Pêtur, ſem afneitadi Kriſti, Páll, ſem ofſókti hann, hafa fundid nád? eg hef ad víſu líka ſtundum yfirbugaſt ſvo af mínum girndum, mínum ſkilníngar-vitum og mínum geds-hræríngum ad eg hef vísvitandi og viljandi framid þá leſti og yfirſjónir, ſem hafa gjört mig óverdugann Guds nádar; en hvørr er ſá af daudlegum, ſem ecki haſt orſök til optar enn einuſinni ad kaſta þoi ſama ſér í naſir? ej

minn Guð skyldi þess vegna útskúfa mér, að eg hefi af áseттu ráði syndgað, hvorr skyldi þá verða meðtekinn? nei, Drottinn! þú útskúfar ecki þeim, sem af alvoru leita þín. Þú hefir sjalfur sagt: leitið Drottins, meðan hann má finnast; kallið á hann meðan hann er nálægur; sá ógudlegi láti af sínum vegi, og sá rángláti yfirgefi sína hugsun og snúi sér til Drottins, þá mun hann miskuna honum, og til Guðs vors, því hann er nærsta góðgjarn í að fyrirgéfa, Es. 55. Já, Drottinn! eg leita þín, þú villt þá líka láta mig finna þig; eg ákalla þig, þú villt þá líka vera mér nálægur með þína náð; eg umvendi mér, með auðmjúku og ydrandi hjarta umvendi eg mér til þín, og virðstú þá líka að miskuna þig yfir mig. Héðan í frá, o! Drottinn! skal það vera mín alvarlegasta viðleitni að stríða við sjálfann mig, að afleggja mína fyrri bresti, að fordæma mínar kjærustu syndir, og hafna þeim.

O! ef þessi væri ecki minn ásetníngur, þá hefði eg réttvísa orsök til að ángrast og hrellast fyrir þínu altari, hvar eg vinn þér þau heilögustu og hátíðlegustu heit;

En,

en, sé þetta minn einlægasti áſetníngur, fyrir hvörju ſkyldi eg þá óttaſt? mínar ſyndir eru að ſönnu ſtórar, en míns Guðs miſkunſemi er þó enn þá ſtærri; og á meðan þú annt mér náðar-tímans, ſtendur þín miſkun enn þá opin fyrir mér. Og hvör er ſú ſynd, ſem þú ſkyldir ecki hafa afmáð með þínum dauða, o! þú guddómlegi Forlíkunar-maður! já, þú ert dáinn fyrir gjörvallrar veraldarinnar og fyrir mínar ſyndir, fyrir þær meſtu eins og fyrir þær minnſtu ertú dáinn. Til þín flý eg þeſs vegna, í þínum dauða leita eg huggunar og róſemi fyrir mína aðþreyngdu ſálu; þegar þitt réttlæti ber af mér, þá mun Dómarans eldlegt reiðar-ſlag ecki géta náð til mín; því þú, ſem ſjálfur varſt réttlátur, ert dáinn fyrir rángláta, ſvo að vér fyrir þig mættum verða réttlátir fyrir Guði. Þeſſi huggunar-ríki ſannleiki, o! að hann mætti þó friða mína ſálu! og hvað ſkyldi gjöra hana róſama, ef það væri ecki þeſſi ſannleik? þegar eg frá Drottins altari heyri Jeſú orð: þetta er blóð þeſs nýja ſáttmála, ſem úthelliſt fyrir yður til ſyndanna fyrirgéfníngar; o! að þeſſi orð mættu þá líka hella viðſmjöri

smjöri í mín sár, lækna mitt sundur-knosaða hjarta, og dreifa þeim dymmu sturlunar skýjum, sem umskyggja mína sálu; því eg veit að þetta blóð er líka úthellt til minna synda fyrirgéfníngar.

Nú, svo vil eg þá hugga mig við Evangelii fyrirheit, og með hugar-hreysti gánga fram fyrir míns Guðs altari í þeirri vissu von, að Guð minn er mikið ljúfur á að fyrirgéfa, eg mun þá fyrir trúna á hann, sem dó fyrir mig, svo að eg mætti lifa, finna náðugann Guð, og forlíktann föður, hjá hverjum að er mikil fyrirgéfníng. O! virðstú sjálfur að verka þessa hugar-hreysti í minni sálu, svo að eg, sem svo ángurvær kém fram að þínu borðshaldi, megi með fögnuði þaðan aptur snúa, Amen!

## XIII. Kapítuli.

### Hugleiðing þess, sem finnur til engrar óróssemi í samvitsku sinni.

Hvörsu rósöm er mín sála fyrir sturlun og qvíða, frí fyrir bríxlum; glaðværar og kyrrlátar tilfinníngar upplífga hjarta mitt, við um[...]king þeirrar heilögu athafnar, sem eg er nú að búa mig undir. Hvörsu

søll

sæll er eg, ef þessar tilfinníngar, þessi ró-semi og þessi gledi, ef þær eru á réttum rokum byggdar. En hvörsu illa væri mér varid, ef andleg hyskni og svesn, ef kald-sinni og tómlæti væru uppspretta þessarar rósemi. Margir eru ad sönnu hrelldir og ángrádir vid þessa heilögu athøfn, sem med fullum rétti mættu vera rósamir, og marg-ir eru kannské, rósamir, sem hafa stærri orsök til ad vera ángrádir. A eg þá ecki heima í tölu þessara seinni? o! þá er mín rósemi lík rósemi óbótamannsins, sem læt-ur sig dreyma um svikula gledi, medan Rétturinn er ad semja hans dauda-dóm; eg er þá líkur þeim, sem sefur med værd á þrøm nockurs hyldýpis, af því hann þeckir ecki háskann, sem ólgir nedan und-ir honum, né þad augna-blik, á hvörju hann velltur kannské ofan fyrir. Ef þetta skyldi vera mitt ástand, hvörsu ógæfusamt væri þad þá? en eg vil ecki fordæma mína rósemi, fyrr enn eg hef rennt ransóknar auga inn í mitt hjarta, og prófad þær upp-sprettur, sem mín rósemi flýtur af. Þessi ransókn skal skéra úr því, hvört eg hef meiri orsök til sorgar eda til gledi, til qvída ed-ur til hugar-hreysti; og minn Gud! sé

min rósemi svikſamleg, þá virdſtú ad upp-vekja mig, ſvo ad eg ecki þá fyrſt upp-vakni þar, ſem eg mætti óſka, ad eg gæti eilíflega ſofid.

Med hvada hugar-fari nálgaſt eg Drottins altari? er mitt hjarta ſvo áſig-komid, ad min rósemi gèti verid vel grund-ud? nidurkrýp eg fyrir þeſſu altari med þeirri ſönnu audmýkt, ſem vèr, ſkèpnurn-ar, eigum ad finna til, þegar vèr mætum fyrir vorum Skapara? víſt hef eg nóga orſök til þannig ad audmýkja mig, þegar eg ſamanber minn vanmátt vid míns Guds almætti, mitt myrkur vid hans ljós, mína ſáſinnu vid hans ſpeki; þegar eg virdi mig fyrir mèr ſjálfann eins og ſynd-ara, ſvo ſem þann, ſem ecki ad eins er mold og aſka, heldur ſyndug mold og ſaur-ug aſka; hvorſu lítilshàttar ætti eg þá ecki ad vera í mínum egin augum? hvorſu djúpt ætti eg þá ecki ad audmýkja mig fyrir mínum Gudi; hvorſu ætti eg rètt ad miſſa ſjálfs míns undir þeirri tilfinn-ingu, ad hann er óendanlegur, en eg er eckert! finni eg til þeſſarar audmýktar, þá er mín rósemi vel grundud, annars ecki.

Med

Med hvada hugar-fari nálgast eg Drottins altari? ber eg fram med mér sannydrandi hjarta, sem med ángri og trega vidurkénnir sín afbrot, sína bresti og breyskleika? o! þessi ángur-fulla vidurkénning, hvörsu réttvís og sanngjarnleg er hún ecki? ef eg samanber Guds míns breytni vid mig, vid mína breytni vid minn Gud, hvörsu sanngjarnleg er hún þá ecki? ef eg virdi fyrir mér Guds elsku til mín, hans elsku í ríki náttúrunnar, fyrir hvörja eg vidheldst, verndast og blessast, hans elsku í ríki nádarinnar, fyrir hvörja eg er forlíktur, fyrir hvörja eg undirbýst undir eilífdina, og fyrir hvörja farsæl eilífd er aptur ad nýju opnud mér; hvílíkt elskunnar afgrunn, inn í hvört þegar eg skygnist, þar sem eg stend vid þad, gét eg einúngis fundid til heilagrar undrunar og tilbeidslu. Virdi eg nú þarámóti fyrir mér mína breytni vid Gud minn; æ hlýt eg þá ecki med ángri og trega ad medkénna, ad eg er ecki eins og eg ætti ad vera, ad eg er ecki svo hreinn, svo heilagur, svo fullkominn, sem eg ætti ad vera, til þess ad fá verid velþóknanlegur Gudi, mínum ædsta velgjörara; ad eg opt endurgeld Guds

míns

míns elsku med mínu óþacklæti, med mínu kaldsinni og tómlæti, med mínum syndum? en þessi medvitund, ad eg svo opt hafi styggt minn Gud, minn fødur, minn velgjörara, ætti hún ecki ad fylla hjarta mitt heilagri hrellíngu og ydrunar-ángri? finn eg þá til þessa ydrunar ángurs, en þó skynsamlegs og kristilegs hugar-ángurs, þá er mín rósemi á réttum rokum byggd, annars ecki.

Med hvada hugar-fari nálgast eg Drottins altari? lifir í hjarta mínu sonn, kroptug, verkandi, ávaxtarsøm trú á minn Forlíkunar-mann, sem dó fyrir mig? og lífgar þessi trú hjarta mitt til gódra verka? mitt ángur og tregi, mínar andvarpanir og mín tár fá þó ecki einsømul ablad mér Guds nádar. Eg veit, ad þess vegna er innsett forlíkunar-medalid til míns frelsis; eg er sannfærdur um: ad þar sé ecki sálu-hjálp í nockrum ødrum, og ad þar er eckert annad nafn gefid mønnunum undir himninum, til ad verda sálu-hólpinn í, enn einúngis í nafni Jesú Krists, Act. 4. Flý eg þá líka fyrir trúna til þessa nádar-stóls, sem uppreistur er uppá blód míns Borgunar-manns.

Um-

Umfadma eg míns Medalgángara verd-skuldun med öruggu trúar athvarfi? varpa eg mér í þann ástar-fadm, sem útbreiddur er til ad umfadma mig? en flý eg líka til þessa nádar-stóls, umfadma eg þessa verd-skuldun, varpa eg mér í þenna fadm med þvílíkri trú, sem kroptug er fyrir kjærleik-ann, ávaxtarsöm af heilögum, stadfast-um, óraskanlegum ásetníngi ad betra mitt líferni; ad helga mína gjörvalla umgengni, ad hreinsa hjarta mitt af daudum verkum, til ad géta æ meir og meir þjónad þeim lifanda Gudi? o! fyrir utan þenna ásetn-ing er nín audmýkt eckért, mín ydran eckért, nín trú eckért, og sú rósemi, sem eg finn til, háskasamlegt svikrædi vid sjálf-ann mig.

En, Drottinn minn Gud! ef þessi minn ásetníngur er hreinskilinn, hvörsu vel er þá ecki mín rósemi grundvöllud? sú huggan og gledi og djerfúng med hvörri eg nálægist þitt hábord, á hvörsu gódum rokum er hún þá ecki byggd? skyldi eg þá qvída fyrir ad verda hluttakandi í þeirri kjærleiks-máltíd, sem med þessum skilyrd-um gjörir mig fullvissann um þína nád og mína forlíkun. Ebl þú þá Drottinn!

þessa

þessa kroptugu verkandi trú í minni sálu; þegar hún kynni í þessa lífs freistingum að veikjast, þá gef henni nýjann krapt, svo að hún nái ecki með öllu að yfirbugast, ecki öldúngis útslokni; þegar eg kynni að gleyma þeim heilaga ásetningi sem eg nú hefi fyrir mig tekið, þá virðstú að uppfylla mína sálu með hjálpsamlegri órósemi, sem aptur minni mig á mín heit, og upphvorfi mig til að binda enda á þau, Amen!

## XIV. Kapítuli.

### Hugleiðíng þess, sem ecki getur aflagt sína bresti.

Í sérhvert sinn, sem eg geng til altaris, tek eg að vísu fyrir mig þann ásetníng, að eg skuli leggja af þenna eður hinn brest, leggja ástundun á þenna eður hinn fullkomlegleika, niðurdempa þessa eður hina girnd, hafa í taumi og reisa skorður þessari eður hinni af mínum geðs-hræríngum, og þannig kappkosta að verða betri enn eg hefi verið að undanförnu; þegar eg er kominn frá Drottins borðhaldi, stríði eg að vísu við sjálfann mig um hríð, verð að vísu um stund herra yfir sjálfum mér, en smám-

smámsaman fell eg aptur á ný til minna fyrri synda, til minna vondu vana, eg er þá aptur hinn sami, sem eg hef verid ádur. Hvörsu hriggilegt, hvörsu sárhörmulegt og hrædilegt er þetta! hvörsu hugslausann má þessi umþenkíng med öllum rétti gjöra mig vid þessa heilögu athöfn, sem eg vil nú enn ad nýju á hendur takast! Þad sem mig hefir ádur hendt, mun eptir öllum líkindum ad vísu líka henda mig ad þessu sinni. Eg tek nú enn ad nýju fyrir mig hinn besta ásetníng, enn eptir skammvinna baráttu og stríd mun eg ad vísu aptur láta hendurnar síga, falla aptur, og um sídir verda aptur hinn sami, sem eg hefi nú verid. Og til hvörs hefir þá þessi heilaga athöfn gagnad mér, þegar eg fyrir hana er ecki ordinn dygdugri, betri, rádvandari? ad mínar girndir hafa nockra fáa daga, nockrar fáar vikur legid nidri og tekid hvíld, til þess þær gæti aptur med endurnýjudum kröptum nád fullkominni yfirdrottnun yfir minni sálu, þad er þó engin framför til fullkomlegleikans.

Hvör er orsökin til þessa hryggilega ástands? o! ad eg ecki leiti hennar hjá mínum Gudi! nei, eg má leita hennar hjá sjálfum mér. Drottni er ecki um þessa

mína

mína vanart ad kénna. Hans kraptur er nógu oblugur í mínum breyskleika Þau nádar-medøl, sem hann géfur mér, eru ánægjanleg til minnar betrunar; hans Evangelíum hefir guddómlegann krapt, til ad gjøra þá alla hjálplega, sem því trúa, Róm. 1. Hann, sem vill, ad allir menn verdi sáluhólpnir og komist til sannleiksins vidurkénníngar 1 Tim. 2. hann hlýtur líka ad vilja géfa mér þau kroptugustu medøl, sem útheimtast til minnar betrunar og minnar sáluhjálpar. Sú heilaga qvøldmáltíd hefir allt þad inni ad halda, sem gétur fælt mig frá mínum syndum, og styrkt mig á dygdarinnar vedhlaupi. Med sínu ordi ladar hann og lockar, ógnar, áminnir og upphvetur mig. Eg finn ad vísu opt í minni sálu til heimuglegrar advørunar frá honum, þegar eg tek til ad víkja út af þeim fótstig dygdarinnar, sem eg hafdi byrjad ad féta. Hvar fyrir fylgi eg þá ecki þessari heilogu advørun? æ! þad hlýtur ad vera mér sjálfum ad kénna. Ad svo margir fyrir þessi nádarmedøl, fyrir þessa Drottins kroptugu medverkun lagfærast og helgast, þad er mér gyld røksemd fyrir því, ad eg gæti líka fyrir

fyrir þau betrast, ef eg ad eins alvarlega vildi þad; þad er roksemd fyrir því ad þessi nádar-medöl séu í sjálfum sér nógu kroptug til minnar betrunar, en ad eg ecki nógu-vandlega brúki þessi medöl. Sú besti læknisdómur gagnar ekkért, þegar hann er ecki brúkadur, og sé hann brúkadur þvertámót því, sem hann á ad brúkast, þá skadar hann. Eins má því vera varid fyrir mér; eg geng nógu opt til altaris; med bæn og andlegum hugleidingum undirbý eg mig undir þessa heilögu athöfn. En þessara fárra tíma undirbúníngur, skyldi hann einúngis nægja til ad framleida þá gjörvalla verkun, sem eg æski mér? kannské, eg hafi allt oftengi látid minar syndir og mína vondu vana drottna yfir mér án allrar mótstödu; kannské, þeir hafi þannig nád sér svo obluari yfirdrottun yfir minni sálu, ad þessara fáu tíma undirbúníngur, sé ecki ánægjanlegur til ad uppræta þá vanart, sem drottnad hefir í svo margt ár. Ef eg vil þá nöckru sinni fá ordid herra yfir sjálfum mér, þá hlýt eg ad berjast, lengi, óþreytanlega hlýt eg ad berjast og strída vid sjálfann mig; ekkért medal til minnar betrunar má eg

láta

láta ófi eiſtað; engin mæða má verða mér leiðinleg. Það mein, er ſvo lengi hefir um ſig búið í mér, kann ecki allt í einu að uppræta ſt. Eg klaga yfir því, að eg með mínum beſta áſetníngi frammi fyrir Drottins altari, géti þó ecki aflagt mína breſti; en þeſſi áſetníngur, er hann þá líka nógu einlægur? er hann nógu kroptugur? hef eg líka kappkoſtað að þeckja ſvo mínar ſyndir, þeirra viðbjóðslegleika, þeirra ſtraffsverðugleika, þeirra íllu og ſkaðſamlegu eptirkoſt, ſem þær hafa fyrir mig, að minn betrunar áſetníngur géti verið nógu hreinſkilinn og kroptugur?

Eg klaga yfir því, að eg géti ecki haldið það áform, ſem eg tek mér fyrir framm fyrir Drottins altari; en þegar eg vík frá Drottins altari, forðaſt eg þá líka ſvo mikið, ſem mögulegt er, öll þau tækifæri, ſem kynnu að leiða mig afvega, til að rjúfa mitt áform? eða hleyp eg ecki öllu heldur óforſjálega fram í þau, þar, ſem eg gæti þó umflúið þau? forðaſt eg freiſtínguna þar, ſem eg finn mig allt of veikann til að fá mótſtaðið henni? og útbý eg mig með bæn og árvekni þar, ſem eg gét ecki hjá henni komiſt? æ! ef eg vildi rétt fylgiſlauſt

laust ransaka allt þetta, ef eg vildi fylgislaust svara sjálfum mér uppá þessi spursmál, þá mundi eg finna, ad orsökin til þess, ad eg sæ ecki aflagt mína bresti og vonda vana, er einúngis ad finna hjá sjálfum mér, og rétt þessi sama umþenkíng gjörir mig þeim mun ógjæfulegri, ad eg hlýt ad leita orsakarinnar einúngis hjá sjálfum mér.

Minn Gud! eg vil þess vegna hédan í frá, þad er þad hátídlega heit, sem eg vinn þér í dag; hédan í frá vil eg þess alvarlegar kappkosta ad strída á móti sjálfum mér og minni spillíngu; þegar mínir innvortis og útvortis óvinir gjöra árásir minni sálu, þá virdstú ad vara mig vid; svo ad eg í tíma fái fordast þá; géti eg ecki umflúid þá, þá virdstú ad upphvetja mig, svo ad eg berjist karlmannlega á móti þeim. Þegar mínar hendur vilja þýngjast og síga nidur í orustunni, þá styrk þá mig med bænarinnar anda, og þegar mínar andvarpanir uppstíga til þín; þá lát þinn krapt aptur til mín ofan stíga! já Drottinn! þannig vil eg óþreytanlega berjast og strída vid sjálfann mig, þángad til þú loksins krónar mig med sigri. Þó eg þá jafn-

jafnvel falli stundum, þá veit eg, ad þú lætur mig ecki liggja í minu falli; heldur ad þin náð reisir mig vid aptur, þvi þó minn vanmáttur se mikill, þá er mitt hjarta þó hreinskilid; þó eg jafnvel geti ecki, eins og margir adrir kristnir menn, skundad hradfara fram ad minu takmarki, þá vil eg þó kosta kapps um ad eg fái lángsamlega og smámsaman skridid og dregid mig fram ad því, og þá mun eg fyrir þina náð, þó loksins ná því. Þó min sála, geti ecki allt í einu helgast og hreinsast af sinni spillingu, þá vil eg þó ecki láta mér hugfallast, heldur leggja óþreytanlega alúd á, ad eg fái aflagt eina synd eptir adra. Uppá þad eg fái þessu í verk komid, þá vil eg á hvorjum morgni, ádur enn eg geng inn í heiminn, edа slæ mér út í hans glaum og umkríngist af hans freistíngum, segja svo vid sjálfann mig: þessir eru minir brestir, þessir eru minir vondu vanar, og þau afbrot, sem tæla mig út af dygdarinnar og heilagleikans vedhlaupi; þessar minar syndsamlegu girndir hafa svo opt leidt mig afvega, og fyrir sin svikrædi rasklad rósemi minnar samvitsku og fridi minnar sálar; eg hlýt í dag ad útbúa mig á

mœti þeim, svo ad þær kollsteypi mér ecki ad nýju, svo ad þessi dagur, sem bætir nýjum viðurauka við aldur minn, bæti ecki líka nýjum viðurauka við mínar syndir og við mína eymd og ólucku. O! minn Gud! þegar eg með þvílíkri alúð og alvœru, með þvílíkri hreinskilni legg kappsmuni á mína lagfæringu, þá virdstú ad géfa mér þína náð, ad mín alvarleg viðleitni ecki verdi ávaxtarlaus. Já, Drottinn! þú ert trúfastur; hún mun ecki verda ávaxtarlaus.

## XV. Kapítuli.

### Hugleiding þess sem vid bráklun qvøldmáltidarinnar fær ecki varist annarlegum þaunkum.

Vid þessa, þá heiløgustu athøfn, þegar eg mæ:. fyrir Drottins altari, ætti sála mín ad vera eintómis andakt og gudrækni, eintómis athygli og kyrrlát yfirvegan; eg ætti ad hafa svo ærid ad sýsla vid sjálfann mig og vid Gud minn einúngis, ad eg gleymdi gjørvøllum heiminum og øllu því, sem í heiminum er; en æ! svo heppinn er eg þó ecki; hvørsu hvarflar mín sála á vid og dreif; hvørsu glepjast og sund-

urslitast mínar heilögustu hugleidíngar med svidkomandi añarlegum þaunkum; hvörsu verd eg frá mér numinn, hvörsu missi eg sjálfs míns optlega! eg ætla eg sé ad þenkja um himininn, og eg er ad hugsa um jördina; mínar varir bæra sig, og mitt hjarta finnur ekkért til þess; mín sála sellur opt í svefn-mók í sínum heilögustu gudrækins ydkunum, og verdur þess þá fyrst vör ad hún er til, þegar hún vaknar aptur.

Hvör er þó orsökin til þessarar deyfdar, þessa slens, og þessara hvikulu og hvarflandi þánka? er þad náttúrlégur veikleiki í mínum þenkíngar-krapti? þvílíkur veikleiki, sem sjálfum mér er í engann stad um ad kenna? finn eg þá til sama veikleika, sömu deyfdar og óstödugleika, þegar eg er ad gégna mínum jardnesku skyldunum? missi eg þá líka sjálfs míns í annarlegum þaunkum? gleymi eg þá líka sjálfum mér og mínum fyrir höndum hafandi önnum? já, þá væri bót í máli. Þenna sálar sjúkdóm mun Drottinn ecki tilreikna mér. En, ef eg gét haldid mínum þaunkum saman, þegar eg er ad sást um heiminn; séu þeir þá einúngis á víd og dreif, þegar eg er ad sýsla med himininn, ef

sála

sála mín gétur verid stadfest í kyrrlátri og rósamri yfirvegun þar, sem mínar veraldlegar sýslanir er ad annast, en se hún á reyki þá einúngis, þegar hún á ad hyrda um sín andlegu efni; o! hvada afbotun hef eg þá, hvad gét eg þá fært mér til málsbóta? og er þessu nú ecki, kannske, þannig varid, þar sem eg á hlut ad? kannske, eg se allt of mikid innteкinn af skilníngar-vitanna fýsnum, allt of mikid nidursockinn í jardneska muni; heimurinn og hans eptirlæti, hans gjálífi hafa, kannske, svo oldúngis uppfyllt mína sálu, oldúngis inntekid alla mína þánka, oldúngis tekrad mínar tilfinníngar. Kannske engin alvarlegur þánki géti framar nád inngaungu í hjarta mitt. Kannske, mín sála, sem allt ofmjog er þrælbundin vid jordina, géti ecki framar upplypt sér til himinsins. Kannske, eg hafi aldrei ydkad mig í andlegum hugleidíngum, edur hafi ecki nógsamlega ydkad mig í þeim; og hvad er þá ad undra, þó þessar hugleidíngar, sem eg er svo ótamur á, hindrist svo audveldlega, og glepjist af odrum þaunkum, sem daglega uppfylla sálu mína og þrífa hana burt med sér. Máske,

 eg

eg þecki ecki mögſamlega, hvorſu mikilvæg, hvorſu hátidleg þeſſi heilaga athøfn er; kannſké eg þeſs vegna láti mér í ſvo litlu rúmi liggja þeſſa reykun og hvikulleika þánka minna; kannſké, eg þeſs vegna leggi allt of lítid ad mínum hugrenníngum, í andlegum efnum, kannſké mín athygli þeſs vegna ſvo audveldlega glepjiſt og hindriſt. Egi þetta heima hjá mér, hvada afbötun hef eg þá, ſem eg géti fegrad med málſtad minn fyrir ſjálfum mér?

Já, Drottinn! hvorſu gyld rök hefi eg ecki til ad qvída því, ad ein edur önnur af þeſſum orſøkum kunni ad vera uppráſin, hvadan þeſſir mínir annarlegu og hvarflandi þánkar fljóta af, yfir hverjum eg ſvo mjøg qvarta. Eg vil þeſs vegna, med ſtyrk míns Guds nádar, leitaſt vid ad fá burtrýmt þeſſum orſøkum og tilbyrgt þeſſar uppſprettur. Eg vil leitaſt vid ſmámſaman, ſvo mikid ſem mögulegt og leyfilegt og ſvarlegt er, ad ſlíta hjarta mitt frá því jardneſka, ſvo þad, ad minnſta koſti, ecki nái öldúngis ad hertaka þad né uppfylla. Hve notaſælt væri þad fyrir mig, ef eg fengi nockud ſlakad á þeim böndum, ſem draga mig til jardarinnar, ádur enn eg ſkal á ſídan öldúngis

ångis vid hana skilja. Eg vil leitast vid ad nidurdempa mínar fhýnir, og setja takmörk reyki og flogti innbyrlingar minnar, svo hún ecki fái hér eptir med sínum sjónhverfingum glapid og hindrad mína heilögu andakt. Eg vil af fremsta megni nidurkéfja alla þá þánka, sem nú tvístra og dreifa minni sálu og raska hennar rósemi. Vegna þess sama vil eg af fremsta megni fordast þann gjálífa soll og selskap, sem uppfylla mína innbyrlingu, og varast hvad annad, sem hana hefir hjá mér alid. Eg vil hér eptir ydka mig framar í andlegum hugleidingum, svo ad þessi ydkan verdi mér um sídir svo töm, ad hún verdi mér ad vana, ad heilögum vana, og þessar hugleidingar hljóta ad verda þín kiærasta næring mínum ódaudlega anda. Eg vil loksins kosta alls kapps um, ad setja mér rétt lifandi fyrir sjónir, hvorsu hátídleg, hvorsu heilög og hvorsu maktárídandi þessi athöfn sé minni sálu; þessi lifandi umþenking skal halda minni sálu hressri, árvakri, athugasamri um sjálfa sig, og fylla hana athyglis vid þá hátídlegu, heilögu og maktárídandi athöfn, sem hún er ad framqvæma. Já, hátídleg er sú athöfn, sem framfer í aug-

augsýn þess alskygna og allstadar nálæga Guds, í Drottins musteri; heilög er sú athöfn, sem enginn getur med vanheilögu hjarta framqvæmt án þess ad leida yfir sig fordæmíngu; maktáríðandi er sú athöfn, sem annadhvert getur ablad mér mins Gudsnádar, ef eg framqvæmi hana verduglega, edur hans óblídu, ef eg mæti vid hana óverdugur. Skyldi eg þá ecki leggja alúd á, ad heimta saman aptur mína dreifdu þánka, skyldi eg ecki leitast vid ad halda minni sálu í þvílíkri rod og reglu, sem samhljódur þessarar athafnar heilagleika? o! minn Forlíkunar-madur! skyldi þá nockur hlutur vera mitt þánka-efni, nema þín elska, sem lagdir lífid út fyrir mig, og sú sarsæld, sem þinn daudi hefir afrekad mér! já, þetta skal vera mitt heilagasta áform, þetta skal vera þad mikla takmark, sem allir mínir atburdir skulu líta ad. En, Drottinn! hvörsu ómegulegt er mér þad allt í einu ad ná þessu máli, ad verda allt í einu herra yfir mínum sýsnum og hugar-órum! virdstu þess vegna ad styrkja mína veikn krapta, svo ad eg, ad minnsta kosti, mætti smámsaman med lángsemi fá upphafid mig til þessa fullkomlegleika. Hvörsu miklu verdugri

mun

mun þá verda minn undirbúníngur undir þessa heilogu athøfn, til hvorsu miklu meiri uppbyggíngar mun eg þá ecki finna, þegar eg tídka hana, og til hvorsu miklu meiri gledi, þegar eg hefi henni aflokid. Þetta virdstú ad gefa, Drottinn! Drottinn! fyrir þinnar miskunar sakir, Amen!

## XVI. Kapítuli.

### Hugleiding þess, sem vid brúkun heilagrar Qvøldmáltídar finnur til gudløstunarfullra þánka.

Hvorsu hryggilegt er þad ecki, ad eg vid þetta ysrid heilaga verk skuli verda ónádadur af svo morgum íllum, saurugum og vanheilogum þaunkum! mín gudrækni fer á reyk, min hugar rósemi raskast, eg sviptist þeirri huggun og gledi, sem eg gæti fundid til frammi fyrir Drottins altari. En, þessir þánkar, ættu þeir ad sturla mig? já, ad vísu eru þeir ætíd óregla í minni sálu, fleckan á mínum ódaudlega anda, skortur þeirrar fegurdar og fullkomlegleika, sem ætti ad prýda mig í augum hinnar ædstu veru; en ættu þeir þó med ollu því ad sturla mig og fylla mig ángistar?

Hvadan eru þessir syndsamlegu gudsløstunarfullu þánkar, sem ónáda mig? eg hefi víst ecki nógu skjalleg røk fyrir mér til ad kénna djøflinum og hans innblæstri um þá; eg á ad leita eptir orsøkinni hjá sjálfum mér. En, þó eg eigi ad leita ad orsøkinni til þessara þánka hjá sjálfum mér, þá leidir þar þó ecki af, ad þeir eigi ad sturla mig; margir gódir kristnir menn hljóta ad finna til þvílíkra þánka, og, þó eg finni til þeirra, dyrfist eg ad vísu ad telja mig med gódum kristnum mønnum, einúngis þetta, ad eg finni til þeirra med vidbjód, en ecki med lyst og gedþeckni. Til þess ad frida ged mitt vid þessa svo audmýkjandi tilfinníngu, þá vil eg rannsaka, ad hvorsu miklu leiti eg er orsøk til hennar, og hvorsu eg haga mér med hana. Máské þessir þánkar séu verkan míns náttúrlega gjálifis og léttsinnis, máské þeir leidi af minni svikfamlegu hótfindni og glensfullum kríngilyrdum, sem eg legg í vana minn; af hugar-órum mínum, sem reyka allt of vídt út, já, þá kunna þeir ad tilreiknast mér, ad svo miklu leiti, sem eg hefi, kannské, ecki lagt nóga alúd á, ad deyfa hjá mér þetta gálgysi, og fordast

þessa

þessa hôtfindni og kríngilyrdi, og hafa í taumi þetta reyk og hvorflun minna gjálífis-fullu hugar-óra. En leidi þessa þánka af ødrum gálauslegum hædnis og gudlestunar-fullum þaunkum, sem eg á minum umlidnu árum hefi viljandi vakid í minni sálu, med því ad lesa gudlostunar- og hædnis-full rit, med því ad umgángast þá, sem hvørki þyrma dygd né kristinndómi, til þess ad þeir fái framhverst spéglósum og késkni sinni, þá hlýt eg med ángri og trega ad finna til þessara þánka; þeir eru þá náttúrlegt straff fyrir mitt fyrra gjálífi og losa-ædis glens, en, þegar eg ad eins finn til þeirra med ángri og trega, svo veit eg líka ad Gud minn fyrirgéfur mér þá. Jafnvel þó eg hafi ecki sjálfur viljandi verid orsøk til þeirra uppkomu hjá mér, svo á eg þó ad finna til þeirra med sorg og trega; því þeir eru þó þvílík syndsamleg óregla í minni sálu, sem gjørir mér vanvirdu og raskar nú minni andakt og minni rósemi; en án sturlunar má eg finna til þeirra; einúngis þetta, ad eg finni til þeirra med vidbjód; án sturlunar og qvølda má eg finna til þeirra, einúngis þad, ad eg alvarlega strídi á móti þeim, og med

allrí varúd fordíst allt þad, sem kann ad uppvekja þá; án sturlunar má eg finna til þerra, þegar eg ecki samþycki þá, heldur fordæmi þá og spornast vid þeim. Drottinn, sem þeckir minn veikleika, náttúrlegann óstödugleika minnar sálar og óstjórnlega reykun minna hugar-óra; Drottinn, sem sjer mitt alvarlegt, hreinskilid og óþreytanlegt strídvid sjálfann mig; Drottinn, sem veit med hvada hjarta-sorg og hugar-ángri eg finn til þessarar syndsamlegu óreglu í hjarta mínu, hann fyrirgéfur mér hana, þó eg jafnvel hafi med mínu fyrra gálauslegu gjálísi verid orsök til hennar, og, sé eg saklaus af henni, hvörsu mikiu framar gét eg þá af Guds míns náð vænt mér fyrirgéfníngar?

Eg vil þá ecki sturlast vegna þessara gudlöstunar og hædnis þánka, sem eins og eldíngar skjúga opt ígégnum mína sálu og raska hennar rósemi; en eg vil med Guds míns náð leitast vid ad fá yfirunnid þá med öllum þeim andlegu medölum, sem Drottinn géfur mér; eg vil snúa á þá öllum mínum vidbjód, og vil fordæma þá, eg vil leggja alúd á ad fá komid í veg fyrir þá, med því ad snúa allri minni

at-

athygli til þess heilaga verks, sem eg hef fyrir stafni, med því ad fylla hjarta mitt med hreinum tilfinníngum, og setja mína sálu í þad horf, ad hún umgángist ecki adrar enn heilagar hugleidíngar. O! minn Gud! ef þessar syndsamlegu, óhreinu, vanhelgu hugrenníngar skyldu enn þá uppkoma í minni sálu, þá vil eg finna til þeirra med audmykt og ángri; þær skulu verda mér til því stærri audmyktar og ydrunar; en þær skulu ecki fæla mig frá þínu altari; þær skulu ecki svipta mig þeirri djørfúng, med hverri eg má frámkoma fyrir þad. Þær skulu koma inn hjá mér heilagri eptirlaungun eptir hinum betra heimi, hvar eg, af duptinu hreinsadur, mun í fullkomnum ófleckudum heilagleika sá þjónad þér, og upptendra í minni sálu andvorpun Páls: æ! mig vesæla manneskju! hverr gétur frelsad mig frá þessum daudlega líkama? Róm. 7. En þær skulu ecki sturla mig, því eg veit, minn Gud! ad þú þeckir mitt hreinskilna hjarta, og ert viljugur til ad fyrirgéfa. Já, þessa mína bresti og breyskleika muntú fyrirgéfa fyrir hans skuld, sem bar mínar syndir, Amen!

# XVII. Kapítuli.

## Hugleiding þess, sem ecki fær fundid til innilegrar laungunar eptir heilagri Qvøldmáltid.

Hvadan kémur deyfd sú, er eg finn til í hjarta mínu vid þessa heilogu athøfn, sem vekur og lífgar hjá svo mørgum kristnum mønnum heitar, lifandi og heilagar tilfinníngar? eg finn enga sérlega laungun hjá mér eptir þessari heilogu máltid, engann il í minni sálu, medan eg neyti hennar, og enga sérdeilis staklega gledi, þegar eg er kominn frá henni. Sét eg med þessari deyfd líka verduglega nálgast Drottins altari? edur ætti eg, kannské, ad slá á frest þessu heilaga verki, þángad til eg finn til rétt innilegrar laungunar eptir henni? æ! ef eg ætti ad slá henni svo lengi á frest, þá munda eg ad vísu aldrei koma til bordhalds Drottins, því eg finn ad vísu aldrei til þessarar innilegu laungunar. Og hvar hefir þá Drottinn krafist þess, ad eg skuli finna til hennar? sælir eru þeir kristnir menn, sem hafa þessar heitu tilfinníngar, þenna glóandi anda, þegar þeir ad eins ecki meta þær meir, enn þær eru í raun og

og veru verdar til, þegar þeir ad eins verja þeim til þess tilgángs, fyrir hvörn Drottinn gaf þeim þær. Þær upphefja oss, þær upptendra sálina, þær koma henni, sem á flug og fá henni vængi, ad hún fái því audveldlegar flogid til himinsins. En þessar tilfinníngar heyra þó framar til náttúru-fari voru, framar til líkamanum enn sálunni Hvörsu márgir gódir kristnir menn hljóta þó ecki ad sakna þessara tilfinnínga, af því þeir hafa ecki þetta klockva, vidqvæma, tilfinníngasama náttúru-far, og þó láta þeir ecki þar fyrir af ad vera gódir kristnir menn; því þeirra verk vitna um þá, ad þeir eru þad. Allir gódir kristnir menn hafa ecki Davids heitu tilfinníngar, í hvörjum hann upphrópadi: líka sem hjörturinn hrópar eptir fersku vatni, svo hrópar min sála, Gud! til þin; mína sálu þyrstir eptir Gudi, lifandi Gudi; hvenær mun eg þángad komast, ad eg verdi sjen frammi fyrir Guds augsyn? Ps. 42. En fyrir því, þó eg hafi ecki eins vidqvæmar tilfinníngar og David, fyrir því gétur hjarta mitt þó verid eins hreinskilid og hans; fyrir því getur min sála þó haft eins brennandi

eptirlaungun eptir Guds náð eins og hans sála hafði.

Margir góðir kristnir menn hljóta að brjótast fram á dygðarinnar og kristindóms̄ sins veðhlaupi með köldum skilníngi, yfirvegun og eptirþánka einúngis. Sínar athafnir framqvæma þeir ecki af tilfinníngu, heldur einúngis af sannfæríngu. Kannske eg egi heima í tölu þessara síðari kristnu? og skyldi eg þá ecki vera Gudi mínum eins þóck̄nanlegur sem hinir? þessar tilfinníngar, sem Drottinn hefir synjað mér um, þær gét eg ecki sjálfur géfið mér, og það, sem Drottinn hefir ecki géfið mér, þess krefst hann ecki heldur af mér. Nei, að eg hlýt að vera án þessara tilfinnínga, sem gjöra aðra svo sæla, það er að sönnu söknuður fyrir mig, en þessi söknuður gjörir mig þó ecki þessarar helgu athafnar óverdugann; einúngis það, að mitt kaldsinni framkomi ecki af forakti við þessa heilögu máltíð, og syndsamlegu tómlæti, sem að engu leggr, hvort hún er tileða frá.

O! mín sál! ransaka þá að eins sjálfa þig og þitt hugar-far; ecki þínar tilfinníngar, heldur þitt hugar-far á að vera einkénni, hið óhultasta einkénni uppá þinn verdugleika

leika; eg finn ad sonnu til einkis húngurs og þorsta, engrar innilegrar eptirlaungunar eptir þessari heilogu máltid, en álit eg þetta heilaga verk sidur hátídlegt, maktáridandi, sáluhjálplegt fyrir það? vidurkénni eg þess vegna sidur þá skyldu, sem á mér liggur, til ad koma til altaris, svo sem eina þá skyldu, um hvorja eg sé skyldugur Kristi, mínum Forlíkunar-manni, mínum ædsta velgjorara, sem hefir skyldad mig til ad vidhalda med þessum hætti hjá mér þacklátri endurminníngu hans pínu, hans dauda, og allra þeirra miklu velgjorda, sem hann audsýnt hefir heiminum og mér? vidurkénni eg fyrir það sidur þetta verk, sem skyldu, er eg sé skyldugur sjálfum mér um, til ad upporfa mitt tómláta hjarta, til ad útbúa mig móti freistíngum heimsins og seikrædum míns egin hjarta, til ad efla mína alvorugéfni og kappsmuni á dygdarinnar og helgunarinnar vedhlaupi? þó eg gángi þá ecki til altaris, tilknúinn af heitum tilfinníngum, og þessar tilfinníngar gét eg ecki skapad í sjálfum mér, þegar mitt náttúru-far synjar mér þeirra; ef eg þó geng þángad af skyldu, af lifandi tilfinníngu skyldu minnar, og fyrir þann hreinskilinn til-

gáng,

gáng, ad fullnægja þeirri skyldu, sem eg er mínum frelsara og sjálfum mér skyldugur?

Eg verd ad sönnu ecki var neinna heitra tilfinnínga í hjarta mínu vid þessa heilögu athöfn, og þessar tilfinníngar heimtar Drottinn ecki heldur af mér, þegar hann hefir ecki gefid mér þær; en, eg geng til altaris med því hugar-fari, sem prýda á hvørn verdugann bordgest vid það? állt eg Krist, sem minn ædsta velgjørda-mañ, elska eg hann, sem minn velgjørara, er það mitt stadfasta og einlægasta áform ad audsýna honum mína elsku, ecki med eintómis tilfinníngum, ecki med eintómis andvorpunum og ávaxtarlausum tárum, heldur med öldúngis viljugri, gladri, undanfærslulausri og stadfastri hlýdni, vid þau heilögu lög, sem hann hefir lagt fyrir mig, jafnvel einnig þau lög, sem mótstrída mínum kjærustu girndum, já, þá veit eg, ad med állri þeirri náttúrlegu deyfd, sem eg finn til í hjarta mínu, er eg þó verdugur gestur vid þessa heilögu maltíd. Þetta er það verulega, sem Drottinn af mér heimtar. Med djørfúng nálægist eg þá fullhuga Drottins bordhald, og vík frá því aptur med þeirri gledilegu sannfæríngu:

að sá alvîsi, sem sjer mitt hjarta, sem dæmir mig, ecki eptir tilfinníngum míns náttúru-fars, heldur eptir minnar sálar sanna ástandi, muni ecki synja mér neins af þeim sáluhjálplegu notum, sem hann hefir lofað sínum verdugum bordgéstum. Já! Drottinn! þessa glødu von hef eg til þín. Wirdstú að láta hana ecki verda til skamar!

## XVIII. Kapítuli.

Hugleiding þess, sem er mjøg ángrádur i sinninu, þegar hann tidkar heilaga Qvøldmáltid.

Nóg eru mínar tilfinníngar heitar vid nautn heilagrar qvøldmáltidar; heit eru þau tár, í hvørjum mín sála sundurbrádnar vid þessa gudlegu athøfn; deyfd, hálfvelgja og kaldsinni, sem svo margir kristnir klaga yfir, eru ecki þeir brestir, sem ríkja hjá mér; en, hvørsu mikils má eg þá meta þessar tilfinníngar og þessi tár? hvad eru þau þó annad enn vissar hræríngar í mínum líkama, samqvæmar hans byggíngar-hætti; viss hreyfing edur qvik í þeim smágérdu verkfærum minnar tilfiníngar, ákéfdarfull hræríng í mínu blódi; órói

bröi og ókyrrd í mínum lífs-öndum; í einu ordi ad segja: þessar tilfinningar, sem mér þykir svo vænt um, eru þó eckert annad enn vissar hræríngar í mínum líkama. Og þessar hræríngar, kunna þar ad vera mér bræckar roksemdir um hjarta míns sanna lagfæríngu, um helgun minnar sálar, og umbreyting gjörvalls míns þenkíngar-háttar? hvad þá! skyldu allir þeir, sem hafa þessar gódu sansalegu tilfinningar vera í hjartanu sann-kristnir? ef allir þeir, sem finna til nockurskonar hrolls og ofbods í sínum hjartans grunni, þegar þeim er afmálud fyrir augunum eilífdin med öllum sínum ógnunum, og dómstóll hins réttláta Guds; ef allir þeir, sem vikna til gledi og rósemi í hjarta sínu, þegar þeir heyra talad um sína fridþægíngu; ef allir þeir, hvorra hjörtu ad klöckna og svída vid þad, ad sjá med trúarinnar augum þann blóduga forlíkunar-mann á Golgatha; ef allir þeir, sem fljóta í tárum, þegar þeir taka á móti panti sinnar forlíkunar frammi fyrir Jesú Krists altari; ef allir þeir, sem hafa þessar gódu skilníngarvitanna tilfinníngar væru gódir sannkristnir menn, hvörsu voldugum og ágætum vexti mundi þá ecki Jesú Krists

ríki

ríki taka! en, því miður! dagleg reynsla mótmælir þessum þánka. Hvílíkar tilfinníngar, hvílík yfirvættis gledi og unaðsemd, hvílík andakt, hvílíkur lifandi og glóandi andi, hvílík tár, hvílíkar andvarpanir finnast þar ecki hjá sumum kristnum við tíðkun heilagrar qvöldmáltídar; og undir eins og þessi guðsþjónusta er úti, hvílík deyfð, hvílíkt kaldsinni, hvílíkt hyrduleysi, hvílíkur andlegur svefn finnst þá ecki strax um hæl hjá hinum somu kristnum monnum? eru þessir þá sannkristnir, af því þeir hofðu þessar góðu sansalegu tilfinníngar? og má eg þá ætlast til þess, að eg sé sannkristinn fyrir það, þó eg hafi þær?

O! þessi hræring í líkamanum, hvorsu mjög kann hún ecki að svíkja mig? þessar tilfinníngar, sem þessi heilága athöfn vekur, þær geysa, kannské, ecki nema yfrið skamma stund; þessum ósþektum í mínum sonsum slotar, kannské, brádlega; og varla hefir þeim slotað, fyrr enn eg má ské fell aptur til baka, og er sá sami syndari, sem eg hef ætíð verið; og sé nú mínu ástandi þannig varið, hvorsu lítt gét eg þá hrósað mér af mínum tilfinníngum? hvað mikils gét eg þá metið þær.

Það

Þad er ad vísu satt, þessar tilfinn-íngar geta ecki lengi varad; allar brádar tilfinníngar hljóta ad vera skammvinnar, og lída skjótt frá aptur. En minn þenk-íngar-háttur, mitt hugar-far, mitt áform, ætti þó ætíd ad vera hid sama, og sé þad ecki hid sama, til hvors gagna mér þá mínar tilfinníngar? nei, þær gagna mér þá til enkis; í Jesú opinberada ordi finn eg hvörvetna lifs-reglur þessar: helgid ydar hjörtu, hreinsid ydur af allri fleck-un sálar og líkama; fullendid ydar helg-un med Drottins ótta; elskid ecki heim-inn, ecki heldur neitt þad, sem í heim-inum er; sýnid í ydar trú stadfesti, í stadfestinni hyggindi, í hyggindunum bindindi, í bindindinu þolinmædi, í þolinmædinni gudrækni, í gudrækn-inni bródurlegann kjærleika, í bródur-legum kjærleika almennilegann kjær-leika; af þessum lifs-reglum finn eg hvör-vetna nóg; en hvar finn eg þessar lifs-reglur: hugsa þú aldrei svo til synda þinna, ad sá þánki ecki uppfylli þína sálu med ei-lífdarinnar ógnunum; set þér aldrei svo fyrir sjónir Guds elsku í þinni forlíkun, ad fagnadar- og þacklætis-tár væri ecki þín-ar

ar kinnar; nei, þessar lífs-reglur finn eg hvörgi: Drottinn kann ecki ad leggja fyrir mig þær lífs-reglur, sem ecki stendur í mínu valdi ad uppfylla, og, sem ecki mundu gjöra mig í neinu betri, heilagri, rádvandari, þó eg hefdi þad vald yfir vessunum í mínum líkama, ad eg um yfrid stuttann tíma gæti uppfyllt þær.

Æ! mín sála! lát þessar tilfinníngar þá ecki svíkja þig! svo gódar, sem þessar tilfinníngar eru í sjálfum sier, svo mikid, sem þær kunna ad stoda til ad efla þínar gudrækniś-ydkanir og þinn kristinndóm, svo lángt er frá því, ad þinn kristinndómur sie innifalinn í þeim einúngis. Hlauptú aldrei brád-dæmi á þig fram med því ad álykta þannig; þier geugur svo innilega til hjarta ad heyra kristinndómsins raust; þitt hjarta-brádnar svo vid umþenkíngu pínsla þíns Forlíkunarmanns; þvílíkum tárum úthellir þú vid umþenkíngu þinna synda; þú ert þá þess vegna kristinn madur; þitt hjarta er þess vegna betrad og þín sála helgud. Nei! þú gjetur enga adra álytkun dregid þar af enn þessa: þess vegna hefir þú vidqvæmt og tilfinníngasamt hjarta, sem fyrir Guds nád kann ad lagast dygdinni og kristinndóminum til musteris; en, ef eg dreg af því þá ályktan, ad þad hafi þegar fengid þessa lögun, þá svík eg sjálfann mig.

Nei, Drottinn hefir aldrei vísad mjer til þessara tilfinnínga eins og einkenna, eptir hvörjum eg skyldi ransaka minn kristinndóm; en til þessara einkenna hefir hann vísad mjer: hvörr,

sem

sem elskar mig, hann heldur mín orð; Þar af Þeckjum vjer að vjer elskum hann, að vjer höldum hans boðorð; Þetta hið sama er Þá einkennið á mínum kristinndómi; ecki vissar hræríngar í mínum sönsum, í minu blóði, í mínum vessum; ecki tár, ecki andvarpanir, heldur elskan til Guðs, hvílík elska, sem auðsýni sig með hlýðni: Þar af Þeckjum vjer að vjer elskum hann, að vjer höldum hans boðorð. Ef eg vil Þá vita, hvört eg er sannkristinn eður ecki, hvört eg stend í náð hjá Guði eður ecki; hvört eg við Þessa heilögu athöfn hefi orsök til að vænta mjer góðs, eður kvíða illu, Þá hlýt eg fylgislaust og alvarlega að ransaka, með hvaða lysti og unaðsemd, með hvaða alvöru og alúð eg ofurgefi og hafni mínum eiginn vilja fyrir Guðs míns vilja, og lögum minnar vanartar fyrir Drottins lög; Þá mun mín samvitska segja upp dóminn yfir mjer, og sá dómur mun verða mjer ríkuglegg uppspretta annaðhvört til minnar sorgar, eður minnar rósemi. Sæll er eg, ef mín samvitska rettlætir mig; farsæll er eg, ef eg finn til Þessarar elsku og Þessarar hlýðni hjá mjer, Þá má eg líka gleðja mig yfir mínum heitu, góðu tilfinníngum, og Þacka mínum Guði, sem tilbjó Þessar tilfinníngar í mínu hjarta, og fyrir Þessar tilfinníngar gjörir mig svo farsælann.

Við-

# Vidbætir
um
# Skripta-mál.

Ad Skripta-málin, þessi gudrækilega sidvenja, sem af forfedrum vorum er innfærd í kristnina, verdi af morgum misbrúkud; ad hún snúist morgum uppí syndsamlegt andvaraleysi, og kunni, þegar menn hafa á henni rángann skilníng, ad svæfa syndarann í stad þess ad uppvekja hann af sínum synda svefni; þad er sá sannleiki, sem eg sé ecki eitt augnablik efast um. Hvorsu margir gjora sér ecki í lund, ad þótt þeir gángi óhreinir og vanhelgir inní skriptastólinn, víki þeir þadan aptur gagnhreinir, heilagir og réttlættir? hvorsu margir ætla ecki, ad þeir, med allri sinni vanart og ydrunarleysi, hafi fundid nádugann Gud fyrir Drottins altari, þegar þeir ad eins í skriptastólnum hafa fengid sér bodada fyrirgéfníngu synda sinna? hvorsu óluckulegt svikrædi vid sjálfann sig! hvorsu svæfir þad ecki synd-

syndarann! hvílíka huldu, sem ecki er unnt ad þreyngja sér ígégnum, dregur þad ecki fyrir augu honum, svo ad hann hvorki sjer bálid, sem svo ógurlegt vofir yfir hans høfdi, né afgrunnid, sem opnad er undir fótum honum. Í þeirri sviksamlegu von, ad hans drýgdu syndir séu nú afmádar, hyggur hañ, ad hann megi nú þess óhultari byrja aptur á nýjum syndum; og þegar þessir nýju glæpir taka aptur til ad ofþýngja hans samvitsku, þurfi hann ecki nema ad koma aptur til skripta-stólsins, til ad fá aptur fyrirgéfníngu á þeim. Þannig verdur þetta gudlega verk, af því menn hafa rángann skilníng á því, þvert á móti sínum tilgángi, ad medali til ad géfa samvitskunni sviksamlega rósemi og nýtt abl verri spillíngu.

Mun eg nockud gjøra meir úr þessu, enn dagleg reynsla, því midur! stadfestir? ef ver virdum fyrir oss suma kristna menn, sem ár eptir ár gánga til altaris; hvørsu andaktugir koma þeir ecki til skripta-stólsins; med oblugu trúar athvarfi heyra þeir sinna synda fyrirgéfníngu, hvørsu gladir gánga þeir ecki fram fyrir Drottins altari? hvørsu rósamir í samvitskunni vikja þeir frá því, hvørsu ánægdir med sjálfa sig

sig koma þeir heim til sín, hvørsu hug-
hraustir þacka þeir þá Drottni, ad þeir
hafi nú, eins og menn ad ordi komast, for-
líkad sig vid Gud sinn? en látum oss nú
fylgja þeim fetinu lengra. Varla er þess-
ari gudrœknis athøfn, med øllum hennar
undangángandi og eptirfylgjandi gudrœkn-
is ydkunum aflokid, fyrr enn þeir taka ad
nýju til hinna sømu glœpa, sem ádur.
Þeirra vanart hefir rétt eins og legid í
dái og tekid hvíld, til þess hún gæti ad
nýju brotist fram, med því stœrri orku.
Hvada dóm finnst oss, ad vér med øllum
rétti hljótum ad fella á þessa kristna menn?
hofum vér ecki fullnóg rok til ad ætla, ad
þvílíkir kristnir áliti skripta-stólinn eins og
grida- og forlíkunar-stad, hvar þeir án
ydrunar, án ángurs yfir sínum drýgdu
syndum, án stadfastlegs ásetníngs ad var-
ast nýjar syndir, án verkandi kroptugrar
ávoxt fœrandi trúar, þurfi ecki nema ad
gánga þángad ad eins, og leggja þar af
sér alla sekt sinna fyrri synda, frelsast þar
frá øllu því straffi, sem Drottins réttlæti
hótar løgmálsins yfirtrodslu - mønnum;
létta þannig á samvitskum sínum og gjøra
róssom sín hjørtu í tilliti til umlidna tím-

 ans.

ans. Sektin, sem þeir sídan safna sér, gêtur þá í mesta lagi ecki talist edur reiknast lengur til, enn frá því þeir í seinasta sinni gengu til altaris. O! þú mikli Gud! hvílíkri list og kiænsku verjum vêr ecki til ad sá svíkid siálfa oss, og leynt afgrunninu fyrir oss! o! ad eg mætti þó verda svo heppinn, ad eg fengi frelsad þessa kristna menn af sinni háskalegu villu, med hvörri þeir svíkja siálfa sig, og fengi opnad þeirra augu, til ad siá þann ógna hyl, sem þeir skunda hradfara fram ad!

Til þess eg nái þessum tilgángi, hlýt eg ad leida í liós, hvad þessi hiá oss brúkanlegu skripta-mál eiginlega séu, í hvörju tilliti þessari gudrækniss ydkun sé í vorri prótestantisku kirkju vidhaldid, og hvör heñar sanna verkan sé, edur eptir tilætlun hinna gömlu ætti ad vera. Eg segi eptir tilgángi þeirra gömlu; því þad vitum vêr Þó ad vísu allir, ad þessi skripta-mál eru hvörki tilskipud af Kristi né hans Postulum. Jesús Kristur meddeildi sínum lærisveinum heilaga qvöldmáltíd án nockurra undangángandi skripta-mála. Á seinni tímunum komu Jesú Postular saman og framqvæmdu þessa heilögu athöfn til þacklátr-

ar

ar endurminníngar pínu síns Forlíkunarmanns án nockurra undangángandi skriptamála. Það var þá fyrst á seinni tímunum, að þessi siðvenja var innleidd í kristnina. En sé hún hvorki tilskipuð af Kristi né hans Postulum, þá er hún ecki heldur eins makráriðandi og mikilvæg, sem heilög qvöldmáltíð sjálf. Þessi guðræknis athöfn er þá ecki svo øldúngis ómissandi; en þó getur hún verið yfrið nytsamleg; hún útheimtist að vísu ecki til verðugrar nautnar heilagrar qvöldmáltíðar, en hún getur þó verið nytsamlegur undirbúníngur til að njóta hennar verðuglega. Þetta mun oss fullkomlega skiljast, þegar eg sæ sett fyrir sjónir þessa athøfn og í hvörjum atriðum hún sé innifalin. Á eldri tímunum var skripta-málið innifalið í þessu þrennu: synda-játníngu af þess hálfu, sem skriptaðist, áminníngar-ræðu og boðun syndanna fyrirgéfníngar að Kennifeðursins leiti.

Fyrsta atriðið, sem útheimtist til skriptamálanna var synda-játníngin. Þessi siðvenja hefir sinn uppruna frá fyrstu tímum kristninnar. Þegar einhvörr hafði framið opinbert afbrot, með hvörju hann hafði gefið söfnuðinum hneixli, þá var hann úti-

lokadur af sofnudinum um nockurn tíma til straffs fyrir þad hneixli, er hann hafdi gëfid, og þegar hann skyldi aptur inntakast í sofnud kristinna manna, þá hlaut hañ ad koma fram í því háttalagi, sem í ljósi lëti ydrun og ángur, vidurkënna sitt brot fyrir sofnudinum, og afbidja þad.

Þessi afgamla sidvenja er ecki lastverd; hún er byggd á Jacobs áminníngu: játi hvørr ødrum sínar syndir, og bidjid hvørr fyrir ødrum, þad þër heilbrygdir verdid, Jac. 5. Þetta er ágjætt medal til ad vidhalda reglu og gódu sicki, og ad minnsta kosti til ad koma í veg fyrir útvortis stóra og hneixlanlega glæpi.

En þær bestu sidvenjur kuña fyrir misbrúkunina ad falla úr-ættis og verda skadlegar. Þær bestu sidvenjur, sem eptir sínum fyrsta tilgángi skyldu forsvara og fremja rød og reglu, þær géta fyrir misbrúkunina ordid sjálfar ad tækifæri til hinna skammarlegustu ósida og regluleysis, og svo fór hër. Veraldlég stjórnarbregd, yfirgirnd, fégirni, umbreyttu þeirri opinberu synda-játníngu í þá heimuglegu. Nú skyldu allir þeir, sem vildu gánga til altaris, fyrst í skripta-stólnum játa allar sínar syndir fyrir

fyrir Prestinum; og menn toldu einfeldíngum trú um, ad á þeirri synd, sem ecki væri medkénnd kynni ecki heldur ad vænast fyrirgéfning. Þessa sidvenju og þennann lærdóm, sem enn þá í dag vanvirdir hina rómversku kirkju, aftók ad sonnu hinn sæli Lúther, en hann héldt þó eptir skriptamálunum, svo sem gódu tækifæri til uppbyggíngar þeim, sem til altaris gengi. Vanbrúkanin var afnumin, en hlutnum sjálfum héldt hann, af því hann kunni ad vera nytsamur, þegar misbrúkanin var í burtu. Menn toldu nú ecki framar upp hvorja synd sérílagi, sem þeir framid hofdu um æfi sína; en lásu sumstadar utan ad almennilega synda-játníngu, í hvorri þeir gáfu til kynna sína audmýkt fyrir Gudi, og hvorsu mjog þeim lægi á hans nád og miskun. Þessi sidvenja er ecki heldur lastverd í sjálfri sér. Ad hjartans tilfinníngar láta sig í ljósi med ordum og ytri hegdun, er ecki lastverdt; en þess nytsemi þori eg ecki heldur mjog ad hæla. Þvílíkt almennilegt játníngar-form, sem madur í æsku sinni hafdi lært utan ad, hvornig gat þad verid svo lagad, ad þad kynni ad ega heima vid sérhvorrar annarar manns-

ekkju åstand út af fyrir sig? skyldi madur ecki optlega hafa sakfellt sig fyrir þá bresti, sem hann var ecki valdur ad? mun ecki munnurinn opt hafa talad þad, sem sálin hugsadi eckért eptir og hjartad fann eckért til? og þá gat þessi sidvenja, sem í sjálfri sér var saklaus, ordid skadleg. Því hefir líka þessa sidvenja smámsaman aflagst á me-al vor; í vorum kirkjum kunnum vér ecki framar ad álíta hana fyrir neinn part skripta-málanna, og fyrir þad er þó engu í spillt. Fyrir Gudi gétum vér játad vorar syndir í einrúmi, vér þurfum ecki ad játa þær med munninum í skripta-stólnum. Þaradauki er þessi athöfn í sjálfri sér þegjandi synda-játning. Í vorum kirkjum gétum vér þá ecki talid í skripta-málum nema two atridi, upporfunar-rædu til þeirra, sem til altaris gánga, og bodan syndanna fyrirgéfníngar af Guds hálfu.

Þad væri ad vísu um þorf fram, ad leida rok til þess, ad sú áminníngar-ræda, sem í skripta-stolnum er haldin, til altaris-gaungu-fólks, sé nytsamleg; ad sonnu vil eg ecki fullyrda, ad hún sé oldúngis ómissandi, edur ad hún sé jafn-naudsynleg

fyrir

fyrir alla. Þar eru þeir kristnir menn til, sem sjálfir gêta þenkt fyrir utan adstod annara, sem med sínum hugleidíngum í einrúmi, gêta sagt sjálfum sér þad sama, já, gêta, kannskê, sagt sér þad miklu betur enn margir Kennifedur hafa vit á ad segja þad. En, sama má lika segja um vorar opinberu rædur, og skyldu þessar rædur þar fyrir vera óþarfar? vitum vér ecki allir ad lifandi tal verkar kroptugslegar enn þad dauda? sá hiti, þad líf, med hvorju Kennifadirinn framsetur sínar upporfanir, hvorsu medbyhtist þetta ecki sálum hans tilheyrenda? og hvorsu miklu meir hlýtur þetta ecki ad verka, einkum þann tímann, sem sálin er í því horfi ad taka á móti heilogum tilfinníngum? þó þad sé þá ecki eldúngis ómissandi ad halda þessar upporfunar-rædur til allra, svo er þad þó ætíd nytsamlegt. Nytsamlegt er þad, ad þeim hugleidíngum, sem í einrúmi voru eru byrjadar, verdi í Drottins húsi ad nýju áfram haldid; nytsamlegt er þad, ad þeirri sjálfs-prófun, sem vér í einrúmi voru hofdum látid gánga yfir sjálfa oss, verdi ad nýju hjá oss innþryckt og hún enn alvarlegar logd oss uppá hjartad;

nytsamlegt er þad, ad vèr séum minntir á þann mikilvæga tilgáng þessarar heilogu athafnar; á þad hugar-far, med hvørju vèr egum ad tídka hana; á þau ávaxtar-not, sem verdug nautn, og óluckuleg eptirkøst, sem hennar óverdug nautn géti ecki á mis vid farid ad abla oss. Já, sáum vèr nógu opt minntir ordid á skyldur vorar, nógu opt upphvattir til heilags áforms, nógu opt styrktir í því sama, þar vèr egum ætíd ad vefjast í svo øblugum freistíngum, sem daglega umkríngja oss, daglega bera vora dygd og rádvendni ofurlidi. Og þessar áminníngar, þessar upporfanir, hvønær skyldu þær vera oss ómissanlegri, enn í þann tíma, þegar vèr mætum fyrir vors Drottins altari, til þess ad vinna eilísum Gudi vor heit; og þó þær jafnvel séu ecki øldúngis ómissanlegar, þá eru þær þó ætíd nytsamlegar; þó þær séu ecki naudsynlegar fyrir alla, þá eru þær þó øllum nytsamlegar. Enginn hygginn kristinn madur gétur þá lastad þenna part þessarar gudlegu sidvenju; ad lasta hana, er eingis røksemd fyrir, hvørsu litt vèr þeckjum manneskjuna og hennar breyskleika. Sá besti læknir brúkar lid annars læknis

í sjúk-

í ſjákdómi ſínum, ſkyldi þá hygginn kriſt-
inn madur ſídur þarfnaſt upporfunar og
áminingar af ödrum til heilſubótar ſini ſálu.
En ſvo ſem þad í þeſſum parti ſkripta-
málanna mæta engin vandrædi, nema þeim
einum, ſem þykir hefd í ad finna vandrædi
í öllum hlutum, ſvo mæta í hinum partin-
um því fleiri torfærur, eg meina, í ſyndanna
fyrirgéfníngu, ſem hér verdur bodud þeim,
er gánga til altaris. Eg gét ecki heldur neit-
ad því, ad þeſſi ſidvenja, þegar menn hafa
rángann ſkilníng á henni, gétur eins mikid
ſvæft ſamvitſkuna, eins og ſu undangáng-
andi upporfunar ræda gétur þénad til ad
vekja hana. Ecki allfáir hafa þá ſkadvænu
innbyrlíngu, ad Kénniſedurnir hafi eins-
konar þeim í hendur fengid vald til ad fyrir-
géfa ſyndir, og ad allar ſyndir hljóti því ad
vera fyrirgéfnar, þegar Kénniſedurnir hafa
ad eins bodad þeim ſyndanna fyrirgéfn-
íngu. Hvorſu ſkadſamur hleypidómur er
ecki þetta? hefir hann í ſkynſeminni edur
Guds opinberada ordi nockud, ſem hann
megi ſtydjaſt vid? eg þori med viſſu ad
fullyrda, ad hann hefir enga áſtædu hvorki
hér ne þar. Eg finn miklu framar ad
þeſſi þánki er gudlaſtan. Sá Kénniſad-

 ir,

ir, sem stendur uppá þad, ad hann hafi vald til ad fyrirgéfa syndina í Guds umbodi, hann hædir ad Gudi; og sá kristinn madur, sem gjørir sér í lund ad Drottins þénarar géti í Guds stad fyrirgéfid honum hans syndir, hann hædir allt eins ad Gudi. Þeim, sem oss hafa styggt, gétum vér fyrirgéfid þeirra mótgjørdir, þad er vor skylda; en þar af flýtur þó ecki, ad Drottinn hafi fyrirgéfid þeim þær. Vér gétum ecki fyrirgéfid einum þau afbrot, sem hann hefir framid móti ødrum, og hvørnig mættum vér þá géta fyrirgéfid honum þau afbrot, sem hann framid hefir móti þeim allrahæsta? hafi einhvørr rænt oss eignum vorum, edur vanvirdt vort gott nafn, viljum vér þá meina ad Drottins þénarar géti vor vegna fyrirgéfid honum þessi afbrot, og vér svo fyrir þad missum vorn rétt til ad sækja vort mál og framfylgja vorum krøfum? og þegar Kénnifadirinn hefir bodad syndaranum fyrirgéfningu á sínum afbrotum, þá skyldi óendanlegur Gud enkis géta krafid hann framar, Drottins heguandi réttlæti skyldi þá strax umbreytast í nád og miskun? hvørsu gagnstædt er þetta sjálfu sér? hvørsu frá-

frákeitt ollum sanni! vér holdum þó annars ætíd, ad sá einn, sem styggdur er, egi ráð á ad fyrirgéfa afbrot þau, sem móti honum hafa framin verid, og þó gétum vér ætlad ad Kénnifadirinn muni hafa vald til ad frikénna syndarann fyrir þær syndir, sem hann hefir framid á móti þeim óendanlega? hvørnig kynni Gud ad selja nockrum manni í hendur þenna myndugleika, þenna part síns ædsta dómara embættis? sá, sem í Guds stad skyldi fyrirgéfa syndirnar, hann hlyti, ad minnsta kosti, ad hafa þá alvitsku til ad bera, sem þreyngdi sér inn í þau innstu fylsni hjartans, sem þeckti syndarinnar stærd, og til hvad stórs straffs hún hefdi unnid, sem gæti sied og leidt í ljós hreinskilni vorrar ydrunar, og einlægni vors endurnýjada ásetníngs. Undir því er þad komid, hvørt þvílík fyrirgéfníng sé nockru sinni møguleg. Fyrir utan þenna betrunar ásetníng, gétur Drottinn ecki nockru sinni fyrirgéfid. En þar enginn madur hefir þessa alvitsku og þessa þeckíngu mannlegs hjarta til ad bera, svo er þad ecki heldur nockurs mañs ad hafa á hendi þetta Drottins dómara embætti.

Þetta kénnir þá óbrjálud skynsemi einúngis, ad Kénnifedurnir géti ecki í Guds stad fyrirgéfid syndir, og hvadan kémur þá þessi þánki? hvorninn er hann innkominn í kristnina? vèr vitum allir, ad þessa ránga meiníng er uppkomin í þeirri kirkju, hvorrar Yfirhöfud setur sig í Guds musteri, og segist vera Gud. Þegar hinn sæli Lúther byrjadi sína lagfæríngu á trúarbrøgdunum, hreinsadi hann ad vísu burt hid vonda súrdeig, en hélt eptir, eins og hygginn madur, þeim greinum, sem óskadvænar vóru, þeim, sem ad minnsta kosti engann skada gjördu, þó þær ecki væru sem nytsamlegastar, þeim, sem hreinsadar af hjátrúnni, gátu verid gódar og nytsamlegar. Eitt af því eru messu-klædin, sem enn þá eru í brúki hjá oss, ljósin, sem um tídkun qvöldmáltídarinnar brenna á altarinu, og þadan eru líka vor skripta-mál, og sú bodan syndanna fyrirgéfníngar, sem enn þá er vidhaldid í vorum kirkjum.

Þessi sidvenja, þegar hún ad eins er rètt skilin, er ecki skadleg, ecki gudlöstunarfull, eg þori miklu framar ad fullyrda, ad hún er nytsamleg og uppbyggileg. En þad-hygg eg líka, ad þessi sidvenja, sem af ein-

foldum verdur opt svo ránglega skilin, sé bygd á raungum grundvelli. Vér færum til vors máls Jesú skipun: hvørjum hellst þér fyrirgéfid syndirnar, þeim eru þær fyrirgéfnar, og hvørjum þér þær ecki fyrirgéfid, þeim eru þær ecki fyrirgéfnar, Jóh. 20. Vér firskotum til Jesú skipunar: hvad hellst þér bindid á jørdu, skal á himnum bundid vera, og hvad hellst þér leysid á jørdu, skal leyst vera á himni, Matth. 18. Þad er sú sama skipan, sem hann hafdi géfid Pétri: eg vil fá þér í hendur lyklana ad Guds ríki; hvad þú bindur á jørdu, skal bundid vera á himni, og hvad hellst þú leysir á jørdu, skal leyst vera á himni.*) Ef vér samanberum þessar greinir hvørja vid adra, þá segja þær allt annad enn þad, sem madur ætlast til þær segja skuli. Já, Jesús Kristur gérur hér med Lærisedrunum leyfi til ad fyrirgéfa syndir, en — hvørjar syndir? eru þad allar syndir yfir høfud?

 edur

*) Þessi talsháttur: ad binda og leysa med lyklum, kemur af adferd hinna gømlu, ad ljúka upp edur læsa, sem skédi med festum edur reimum, sem bundnar edur leystar vóru med vissum lyklum.

edur eru þad vissar serdeilis syndir? þetta spursmál er þess verdt, ad þad se sylgislaust ransakad.

Sú fyrsta skipan, sem Jesús gaf Pétri, og í hans nafni öllum kristnum Kénnifedrum, sem er sama inniholds og sú skipan, er hann sídan gaf öllum Postulunum, er þessi: eg vil géfa þér lyklana ad Guds ríki; hvad þú bindur á jördu, skal á himnum bundid vera, og hvad þú leysir á jördu, skal leyst vera á himni. Hvör er meiníng þessara orda? hvörsu lángt nær þessi skipan? oss er hún audskilin ef vér ad eins viljum skilja hana. Kristninni verdur af Kristi og hans Postulum opt og ósjaldan samlíkt vid hús; en hús nockurt gétur ecki stadid opid fyrir öllum, íllum og gódum án alls greinarmunar; húsid hlýtur ad vardveitast med skrá og lykli; fyrir þessum lykli hlýtur madur ad trúa Rádsmanninum, sem eptir atvikum lýkur upp fyrir sumum, en aptur fyrir ödrum, og stendur til ansvara þar um fyrir þeim rétta Húsherra. Kénnifedurnir eru þessir Rádsmenn yfir Guds edur Jesú Krists söfnudi. Sérhvörr, segir Páll, skal álíta oss fyrir Krists þénara og Rádsmenn yfir Guds

Guds leynda dóma 1 Cor. 4. Þessir Krists þénarar, þessir Ráðsmenn yfir Guds leyndardómum hafa þegid þad vald af Kristi, ad útiloka af kristninni opinbera og blygdunarlausa glæpamenn, og eptir þad þeir hafa sýnt á sér yðrunar merki, ad taka þá aptur inní söfnudinn, eptir því, sem safnadarins almennilegu velferd hentar. Ad Kénnifedurnir hafi þegid af Gudi þessa myndugleika, ad þeir hafi, og naudsynlega hljóti ad hafa hann til ad bera, þad er skiljanlegt. Allt eins og borgaralegt stjórnarstand er félag, svo er Jesú söfnudur líka eitt samfélag, er samanstendur af ymislegum, en þó nákvæmlega sín á milli samtengdum limum; allt eins og slæmur limur kann í borgaralegu samfélagi ad útilykjast frá stjórnarstandsins hlunnindum og hagsældum, eins er því líka varid í þessum andlega félagskap. Páll áminnir þess vegna söfnudinn í Corinthu-borg, til ad útskúfa úr sínu samqvæmi þvílíkum hneixlanlegum lim. Þér hafid ecki mikid ad hrósa ydur af, segir hann, vitid þér ecki ad litid súrdeig sýrir allt deigid, hreinsid þess vegna burt hid gamla súrdeig, 1 Cor. 5. og fleiri dæmi má hér til telja:

Post-

Postulanna skrifum. Og ad søfnuduriñ yfir høfud, og Kénnifedurnir sérílagi, svo sem safnadarins Rádsmenn, hafi vald til, þegar þvílíkur hneixlanlegur limur bréytir lífshættum sínum og sýnir á sér ángur yfir sinni drhgdri synd, ad fyrirgéfa hónum hans brot og inntaka hann aptur í kirkjunnar samneyti, er allteins skiljanlegt; þar ed þvílíkur hneixlanlegur kristinn madur hefir syndgad móti søfnudinum, svo gétur søfnudurinn einnig fyrirgéfid hónum hans hneixli, ad því leiti, sem þad er framid á móti hónum.

Þetta er einúngis Jesú meiníng: þetta er einúngis þad vald, sem hann leggur Kénni-fedrunum í lén, þegar hann segir til Péturs: eg vil fá þér í hendur lyklana ad Guds ríki; hvad þú bindur á jørdu, skal á himnum bundid vera, og hvad þú leysir á jørdu, skal leyst vera á himni; þad er med ødrum ordum: þegar þér útskúfid einum alæpafullum og hneixlanlegum limi af Guds søfnudi, þá vill Gud ecki heldur álíta hann fyrir sim sinnar kirkju, og þegar þér aptur fyrirgéfid

gèfid honum hans afbrot, og gjørid hann ad lim ydar safnadar aptur ad nýju, þá vill Gud líka álíta hann fyrir lim sinnar kirkju.

Þessi útleggíng er ecki eintóm tilgáta, heldur er hún grundvøllud á samhengi þeirrar rædu, í hvorri Kristur gaf sínum lærisveinum þessa skipun. Tækifærid til þessarar skipunar finnum vér Matth. 18. ef þinn bródir brýtur vid þig, segir Kristur, þá far þú og sannfær hann millum þín og hans einsamalls; ef hann heyrir þig, þá hefir þú áunnid bródur þinn; en ef hann heyrir þig ecki, þá tak enn þá einn eda tvo til þín, svo ad út verdi gjørt um þad málefni vid tvo edur þrjá votta; ef hann heyrir þeim ecki, þá seig þad søfnudinum; en ef hann heyrir ecki søfnudinum, þá haldtú hann sem annann Heidingja og Tollheimtumann. Þad er: ef hann heyrir ecki søfnudinum, þá álít hann ecki lengur fyrir lim ydar safnadar; sannlega segi eg ydur, því bætir Kristur vid, hvad hellst þér bindid á jørdu, skal á himnum bundid vera, og hvad þér leys-

leysid á jørdu, skal leyst vera á himni. Þetta gjørvallt samhengi, hvad kénnir þad oss, ef þad er ecki þetta, ad Jesús Kristur hér í hendur fær Kénnisedrunum þann myndugleika einúngis, ad vidhalda gódu skicki og reglu í Guds søfnudi, ad útilykja þá af søfnudinum, sem ad engu hafa allar áminníngar, er þeim hafa gjørdar verid, og halda engu ad sídur áfram í sínum hneixlanlegum lifnadi, og ad inntaka þá aptur í kirkjunnar samneyti, þegar þeir hafa bætt rád sitt og lagfært sinn lifnad. En í Guds stad ad fyrirgéfa syndirnar, þann myndugleika hefir Jesús Kristur ecki fengid þeim í hendur. Jesús Kristur gat ecki, án gudiestunar, upphafid mannesikjuna á Guds dómstól.

Eptir meiningu þessarar skipunar til Péturs og hinna annara Postulanna, hljótum vér nú líka vafalaust ad útleggja þá skipun, sem Jesús Kristur gaf sínum lærisveinum eptir sína upprisu: hvørjum þér fyrirgéfid syndirnar, þeim eru þær fyrirgéfnar; og hvørjum þér ecki fyrirgéfid þær, þeim eru þær ecki fyrirgéfnar. Þeir fyrirgéfa

gefa' þeim syndirnar, sem þeir annadhvort láta vera í sofnudinum edur inntaka aptur í hann, eptir þad þeir hafa í frammi látid merki sinnar ydrunar og betrunar; hinum fyrirgefa þeir ecki sinar syndir, sem þeir láta sifellt vera útilokada frá sofnudinum. Adra syndanna fyrirgefníngu hefir Kristur ecki leyst Kénnifedrunum; um þá heimuglegu syndanna fyrirgefníngu talar hann ecki. Menn finna heldur aldrei, ad hún hafi af Postulunum tídkud verid á fyrstu tímum kristninnar; þeir brúkudu einúngis, eptir Krists skipun, þenna myndugleika, ad þeir útiluktu af sofnudinum óverduga limi, edur inntóku þá aptur í sitt samfélag, eptir þad þeir hofdu sýnt ydrunar-merki. Þessir vóru þeir lyklar ad himnariki edur sinni kirkju, sem Jesús Kristur hafdi trúad þeim fyrir.

En, hvad þýdir þá sú syndanna fyrirgefning, sem bodud verdur í skriptastólnum? þessi syndanna fyrirgefning, er hún þá ecki gudlastan? er ecki þar med ofdyrfskulega fallid inn í þad ædsta dómara embætti, sem einúngis tilheyrir þeim hendanlega? nei; þad er oldúngis ecki mein-

meiníngin, ad vér í Guds stad skulum fyrirgéfa syndina; en uppá Guds vegna gjörum vér þann ydrandi Jesú bordgést fullvissann, þann, hvers hjarta pryðt er med sönnu ángri yfir sínum syndum, med lifandi, kroptugri, ávoxtfærandi trú á Krist, med stadföstum, heilögum betrunar ásetníngi, hann gjörum vér uppá Guds vegna fullvissann um, ad Drottinn sé honum nádugur, ad hann í krapti Ritníngarinnar fyrirheita kunni ad vona á hann, sem forliktann födur, ad Drottinn hafi fyrirgéfid honum allar hans syndir. Vér segjum honum eckért framar enn þad, sem Nathan í Drottins nafni sagdi vid David; Gud hefir burttekid þína synd, þú skalt ecki deyja, 2 Sam. 12. Þessi fullvissa, sem skédur undir því skilyrdi ad eins, ad þessir, sem til altaris gánga, hafi þá eginlegleika, sem útheimtast til ad verda hluttakandi í Drottins nád; bodan þeirrar fullvissu er engin gudlastan, hún er ein af þeim embættis skyldum, sem oss eru uppálagdar, svo sem Krists þénurum, svo sem rádsmönnum yfir Guds leyndardómum, svo sem sendibodum í Krists stad. Í

krapti

krapti þess embættis, sem oss er tiltrúad, eigum vèr ecki einúngis ad boda lögmálid heldur einnig Evangelium; ecki einúngis ad ógna ydrunarlausum, heldur einnig ad hugga ydrandi. Þad, sem Páll skipar öllum kristnum mönnum yfir höfud, þad gyldir fyrst og einkum um Kénnifedurnar: áminnid óráðvanda, huggid istödulitla, stydjid breyska, verid þolinmódir vid alla, 1 Tess. 5. Þad er satt, eg vil játa þad, ad bodan þessarar fullvissu, er ecki eins naudsynleg fyrir alla; væri hún öldúngis naudsynleg til þess ad njóta verduglega heilagrar qvöldmáltídar, þá hefdi ad vísu Jesús Kristur edur hans Postular géfid í því tilliti eitthvört bodord. En, gétum vèr neitad því, ad þessi sidvenja sè uppbyggileg? gétum vèr neitad því, ad hún hafi inni ad halda huggun og hugarhægd fyrir alla þá, hvörra hjörtu svo eru ásigkomin, ad þeir géta med fullri vissu tekid á móti þessari huggun? en til engrar huggunar, engrar hugarhægdar gétur þessi bodan syndanna fyrirgéfníngar verid þeim, sem án ydrunar, án trúar, án betrunar ásetníngs nálægjast

Drott-

Drottins altari; þared þvílíkir elska enn þá sínar syndir, þá liggja þeir undir straffi sinna synda. Drottinn gétur ecki fyrirgéfid slíkum mønnum sínar syndir, og sú fullvissa um syndanna fyrirgefníngu, sem Kennifedurnir géfa þeim undir vissum skilyrdum ad eins, gétur ecki afmád þær.

O! ef vér viljum þá finna til þeirrar fagnadar-ríku hjarta-fridandi fullvissu, ad vorar syndir séu fyrirgéfnar, ad vorar misgjordir séu afmádar, ef vér viljum géra huggad oss vid þá aflausn, sem Kennifadirinn Guds vegna bodar oss, þá hljótum vér fyrst í einrúmi voru ad fullnægja Páls áminníngu: hvørr madur prófi sig sjálfur. Látum oss rannsaka vora ydrun, vora trú, vora elsku, vorn ásetníng; þegar vor samvitska ecki fordæmir oss í þessu ransaki, þá er vor huggan velgrundud, annars ecki.

Krist-

# Kristins manns Gledisaungur
vid yfirvegun Jesú Krists velgjørnínga.

Lagid er: Nú kom heidinna hjálpar-ráð.

Jeg gledst af því eg Jesum á! hvad jafnast má vid gledi þá? hún mér í raunum hugsvalar, hagsæld medlætis tvøfaldar.

2. Jeg gledst af því eg Jesúm á! jafnan í náð bænheyrir sá; synd mína afmá sjálfur vann, sáttann vid Gud mig gjørir hann.

3. Jeg gledst af því eg Jesum á! jeg vil sál mína hvetja þá, ad þreyti fús hinn þraungva stig, því hann ei yfirgéfur mig.

4. Jeg gledst af því eg Jesúm á! jeg stendst því heimsins svikráð slá; fors heims ei unnid fær mér svig, fullhuga gjørir Jesús mig.

5. Jeg gledst af því eg Jesúm á! jafnvel deyds ógn ei hrædast má, hann því vidbúinn hittir mig, heimfør mín verdur fridsamlig.

Jeg

6. Jeg gledst af því eg Jesúm á! jeg mun til hans í hædir ná, þar hann er, vera honum med, í himna dýrd hans fá hann sjed.

7. Já, eg gledst í þér, Jesu minn! Jesú, miskunar brunnurinn! mín gledi, lífgjef, Gud! ertú, gefgan mín hljómi' um eilífd sú!

## Vers, eptir Sacramentis medtekningu.

Lagid er: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Jesú! sem ad daudann deyddir
Og daudlegum gafst lífid mér;
Þú ad bordi lífs mig leiddir,
Lausnar pantur fenginn er;
Efl þú mína ást og trú,
Auk mér sálar rósemd nú!
Þig mitt lífid heidri' í heimi,
Hjálp veit, þér eg aldrei gleymi!